# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXV. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Július (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1953

---

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada.
His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, sendiherra Íslands, Kaupmannahöfn
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Gimli, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Dr. Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
J. J. Bíldfell, Montreal, Que.
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, Minnesota
Einar Jónsson, myndhöggvari, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N.D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, formaður í guðfræðideild Háskólans í Reykjavík
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, aðalræðismaður, Stokkhólmi í Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, dómari, Rugby, North Dakota
G. J. Oleson, Glenboro, Manitoba
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. A. H. S. Gillson, Pres. University of Manitoba

**C. Styrktarmeðlimir**

Rev. Egill H. Fáfnis (nú dáinn) Mountain, N. Dak. U. S. A.

Rev. Philip M. Pétursson, Winnipeg Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak., U. S. A.

Mr. og Mrs. J. G. Gíslason, Morden, Man.

Mr. og Mrs. Ólafur Hallsson Eriksdale, Man.

Jón Jónsson, Winnipeg, Man.

J. W. Jóhannsson, Pine Falls, Man.

G. L. Jóhannsson, Winnipeg, Man.

Mr. og Mrs. Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

E. Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

John S. Gillis, Winnipeg, Man.

Miss Hlaðgerður Kristjánsson Winnipeg, Man.

Mr. og Mrs. Davíð Björnsson, Winnipeg, Man.

Dr. Björn Jónsson, Benito, Man.

Miss Sæunn Bjarnason, Gimli, Man. (Í minningu um Sigurð S. Fanndal, Akureyri Ísland)

Björgúlfur Sveinsson, Winnipeg, Man.

Mrs. Thordís Jónsson, Winnipeg, Man.

Hannes J. Pétursson, Winnipeg, Man.

Jóhann Th. Beck, Winnipeg, Man.

Mrs. Thordís Fischer, Winnipeg, Man.

Mrs. Guðrún Johnson, Winnipeg, Man.

Sigurbjörn Sigurðsson, Winnipeg, Man.

Leonard Helgason, Morden, Man.

Mr. Malron, Betel Old Folks Home, Gimli, Man.

Ónefndur, Winnipeg, Man.

Ónefnd kona, Lundar, Man.

**D. Æviíélagar**

Árni Sigurðsson, Seven Sisters, Man.

Dr. Helgi P. Briem, Consul Gen. of Iceland, Stockholm, Svíþjóð

Grettir Leo Jóhannsson, Icelandi, Danish Consul Winnipeg, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Gunnar R. Pálsson, New York, U. S. A.

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Hon. K. Valdimar Björnsson, Minneapolis, Minn. U. S. A.

J. W. Jóhannsson, leikhússtjóri, Pine Falls, Man.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg Man.

Óskar E. Levy, hreppstjóri
Ósum, Húnavatnssýslu,
Iceland
Guðmann Levy,
Winnipeg, Man.
Anna Margrét Levy,
Winnipeg, Man.
Eric Ísfeld,
Winnipeg, Man.

**E. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Dr. Eggert Steinþórsson,
Reykjavík
Frú Gerður Steinþórsson,
Reykjavík
Jón Eiríksson
Djúpadal, Skagafjarðar-
sýslu
Gunnar Norland,
Reykjavík
Árni Friðjónsson,
Siglufirði

2. CANADA

**Árborg, Man.**

Solveig S. Johnson

**Árnes, Man.**

Mrs. Guðrún Johnson
Þorsteinn Sveinsson
S. J. Thorkelsson

**Ashern, Man.**

Hermann Helgason
Guðm. Sigurðsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel
Dr. Friðrik Fjelsted

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Cypress River, Man.**

Stefán Eiríksson





**Eriksdale, Man.**
Mr. og Mrs.
Chris Halldórsson

**Frobisher, Sask.**
Hjörtur Bergsteinsson

**Gimli, Man.**
Miss Sæunn Bjarnason

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson
Mr. og Mrs. Freeman
Halldórsson

**Hnausa, Man.**
Hildibrandur J.
Hildibrandsson
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal
Rögnvaldur S. Vídal
Miss Sigurrós Anna Vídal

**London, Ont.**
Christian Sivertz

**Markerville, Alta.**
Mrs. Rósa S. Benediktson

**Montreal, Que.**
Mrs. H. L. Robson

**Osland, B.C.**
Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Otto, Man.**
Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Victor Freeman
Skafti V. Eyford
P. S. Pétursson
Mrs. Emma Thorvaldson
Jón Ásmundson

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson

**Riverton, Man.**
Friðrik P. Sigurðsson
Mrs. S. O. Thompson
Skúli Skúlason
Mrs. K. S. Benedictson
Pétur Jónsson

**Selkirk, Man.**
Ásgeir Bjarnason

**Sexsmith, Alta.**
Jón Einarsson

**Siglunes, Man.**
Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman
Grettir Fossman

**Skeena River, B.C.**
Fríða Phillipson

**Swan River, Man.**
Mrs. Thórdís Samson
C. Guðmundsson

**Tantallon, Sask.**
Helgi Vigfússon

**Toronto, Ont.**
Einar I. Svanbergsson
J. Ragnar Johnson

**Vancouver, B.C.**
Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíasson
Thor Guðmundsson
Miss Dóra Davidson
Bjarni Sveinsson

**Victoria, B.C.**
Dr. J. P. Pálsson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson

Mrs. Unnur Hallson
Mrs. Ingibj. Eggertsson
Mrs. Óli Johnson
Miss Margrét Lambertson
Óli Johnson
J. Eyford
Jónas Johnson
Lestrarfél. „Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Páll Jónsson

**Wapah, Man.**
Mrs. Fritz Erlendson

**Westbourne, Man.**
Mrs. Lára Sveinsson

**White Rock, B.C.**
S. D. B. Stephanson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. Sigríður Árnason
Mrs. Jónína Christie
Mrs. Gyða Hurst
Jónas Thorvarðarson
Mrs. S. Kjartansson
Mrs. Arnheiður Eyjólfsson

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman

3. BANDARÍKIN

**Alexandria, Va.**

Leifur Magnússon

**Arlington, Va.**

Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**

Dr. Stefán Einarsson
Málfríður Illugadóttir Carnes
Hildur Guðlaugsdóttir Dunbor

**Berkeley, Calif.**

Próf. Sturla Einarsson
Rev. S. O. Thorlakson

**Blaine, Wash.**

Mrs. Kristín F. Líndal

**Boston, Mass.**

Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Valgeir Einarsson
Andrés Guðmundsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Snorri Einarsson
Jakob J. Thorvaldson
Kapt. Óskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**

Óskar B. Benson
Albert Árnason

**Buena Park, Calif.**

Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**

Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library
Próf. Taylor Starck

**Chicago, Ill.**

Emil Beck
Sigurthor M. Hinrickson

**Clarkfield, Minn.**

Mrs. Jóhann Gunnlaugson

**Cismont, Va.**

Próf. Frederic T. Wood

**Cottonwood, Minn.**

H. B. Hofteig

**Davis, Calif.**

Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**

Hon. Frederick H. Fljózdal

**Fargo, N. Dak.**

W. A. Myrdal
Próf. Th. W. Thordarson

**Grand Forks, N. Dak.**

University Library

**Huntington Park, Calif.**

Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ithaca, N. Y.**

Cornell University Library
Kristján Carlson

**Jackson, Mich.**

Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**

Einar Johnson

# Selection and Values

*at your fingertips throughout the year–*




**5 GREAT EATON CATALOGUES**

**TO SERVE CANADIANS ALL YEAR 'ROUND**

**THE T. EATON CO LIMITED**
**WINNIPEG CANADA**

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG FIMMTI ÁRGANGUR, 1953

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1954

# Myndirnar



PRENTAÐ HJÁ THE COLUMBIA PRESS LTD., 695 SARGENT AVENUE, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Aldarafmæli

**1853—1953**



**Stephan G. Stephansson**
**1853—1927**

DR. RICHARD BECK:

# Ljóðaþýðingar Stephans G. Stephanssonar

Mikið hefir verið ritað um Stephan G. Stephansson og skáldskap hans, og fer það að vonum um slíkt öndvegisskáld og hann er í bókmenntum vorum; einkum var hann, eins og vænta mátti og verðugt var, örlátlega hylltur í blaða- og tímaritagreinum, ræðum og kvæðum, í tilefni af aldarafmæli hans á þessu ári (1953), og það, sem mest er um vert, á þeim aldarhvörfum var hafin ný útgáfa af *Andvökum* hans, hinu fjölskrúðuga heildarsafni kvæða hans.

Í öllu hinu marga og merka, sem um Stephan hefir verið ritað, bæði í sambandi við aldarafmæli hans og áður, minnist ég þó ekki að hafa séð þýðinga hans af erlendum ljóðum á íslenzku getið sérstaklega. Að vísu eru þær ekki umfangsmiklar í samanburði við frumsamin kvæði hans, en eigi að síður hreint ekki svo fáar, skipta alls nokkrum tugum, og það, sem vitanlega er stórum meira um vert: — Hann hefir bæði snúið á íslenzku ýmsum merkiskvæðum og gert það með þeim hætti, að þýðingar hans eru í heild sinni hinar athyglisverðustu um efnismeðferð og málfar, og bregða jafnframt birtu á hugðarefni hans og skoðanir á ljóðagerð og bókmenntastefnum. Þýðingar hans eiga það því vel skilið, að þeim sé nokkur frekari gaumur gefinn, en gert hefir verið fram að þessu.

I.

Ljóðaþýðingar Stephans taka yfir fimmtíu ára tímabil, 1874—1924, en mjög er það misjafnt hvernig þær skiptast á umrædd ár; eru engar frá sumum árunum, t. d. frá tímabilinu milli 1905 og 1914, og má því segja, að þær séu flestar frá fyrri og síðari árum skáldsins, einkum eftir 1918, að því ári meðtöldu, og fram til 1924, og meðal þýðinganna frá síðasta árabilinu eru einnig margar hinar merkustu, er komu frá hendi skáldsins.

Kvæðaþýðingar hans eru einnig, eins og eðlilegt var eftir aðstæðum hans, aðallega úr tveim áttum, eftir Norðurlandaskáld, snúið úr dönsku, norsku og sænsku, og eftir brezk og amerísk skáld, snúið úr ensku, og er mikill meiri hluti þýðinganna af þeim toga spunninn. Verður þýðinga hans úr Norðurlandamálum og ensku getið í þeirri röð, og eftir aldri, í tveim meginköflum þessarar greinagerðar.

En Stephan sneri einnig á íslenzku nokkrum vísum eftir þýzku skáldin Schiller og Heine, sem rétt þykir að víkja að, áður en aðalþýðingar hans eru teknar til athugunar. Skal það ennfremur þegar tekið fram, að allar þýðingarnar, sem vitnað er til, eru í sex binda útgáfunni af *Andvökum* skáldsins, er út kom á árunum 1909 til 1938. Og til þess að forð-

ast óþarfa endurtekningar, verður eftir þetta, innan sviga, oftast vitnað til bindanna samkvæmt tölusetningu þeirra, I.—VI., blaðsíðutals, og ársins, er kvæðið var þýtt, sé þess eigi getið í meginmáli greinarinnar. Skal þá aftur horfið að þýðingum Stephans úr ljóðum þýzkra skálda, en þeirra elztar eru „Stökur úr stefjum Schillers", fjórar talsins (I., 35—36, 1902); sú fimmta hafði verið felld úr, en er tekin upp í lokabindið af *Andvökum* (VI.,16). Lífsspeki sú, sem fram kemur í þessum stökum, ekki sízt í 2. og 4. stöku, mun hafa fallið í harla frjóan jarðveg hjá þýðanda:

*„Sé þér dauðinn sorgar-ský,*
*en sól að lifa megir:*
*Heildinni líddu og lifðu í,*
*svo lifirðu þótt þú deyir."*

*„Vin og óvin oft eg met*
*eftir þessum hætti:*
*Vinurinn hermir hvað eg get,*
*hinn hvað geta ætti."*

Löngu seinna (1918) sneri Stephan á íslenzku enn einni vísu eftir Schiller, „Sölsað upp úr Schiller" (V., 236), og fylgir henni úr hlaði með þessari athugasemd: „Sagt að hafi verið kveðið um þau kynstur, sem rituð voru um heimspeki Kants." En vísan er á þessa leið í íslenzka búningnum, og sver sig ótvírætt í ætt um mergjað málfar:

*„Auðlegð, sem einn hefir safnað,*
*ölmusur bráðsoltnar kroppa —*
*Öku-sveinn æti sitt fær*
*ef öðlingur byggir sér höll."*

Þar sem vísa þessi er þýdd á stríðsárunum fyrri, er Stephan var skotspónn harðvítugra árása úr mörgum áttum vegna afstöðu sinnar til stríðsmálanna, mun það eigi ólíklega til getið, að honum hafi fundizt orð hins þýzka skáldbróður síns spegla vel meðferð þá, er sjálfur hann og skáldskapur hans sætti á þeim árum, er hann var auri ausinn.

Eftir Heine þýðir Stephan aðeins eina vísu, „Hnuplað frá Heine" (IV., 263—64, 1920), en stælir hann vísvitandi í gamanvísunum „Donna Kata" (VI., 221, 1922) til einnar af dætrum frú Theodóru Thoroddsen, og fer um það mjög skemmtilegum orðum í bréfi til hennar 11. marz 1922 og lætur vísurnar fljóta með (Bréf og ritgerðir, III., 43). Hins vegar heitir kvæði Heines, sem Stephan hefir hér til fyrirmyndar „Don Ramíró" og hefst á ljóðlínunni „Donna Klara, Donna Klara", en Steingrímur Thorsteinsson sneri á íslenzku (Sjá *Ljóðaþýðingar* hans, I., 107—12, Reykjavík, 1924).

Annars minnist Stephan allvíða á Heine, er hann kallar „Hænir", í bréfum sínum, og í hinum snjalla ritdómi sínum um Ljóðmæli Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar (*Bréf og ritg.*, IV., 184—85), en hvergi skemmtilegar heldur en í þessum kafla úr bréfi til Jóhanns Magnúsar 24. október 1897 (*Bréf og ritg.*, I. 1., 62):

„Já, lestu „Hænir", félagi, en varaðu þig á, að tröllið taki þig ekki. Það eru 4 eða 5 grá hár í skegginu á mér og ég nota þau sem aldursleyfi til að aðvara þig. „Hænir" komst inn á Jónas, rjálaði mikið við Gröndal, knésetti Kristján og er langt kominn að gleypa Hafstein. „Hænir" er viðsjáll. Auðvitað þekki ég hann aðeins eins og tornæmt barn kverið, hefi lært hann utanbókar og hlaupið yfir smáa stílinn, n.l. lesið

hann í þýðingum. „Hænir“ er rómantisti og kynjamaður, eins og Thorarensen og Talmadge, en svolalegri en Bjarni. Hans mikla verk var, að hann þorði að kveða „allt of gróft“, þorði að yfirstíga kredduna — „konventsjonalismusinn“ — í skáldskap síns tíma. Sú grýla er meir en dauð. Realistarnir krössuðu hana sundur, og „Hænir“ er nú bara „dúsbróðir“, en ekki kennari. Fyrirgefðu, ef þér sýnist þetta goðgá, ég kasta því svona út, fyrir það sem það gildir, því mín kredda er: Um fram alt, þú sjálfur fyrst og fremst, Stefán minn eða Magnús“.

Loks má geta þess, að Stephan snarar á íslenzku hinni alkunnu vísu Lúthers um ást á víni, konum og kvæðum, er hann nefnir „Hreystiyrði Lúthers“ (I., 44, 1905) og klæðir í þennan hressilega orðabúning:

*„Um kvenfegurð kærulaus,*
*um kveðskap og söng:*
*Er örviti ærulaus,*
*þó æfin sé löng.“*

II.

Skulu þá gaumgæfðar nokkuru nánar þýðingar Stephans af kvæðum úr Norðurlandamálum, en þau eru flest þýdd á fyrstu árum hans vestan hafs, 1874—78, Wisconsinárum hans.

Verður þar fyrst á blaði „Giftingarhringurinn“, og er það jafnframt elzta þýðing eftir skáldið, sem prentuð er í heildarsafni ljóða hans (II., 191—92), frá árinu 1874, einu ári eftir að hann kom til Vesturheims. Var hann þá á 21. árinu eða 21 árs gamall, eftir því á hvaða tíma ársins kvæðið var þýtt.

„Breytt úr dönsku kvæði“, segir þýðandi um þetta kvæði, og mun hér vera um danskt þjóðkvæði að ræða eða þá kvæði ort í þeim stíl, þó höfundar sé eigi getið. En í kvæðinu er sögð saga ungmeyjar einnar, er reri til fiskjar á haf út, beitti öngulinn „baugi sínum bezta“, og brá heldur en ekki í brún, er hún dró að borði marmennil harla ófrýnan, er bar hring hennar á fingri sér; vill hún, sem vænta má, losna við þann vágest, en það fer mjög á annan veg.

Þýðingin er hin liprasta að málfari og fellur það vel að efninu. Hinu var eigi að búast við, að skáldið hefði þá þegar á þessum fyrstu árum sínum náð þeirri festu í stíl og verið orðinn meistari þess svipmikla og kjarnmikla máls, er síðar sérkenndi skáldskap hans, og var þess þó eigi langt að bíða, að sjá mátti þess næg merki bæði í frumortum kvæðum hans og þýddum. En hér fara á eftir seinni þrjú erindin úr umræddri fyrstu þýðingu skáldsins, og bera þau því órækan vott, að ekki er þar farið fingrum óhönduglega um efni eða mál:

*„Við borðstokk skrímsli blínir —*
*en bliknar meyjan væn*
*úr skýlu gyltra skelja*
*er skygnast augu græn.*

*Hún biður hann: Ekki í bátinn!*
*Né brimdjúp eg með þér!*
*En eigðu hringinn, hringinn!*
*Ef heim til botns þú fer.“*

*Hann svarar, með sogrödd hafsins*
*er sær yfir skipi gín:*
*„Þú sekkur í haf með hringnum,*
*því heitmey þú ert mín.“*

Næsta þýðing Stephans úr Norðurlandamálum er „Vísa úr „Yderst

mod Norden", hinni bróðurlegu og alkunnu kveðju norska skáldsins Andreas Munch (1811—1884) til Íslands. Þýðir Stephan lokaerindi kvæðisins að efni til, en lagar þó allmjög í hendi sér. Óneitanlega er vísan samt bæði fögur og snjöll í þýðingu hans (I., 91—92, 1878):

„*Þó nánasta frændlið sé fjarbýlis*
*þjóð*
*í fjörðum við hafís og snjóinn:*
*Æ, sendum þó blóðtengdum*
*bróðurlegt ljóð*
*með blæ, sem fer vorleið um sjóinn.*
*Og skenktu því, þröstur, þín*
*skærustu hljóð*
*við skóginn.*"

Þessi hlýja kveðja hins norska góðskálds er annars Íslendingum kunn í þýðingu Matthíasar Jochumssonar („Lýsir af eyju við ísþoku slóð"), og er að finna í I. bindi *Ljóðmæla* hans (Seyðisfirði, 1902), og víðar. En það var eðlilegt um mann eins og Stephan G. Stephansson, er stóð hinum sterkustu rótum í íslenzkum þjóðernis- og menningar jarðvegi, að hann bar jafnframt í brjósti djúpan ræktarhug til Noregs og frændþjóðarinnar norsku, og kemur það hvergi betur fram í ljóðum hans en í hinu mikla kvæði hans, „Ávarp til Norðmanna" á hinu söguríka sigurári þeirra 1905 (I., 182—87).

Næsta ár eftir að hann þýddi vísuna úr „Yderst mod Norden" sneri Stephan á íslenzku (1879) fyrra erindi af tveim úr hinum hreimmikla hersöng Finna eftir J. L. Runeberg, er þýðandi nefnir „Bjarkamál in finsku", og hittir það heiti ágætlega í mark, en sjálf er þýðingin sköruleg og mjög í anda frumkvæðisins (I., 92—93). Hallast Stephan hér, eins og jafnan um ævina, á sveif með lítilmagnanum gegn ofureflinu og óréttinum. Mörgum árum seinna (1910) tók hann einnig djarfmannlega svari Finna í hinu kröftuga kvæði sínu, „Finis Finnlandiæ" (IV., 38—39), og spáði þeim lokasigri í frelsisbaráttu þeirra. Má og geta þess, áður en skilist er við þýðingu Stephans á „Bjarkamálum inum finsku", að seinna sneri Hannes Hafstein þeim hetjusöng í heild sinni á íslenzku (*Ljóðabók,* Reykjavík, 1916), og er ekki ófróðlegt að bera saman þýðingu þeirra Stephans á fyrra erindinu; munu flestir mæla, að þeir hafi báðir leyst þá bragþraut með fullum sóma, og andi kvæðisins eigi heldur farið út í veður og vind í þýðingum þeirra.

Er þá komið að síðustu og jafnframt merkustu þýðingu Stephans úr Norðurlandamálum, en það er kvæðið „Níels Finsen ljóslæknir" eftir danska höfuðskáldið Holger Drachmann (I., 196—97). Um þessa þýðingu sína fer Stephan eftirfarandi orðum í bréfi til Eggerts Jóhannssonar ritstjóra 21. desember 1906 (*Bréf og ritg.*, I., 1., 146): „Örfáar þýðingar hefi ég gert um dagana, en enga þeirra tel ég hér. Þó er það líka rangt með þýðing eins og á kvæði Drachmanns um Finsen, sem stóð í „Heimi", vegna þess að þó efni sé þrætt, gerir háttur og mál það nærri að nýju kvæði".

Þessi ummæli eru í engu orðum aukin. Þýðandinn fer hér mjög sinna ferða, eins og hans var háttur í þýðingum, bæði um málfar og bragarhátt, þó að hugsun sé trúlega haldið, en þýðingin, að öllu athuguðu, með miklum snilldarbrag. Má og segja, að Stephani hafi hér runnið

blóðið til skyldunnar, þar sem í hlut átti afburðamaður af íslenzkum ættum, en hitt mun þó hafa vegið þyngra á metum, eins og kvæðið sjálft vottar eftirminnilegast, hver merkisberi mannkærleika og græðandi sjúkra og særðra Níels Finsen var; þeirri ályktun til staðfestingar nægir að vitna til eftirfarandi erinda þýðingarinnar, sem jafnframt eru ágæt dæmi handbragðsins á henni að öðru leyti:

*„Hann kannaði val þann sem*
*vanræktur lá,*
*og voði er að sjá.*
*Hann banasár græddi og annara und*
*að útfararstund,*
*þó sárt honum blæddi til ólífis inn*
*um áverka sinn.*

*Því aðstoð og mannbjörg var*
*umsýsla hans,*
*ins árvakra manns. —*
*Þú lýður, sem herguði hefur við ský*
*og hávegu í,*
*kom, hneigðu þeim lífgjafa er liggur*
*hér nár!*
*Jafnt lágur og hár.“*

III.

Verða nú teknar til frekari athugunar þýðingar Stephans úr ensku, en eins og þegar er gefið í skyn, eru flestar þýðingar hans úr ensku máli, eftir brezk, amerísk og canadisk skáld. Fór það og að vonum, þar sem hann ól aldur sinn frá því um tvítugt í hinum enskumælandi heimi vestan hafsins, Bandaríkjunum og Canada, varð handgenginn enskri tungu, og átti þá jafnframt einna greiðastan aðgang að ritum á því máli.

Elzta þýðing Stephans úr ensku í kvæðasafni hans er frá árinu 1877, hið fræga kvæði „Járnsmiðurinn“ eftir H. W. Longfellow, hið víðfræga ameríska ljóðskáld (II., 192—93). Eigi er hér þó um að ræða nema nokkurn hluta kvæðisins, enda kallar Stephan þýðinguna réttilega, „þýtt brot úr kvæði eftir Longfellow“. Eru hér þýdd fjögur fyrstu erindi kvæðisins og lokaerindið, en þremur erindum sleppt (5.—7.).

Eins og annars staðar í þýðingum sínum hefir Stephan gert sér mest far um að ná hugsun kvæðisins og anda, en sniðið orðalagi og bragarhætti stakk eftir því, sem honum þótti bezt fara. Eftirtektarverð er þýðingin eigi að síður, eins langt og hún nær, ósjaldan kjarnmikil að málfari, t. d. þessar lokaljóðlínur lýsingarinnar á smiðnum í öðru erindi:

*„Um enga sök er sál hans smeyk,*
*né samvizkan í felu-leik.“*

Vel hittir niðurlagserindið einnig í mark og óþarft um það að fjölyrða, hve vel sú hugsun er þar kemur fram var þýðandanum að skapi:

*„En smiður, kærar þakkir! Því*
*eg þetta lærði af yður:*
*Að smiðju lífsins er eg í*
*minn eigin gæfu-smiður,*
*á hennar steðja stæla má*
*í starfað dagsverk hverja þrá.“*

Löngu seinna þýddi Einar Benediktsson, eins og kunnugt er, allt kvæðið á íslenzku af mikilli prýði, og er það í I. bindi af útgáfum ljóða hans.

Annars hefir Stephan sýnilega haft mætur á Longfellow. Merkilegri ræðu sinni fyrir minni Bandaríkjanna, er hann hélt að Mountain, N.

Dakota, 4. júlí 1887, lýkur hann á þessa leið (*Bréf og ritg.*, IV., 149):

„Og landar góðir, þessar línur eftir Longfellow, til innar nýju fóstru okkar, snerti ætíð hjörtu vor jafn innilega og þeirra sona hennar, sem unna henni bezt:

*— Svo halt áfram öruggt. Þú óttast ei þarft,*
*vorar óskir og vonir þær fylgja svo djarft.*
*Vor hjörtu, vor tár, og vort traust á þér*
*svo tryggt, þú skalt sigra hvernig sem fer.*
*Því að allt er með þér. — Vort allt með þér er.“*

Þessar þýddu ljóðlínur eru niðurlagsorðin úr hinu kunna kvæði Longfellows „Launching the Ship“, en þau eru á þessa leið á enskunni:

*“Sail on, nor fear to breast the sea!*
*Our hearts, our hopes, our prayers, our tears,*
*Our faith triumphant o'er our fears,*
*Are all with thee—are all with thee!”*

Í fyrrnefndri ritgerð sinni um ljóðmæli Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar vitnar Stephan ennfremur til Longfellows á þessa leið:

„Ef ég man rétt, hefi ég einhvern tíma lesið erindi eftir skáldið Longfellow, sem á íslenzku yrði nálægt því að vera kveðið svo:

*Þá grípur mig angurværð einhver,*
*en ástríðulaust og svo milt*
*og sorginni álíka áþekk*
*sem úðinn og regnið er skylt.*

Þessi „ástríðulausa angurværð“ er einkennið á bezta skáldskap Magnúsar.“

Hér hefir Stephan í huga síðustu ljóðlínurnar í fyrsta erindinu af kvæði Longfellows “The Day is Done“ (Að liðnum degi):

*“And a feeling of sadness comes o'er me that my soul cannot resist;*
*A feeling of sadness and longing is not akin to pain,*
*And resembles sorrow only as the mist resembles the rain.”*

Næst elzta þýðing Stephans úr ensku er kvæðisbrotið „Úr Ossian“ (II., 102—104) frá 1878, en það er sæfararlýsing í sex erindum undir fornyrðislagi, orðhög og mergmikil að máli.

Líða nú fimm ár þangað til næstu þýðingu úr ensku er að finna í kvæðum Stephans, en árið 1884 þýðir hann sonnettuna „Hesperides“ eftir ameríska skáldið S. V. Cole (I., 13—14). Var „Hesperides“, samkvæmt grískri goðafræði, bæði nafnið á Vesturdísum (Dætrum næturinnar), er gættu Iðunnarepla hinna grísku guða, og einnig nafnið á bústað þeirra lengst í vestri, „þar sem dagurinn hverfur og deyr.“ (Smbr. *Kennslubók í Goðafræði Grikkja og Rómverja* eftir H. W. Stoll. Steingrímur Thorsteinsson íslenzkaði. Kaupmannahöfn, 1871). Eins og fyrrnefnd sonnetta ber með sér, lýsir hún á táknrænan hátt þessum fornu draumaheimum í vestri, og hún er bæði prýðilegur skáldskapur í þýðingunni, en sonnettu-hátturinn fágætur hjá Stephani.

Frá árinu 1888 er þýðingin „Samvizkan við greftrun sérvitringsins“ (II., 196—98) eftir ameríska skáldið og rithöfundinn T. B. Aldrich; er hér þó fremur um stælingu að ræða,

enda tekur þýðandi fram um þetta kvæði, að það sé „kveðið upp úr kvæði" eftir hið ameríska skáld. Fjallar kvæðið, eins og heiti þess bendir til, um mann nokkurn, er fór eigi troðnar slóðir í lífinu, „batt eigi bagga sína sömu hnútum og samferðamenn", og var slíkur maður Stephani vitanlega andlega skyldur og honum að sama skapi hugstæður, enda er ekki erfitt að finna í kvæðinu ljóðlínur, sem beinlínis má heimfæra upp á Stephan sjálfan, svo sem þessar:

*„Því engra trú gat tekið hann til láns*
*né tollskyldugan gert hann nokkur flokkur."*

Í bréfi til dr. Rögnvalds Péturssonar 14. desember 1907 vitnar Stephan á skemmtilegan hátt til þessa sama ameríska skálds, en sá kafli bréfsins er á þessa leið:

„Ég mundi eftir þér og „Heimir" og sendi allt, sem ég átti núna handbært.

*Mætti sjálfráð sálin mín*
*söngtól úr sér gera,*
*þér í höndum harpan þín*
*hún sér kysi að vera.*

Eitthvað þessu líkt er sagt, að Thomas Bailey Aldrich heitinn hafi sagt í kvæði til Griegs. — „Ein er dáin dýrð á jörð" — s. s. "There's glory passed from the Earth", hugsa ég stundum, þegar snillingarnir falla, einkum ef það voru norrænir menn, þó ég hafi hvorki kunnað að meta list þeirra, né hefði tök á að kveða um þá." (*Bréf og ritg.*, I., 1., 166—67).

Á það var bent, að hið endurorta kvæði Stephans eftir Aldrich væri eigi að litlu leyti, óbeinlínis, lýsing á Stephani sjálfum og speglaði þá um leið lífsskoðun hans, en það má með enn meiri sanni segja um næstu þýðingu hans, þó eigi sé hún mikil að vöxtum, en það er „Lífið" eftir Ingersoll, og er sú staka þýdd 1889 (VI., 11). Fer vel á því að birta vísuna bæði á frummálinu og í þýðingunni, eins og gert er í *Andvökum*, og geta lesendur þá með samanburði gengið úr skugga um, hversu snjöll þýðingin er:

*"I do not know if Death is*
*The Wall or the Door,*
*Folding of Wings or spreading*
*Of Pinions to Soar."*

*„Vér vitum ei, hvort Dauðinn*
*er múr eða dyr,*
*förlandi vængjanna fall*
*eða háfleygið hærra' en fyr."*

Svo vill til, að önnur þýðing af þessari tilvitnun er í bréfi frá Stephani til Aðalsteins Kristjánssonar 3. maí 1912 (*Bréf og ritg.*, I., 2., 296). Vitnar Stephan þar til fyrrnefndra orða Ingersolls á enskunni og segir síðan: „Hálfu fegur sagt:

*„Við göngum duldir þess dóms,*
*hvort dauðinn sé múr eða dyr,*
*vængjanna síðasta sig,*
*eða svif þeirra hærra en fyr."*

Engum vafa er það bundið, eins og Stephan segir sjálfur, að þýðing þessi tekur fram hinum frumortu ljóðlínum um skáldlega fegurð, og má hið sama segja um hina þýðingu hans af þeim, hvora sem menn kjósa heldur.

Um afstöðu Stephans til Ingersolls,

sem hann virti og dáði, má annars vísa til eftirmælanna eftir hann („R. G. Ingersoll", I., 156—58), er varpa jafnframt björtu ljósi á trúarskoðanir Stephans sjálfs.

Fátt er af þýðingum eftir Stephan frá fyrsta áratugnum eftir aldamótin, en þar verður fremst á blaði, frá árinu 1902, þýðing á kvæðinu "Did you ask dulcet rhymes from me" (I., 34) eftir ameríska öndvegisskáldið Walt Whitman; er það upphafs ljóðlína kvæðisins, sem nefnist á frummálinu "To a Certain Civilian" og er í kaflanum "Drum-Taps" í hinu fræga kvæðasafni Whitmans *Leaves of Grass,* sem til er að sjálfsögðu í mörgum útgáfum. Kvæðið er órímað hjá Whitman, eins og var sérkennandi fyrir hann, en Stephan gerir hvorttveggja að ríma það og kljúfa það í þrjú erindi og gerir það með þeim hætti stórum íslenzkara að svip. Þýðing þessi er annars, eins og margar aðrar þýðingar hans, eigi sízt merkileg fyrir það, hvernig hún bergmálar afstöðu sjálfs hans til ljóðagerðarinnar, því að vafalaust hefir honum fundist, þegar á þeim árum, nokkur ástæða til að taka sér í munn þessi orð Whitmans í niðurlagserindi kvæðisins:

*„Þú skilur mig ekki. Ó þreyt ekki þig*
*á þvílíkri ráðgátu — forðastu mig,*
*en farðu og skældu þig organið í —*
*eg yrki ekki við þig neitt*
*lúllum og bí."*

Árið eftir (1903) sneri Stephan á íslenzku kvæðinu "Icelandic Lyrics" eftir canadiska ljóðsnillinginn Bliss Carman (I., 36). Má vel vera, að heiti þessa fagra og ljóðræna kvæðis hafi átt sinn þátt í að draga athygli þýðandans að því. Aðeins á einum stað í bréfum sínum og ritgerðum (IV., 376), í grein um *Tímarit Þjóðræknisfélagsins,* minnist Stephan annars á Carman, og þá í sambandi við kvæði hans "Vestigia", og fer þessum orðum um það: „En kvæðið er fagurt frá því sjónarmiði, sem það er kveðið í."

Árið 1905 þýddi Stephan alkunna stöku eftir Robert Burns, er getið verður síðar, þegar ræddar verða aðrar þýðingar úr kvæðum hans. Sama árið þýddi Stephan einnig „Skilnaðarstundina" eftir J. Blewett, ástarvísur, þar sem viðfangsefnið er tekið frumlegum tökum (I., 44).

Eigi allfáar þýðingar Stephans, og sumar meðal hinna merkari, eru frá öðrum áratug aldarinnar, og þeirra elzt, frá 1914, er „Vísa eftir Tennyson" (IV., 201), og mun þýðanda hafa getist vel að því horfi til trúmálanna, er þar kemur fram, og hafa fundist orð lárviðarskáldsins töluð út úr eigin huga:

*„Hann kvaddi, trúr sem sæmdin*
*sjálf,*
*þó sæi í kenning lítil skil —*
*því sannfús efi, trú mér til,*
*er trúfastari en kristnin hálf!"*

Þetta er þýðing, og hún prýðisgóð, á 3. erindi í XCVI. kvæðinu í hinum víðtæku og andríku minningaljóðum Tennysons, *In Memoriam:*

*"Perplext in faith, but pure in deeds,*
*At last he beat his music out.*
*There lives more faith in honest*
*doubt,*
*Believe me, than in half the creeds."*

Inn í eina af blaðagreinum sínum (*Bréf og ritg.,* IV., 270) fellir Stephan

einnig eftirfarandi þýðingarbrot úr kvæði Tennysons "Progress of Spring":

„*Komdu vor . . . . . . . .*
Hún *kemur — leystir lækir renna*
*af stað —*
*með ljósgult hár úr klakaflèttum*
*greitt;*
*hún lausan möttul limum sveipar að*
*úr ljósi og gróðri, en svalann getur*
*leitt*
*um brjóstið bert og heitt.*"

En í greininni, sem er frá fyrri árum hans (1889), vitnar Stephan til þessa kvæðis Tennysons sem einnar réttlætingar þess, að hann hafi sjálfur í einu kvæða sinna kvenkennt vorið, og tekur fyrirdæmi hins enska lárviðarskálds sem sterka sönnun þess, að vorið sé kvenkennt í skáldskap, þó hvorugkyns sé annars í daglegu máli. Vitnar hann einnig til ljóða Steingríms Thorsteinssonar og Schillers málstað sínum til stuðnings.

Flestar þýðingar Stephans frá umræddum áratug eru þó frá árinu 1918, þeirra á meðal „Líkberinn" (The Stretcher-Bearer) eftir canadiska skáldið Robert W. Service (V., 164—65) og „Undanþágan", „vikið úr ensku" eftir ónafngreindan höfund (V., 165). Fléttar Stephan báðar þær þýðingar inn í kvæðaflokk sinn „Vígslóða", enda eiga þær þar fyllilega heima.

Líkberinn á stríðsvellinum fer í samnefndu kvæði þungum ákæruorðum um vígaferlin og hörmulegar afleiðingar blóðsúthellinga þeirra, og lýkur kvæðinu með þessu erindi:

„*Og eg dró út úr eldi og mökk,*
*frá aftni gærdags, blóðug hræ. —*
*Sjálf birtan upp með hrolli hrökk*
*við helreið kúlna um morgunblæ.*
*Og sól, að veröld bræði og böls,*
*sem blóðrautt auga úr firnum*
*stelst —*
„*Til særðra og feigra! og fram til*
*kvölds!*"
*Ó, friðarguð, þér dvelst! þér dvelst!*"

Þessi tilvitnun gefur einnig nokkra hugmynd um það, hve magni þrungin þessi þýðing er að málfari, en samanburður við frumkvæðið leiðir ennfremur í ljós, að efni, anda og blæ er þar mjög vel náð í íslenzka búningnum.

„Undanþágan er markviss ádeila á þá stríðsformælendur, sem eggja alla aðra út á blóðvöllinn, en segja jafnframt: „En í guðsbænum takið ei mig."

Inn í „Vígslóða-flokkinn fellir Stephan einnig þýðingu frá árinu 1921 (V., 184—85) af kvæðinu „Ekkjan í Windsor" (We have fed our sea for thousand years), eignað Rudyard Kipling, og er það einnig hörð ádeila á styrjaldir og mannfórnir í þeim. Í heildarútgáfu kvæða Kiplings (1885—1918) er samnefnt kvæði hinu fyrrnefnda, "The Widow at Windsor," en mjög ólíkt að öðru leyti, nema 3. erindið í þýðingunni, er hefst á orðunum, „Ó, eigðu ei við Ekkjuna í Windsor!", er samsvarar mjög nákvæmlega fjórum fyrstu ljóðlínunum í 2. erindi hins enska kvæðis.

Árið 1918 sneri Stephan einnig á íslenzku hinu víðfræga kvæði Kiplings "If" (IV., 246—47) og notar fyrstu línu kvæðisins að fyrirsögn þýðingar sinnar. Hafa íslenzk skáld beggja megin hafsins spreytt sig á því að þýða þetta hreimmikla og

spakmála kvæði, og má segja, að þær þýðingar hafi yfirleitt allar nokkuð til síns ágætis, þó að eigi verði hér neinn frekari samanburður gerður á þeim. Stephan er þar sjálfum sér líkur, metur meira hugsun og blæ en bókstafinn, en hressileg er þýðing hans, málfarið kjarnmikið og oft prýðilega hitt í mark. En svo er kvæði þetta samfellt að efni, að menn njóta þýðingarinnar aðeins til fullnustu með því að lesa hana í heild sinni, og verður því eigi neitt brotasilfur úr henni birt hér. Á það má þó benda, að þegar Kipling segir í kvæðislok, að hver sá, sem að öllu stenst þá prófraun, er hann hefir áður lýst í kvæðinu, geti *maður* kallast, þá gengur Stephan eigi lengra en að segja: „Og heill sé með þér! Þú ert efni í mann!"

Ekki mun það heldur nein tilviljun, að Stephan þýðir þennan prófstein Kiplings á manndóminn og manndómslundina einmitt á þeim tíma, er mest reyndi á manndóm sjálfs hans og trúnað við sannfæringu sína; hitt er á allra vitorði, hvernig hann stóðst þá römmu raun.

Allmörgum árum seinna (1924) þýddi Stephan minningarkvæði Kiplings um Theodore Roosevelt Bandaríkjaforseta, "Great-Heart", og velur kvæðinu heitið „Hjartaprúður" í þýðingu sinni (VI., 80—82). Sneri hann kvæðinu á íslenzku að beiðni Aðalsteins Kristjánssonar og ræðir ítarlega um það í bréfi til dr. Rögnvalds Péturssonar 30. marz 1926 (*Bréf og ritg.*, III., 297—98). Segir Stephan meðal annars í umræddu bréfi: „En kvæðið átti þann þýðingar-rétt á sér, að það var, í mínum augum, undarlega fallegt og vel kveðið, þessi „keltneski" kveinstafa-blær yfir því (eins og haustgola í lauffölInum skógi), hve heimurinn yrði snauðari "When Great-Heart is gone" . . . . Ég hafði því hálfgerða skemmtun af að rubba þetta á íslenzku. Sendi svo A. það með athugasemd í bréfi, að Roosevelt væri, að mínu áliti, frægari sökum síns bægsla-barnings í orði en á borði."

En þó Stephan sýnist vilja gera fremur lítið úr þýðingunni, þá er hún mjög vel af hendi leyst, bæði um nákvæmni í hugsun, orðaval og bragarhátt, og honum hefir einnig tekizt að ná tregablænum í frumkvæðinu, sem hann minnist svo fagurlega á í bréfi sínu.

Svo að horfið sé aftur að þýðingum Stephans í tímaröð, má geta þess, að árið 1920 þýðir hann, undir fornyrðislagi, vísu, er hann nefnir „Örvandils-tá" (IV., 260—61) með þessum formála: „Forn-ensk vísa eftir Cynewulf: „Eala Earendel", sama sem: „Morgunstjarnan. Lauslega þýdd." En Cynewulf var engilsaxneskt merkisskáld, er uppi var á áttundu öld. Hins vegar er heiti þýðingarinnar sótt í frásögn Snorra-Eddu um það, er Þór bar Örvandil, mann Gróu völvu, í meis á baki sér norðan úr Jötunheimum, en ein tá hans hafði staðið upp úr meisnum, „ok var sú frerin, svo at Þórr braut af, ok kastaði upp á himin, ok gerði af stjörnu þá, er heitir Örvandilstá." Er hér enn eitt dæmi þess, hve Stephani voru nærtæk dæmi eða heiti úr fornbókmenntum vorum.

Að því er vikið, að hann hefði snemma á árum (1905) þýtt alkunna stöku eftir Robert Burns, „Einn hefir lyst, en á ei kjöt" (I., 43). Fimmtán árum síðar sneri hann á íslenzku hinu víðkunna og mikið sungna

kvæði Burns, „Auld lang syne", er hann nefnir „Fornar trygðir" (IV., 264—65), og nær vel anda og hreim frumkvæðisins. Ekki verður því þó neitað, að stórum léttstígari og sönghæfari er stæling Árna Pálssonar á þessum vinsæla samkvæmissöng, „Gömul kynni" (*Íslands þúsund ár*. Kvæðasafn, 20. öld, Reykjavík, 1947).

Loks er eftir Stephan frá 1923 (VI., 73—75), lausleg þýðing, er hann kallar svo, á kvæði, er nefnist "Bobby Burns" og eignað er honum, en stendur þó ekki í kvæðabók hans; eigi að síður, eins og Stephan bendir á í nokkrum formálsorðum að þýðingunni, svipar kvæði þessu, um efni og andhita, mjög til hins fræga kvæðis eftir Burns: „Þrátt fyrir alt og alt og alt". Það er lofsöngur hins sjálfstæða manndómsmanns, er á sitt aðalsbréf í sjálfum sér, hvað sem líður ytri kjörum.

Frá sama tímabili, árinu 1921, er þýðing Stephans á kvæðinu „Til klerksins", úr ensku eftir C. P. Gillman, en það er bitur ádeila á íhaldssemi klerka, þröngsýni og yfirskin (V., 241—42).

Eru þá næstar í tímaröð þýðingar Stephans úr kvæðum ameríska merkisskáldsins Oliver Wendell Holmes, sem eru meðal allra merkustu þýðinga hans, en þær eru „Eftir-legu lauf" (IV., 279—81) og „Skeljabobbinn" (IV., 287—88), og eiga sér báðar skemmtilega sögu. Hið fyrra var þýtt 1922, en hið síðara 1923.

Um þýðingu fyrra kvæðisins fer Stephan þessum orðum í bréfi til dr. Rögnvalds Péturssonar 14. nóvember 1922 (*Bréf og ritg.*, III., 63):

„Lengi hefir mér þótt gaman að kvæði gamla Holmes, síðan ég sá það fyrst í lesbók latínuskólans í Albion í Wisconsin. Rasmus gamli (Björnson) Anderson gaf mér hana. Hafði verið skólabók hans sjálfs. Það var á öðru ári mínu í Ameríku, og ég á skrudduna enn. Í gær og dag þýddi ég kvæðið svona, en það er nærri óþýðandi, örðugur hátturinn, og hitt verra, að sökum kynleysu enskra orða og venjunnar, getur Holmes karlkennt hvorugkyn að ósekju, eins og hann gerir, en við höfum aldrei hugsað lauf svo — ekki einu sinni í skáldaleyfi. — Ég varð því að líkja *laufinu* til *manns*, en ekki *manni* til *laufs*, eins og í frumkvæðinu. En ég hafði samt meira gaman af því að falla á örðugleikanum."

Aftur víkur Stephan að þessari þýðingu í bréfi til dr. Rögnvalds 14. ágúst 1923 (Bréf og ritg., III., 104—105):

„Verði „Rauðskinna" mín prentuð, bið ég þig að breyta kvæðis fyrirsögninni „Lengstlafandi lauf" í *Eftirlegu-lauf*. Þú finnur það í Vta kafla, að mig minnir. Dr. Ágúst (Bjarnason) sagði það ljótt orð, og ég var honum sammála, jafnvel löngu áður en hann hafði orð á því. Hann stakk upp á „Hinzta lauf", en ég hugsaði það ekki þannig, þó „bókstaflega" rétt sé. Seinna sá ég, að ég hafði sjálfur komizt skár að orði í sjálfu kvæðinu, fyrstu hending síðasta erindis: „Verði ég *eftirlegu lauf*" — það er liðugra en „Lengstlafandi" og bendir á það, sem fyrir kvæðinu vakir, sem sé: að lifa yfir sig."

Undir þeirri fyrirsögn er þýðingin síðan prentuð í *Andvökum*, með þessari skýringu: „Þráður: "The Last Leaf", kvæði eftir Oliver Wen-

dell Holmes". Er það laukrétt lýsing, því að þó efni þýðingarinnar sé hið sama og í frumkvæðinu, þá hefir Stephan, eins og hann segir í fyrrnefndu bréfi til dr. Rögnvalds, breytt myndinni þannig, að hann líkir laufinu til manns, og heldur þeirri samlíkingu frá byrjun til enda, en svipmikið kvæði er þýðingin, þrungin að þróttmikilli hugsun og á kjarnamáli. Þessi tvö erindi úr henni lýsa handbragðinu:

*„Saman kemur þar um þjóð,*
*þegar í broddi lífsins það stóð*
*grósku-grænt,*
*frost og storma þoldi það.*
*Þá í skógnum ekkert blað*
*var svo vænt.*

*Skorpið upp við skúr og snæ,*
*skelfur það nú í hverjum blæ,*
*bleikt og blátt.*
*Nöldrar: „Af sem áður var!*
*Allir mínir félagar*
*liggja lágt."*

Tildrögin að þýðingu Stephans af hinu kvæði Holmes, „Skeljabobbanum" (The Chambered Nautilius), voru þau, að vinur skáldsins, Jakob J. Normann í Wynyard, Saskatchewan, sem sjálfur er maður skáldmæltur vel, hafði sent honum þýðingar kvæðisins eftir Einar Benediktsson og Pál Bjarnason, kaupmann í Wynyard og skáld, og hvatt Stephan til að glíma líka við kvæðið. Að þessu víkur Stephan síðan í bréfi til Jakobs 25. marz 1923, en þeir Einar og Páll höfðu nefnt þýðingu sína „Kúfunginn" (*Bréf og rit.*, III., 84—85).

„Þegar bréf þitt kom í haust með „Kúfung" Einars og Páls míns, gat ég engu sinnt fyrir önnum, en ætlaði að reyna þetta, þegar ég kæmist til. Leit ekki á þýðing E. Læsti hana niður fyrir sjálfum mér, svo aldrei stælist ég í hana af ógáti, því það var rangt gagnvart okkur báðum, ef ég reyndi líka. Loks greip ég það vikuna sem leið, las svo E's., þegar ég var búinn, eins og ég gat. Hafði ásett að brenna mitt, yrði það meira en níu stigum neðar en hans. Þrjú til sex væru allt, sem mátti muna. Nú sendi ég þetta, mitt, með kveðju minni til Páls og því með, að við kvæði Holmes hafi ég kannazt, dáðst að því, en ætíð fundizt það ögn ofkveðið, það er: of saman-rekið, og þó óþarflega *litum* glæst. Hitt var sér, að örðugt er að þýða það, bæði háttur örðugur og mál kjarnyrt. Ég þýði aldrei orðrétt, finnst það nóg til að vængbrjóta hvern fugl. Tel allt í því að ná anda, efni og blæ sem bezt, bæta um, ef maður kann, skipta um lýsingar og tilbendingar, sem eiginlegri eru í áþýdda málinu, en í sama anda. Því set ég „Dvergaskeið" fyrir „skáldauppgerð" hjá Holmes, því þar í felst skáldskapurinn og er gömul Eddusaga og falleg. Eins er með Heimdall í stað Trítons, grísks sægoðs, en Heimdallur var við hafið ættaður líka. „Níu em eg systra sonur", segir hann — eflaust á hann við bárurnar, Ægisdætur, sem voru níu. Og báðir höfðu þeir lúðra, Tríton og Heimdallur. Annars reyndi ég að fara eins léttilega með efnið og ég gat, aðeins halda því, sem ekki mátti missast. Kvæðið var nógu erfitt samt á frummálinu, þó ekki væri það líka niður njörvað í þýðingu. Láttu mig vita, ef P. vantar aftur handrit sín. Ég skal þá senda þau.

Ég bið P. að fyrirgefa tilraun mína við þetta kvæði, sem eflaust er hans uppá-hald, og honum er sómi að, jafn göfugt og gott eins og það er.“

Ekki er það ofsögum sagt, að þetta mikla merkiskvæði er mjög samanrekið, og verður að þaullesast, svo að fullum notum komi, en boðskapurinn, sem skeljabobbinn hefir skáldinu fært, er dreginn saman í lokaerindi kvæðisins, sem oft er vitnað til á frummálinu, og er á þennan veg í þýðingu Stephans:

*„Svo reistu þér hásal ofar, mín önd,*
*hvert ár sem fer í hönd.*
*Þitt afkast of-lágt var.*
*En upp á við, hærra! ger betur þar,*
*og loka þeim himni, sem lægra þig*
*bar —*
*unz skelja-skurni því*
*þú skilar loksins frjáls, of þröngu*
*að búa í.“*

Þeir, sem áhuga hafa fyrir því, geta síðan borið saman þýðingu hans við þýðingu Einars Benediktssonar í kvæðabók hans *Hvömmum,* þýðingu Páls Bjarnasonar í kvæðabók hans *Fleygum* (Winnipeg, 1953), og við þýðingu Páls V. G. Kolka í kvæðabók hans *Hnitbjörgum.*

Með allt öðrum blæ, í léttum tón, þar sem kennir nokkurrar kaldhæðni, þó grunt sé á undiröldu alvörunnar, er þýðing Stephans frá 1923 á kvæðinu “I Was Made of This and This” („Sitt úr hverri átt það er efnið, sem að varð í mér“) eftir Gertrude Robinson Ross (IV., 288—90); mun það einkum hafa verið lýsingin á föður stúlkunnar, sem kvæðið fjallar um, er varð til þess, að Stephan þýddi það, sem og samúð hans með þeim, er höllum fæti stóðu í lífinu; en faðirinn, sem þar er lýst, er einn af þeim utangarðsmönnum þjóðfélagsins, er fara sinna ferða, hvað sem hver segir, og segir kvæðið, meðal annars, um hann:

*„Og þrent var það, sem mest hann*
*mat,*
*á meðan hér á jörð hann beið,*
*það voru: fjöll og fiðlan hans,*
*og frjáls og opin bæjar-leið.“*

Nöpur kaldhæðni er höfuð einkennið á kvæðinu „Fyrirmyndarmaðurinn“ (“Model Citizen”) eftir norsk-ameríska blaðamanninn og rithöfundinn Peer Strömme, er Stephan þýddi úr tímaritinu *Scandinavia* 1924 (VI., 147—49), en það er snjöll lýsing á hversdagsmenni og miðlungsmennsku, er hjakkar í sama fari lífið á enda.

Er þetta næst síðasta þýðing Stephans innan spjalda kvæðasafns hans, og hreint ekki ómerkileg, þó eigi jafnist hún um efni eða málfar við sumar hinar fyrrnefndu; en seinustu þýðinguna, sem ég hefi fundið í *Andvökum,* og er í allt öðrum anda, þykir mér hlýða að ræða í greinarlok.

IV.

Sanngjarnt er að dæma ritverk í ljósi þess tilgangs, sem höfundurinn setti sér, þó að þar komi vitanlega fleira til greina. Nú vill svo heppilega til, að Stephan G. Stephansson hefir víða í bréfum sínum og ritgerðum skilgreint þýðingaraðferð sína og skoðanir sínar á ljóðaþýðingum almennt, og kom það, meðal annars, glöggt fram í kaflanum úr bréfi hans til Jakobs J. Normann um þýðinguna á „Skeljabobbanum“ eftir

Holmes, er þegar hefir verið vitnað til.

En áratugum áður hafði Stephan látið í ljósi sömu skoðun á ljóðaþýðingum. Í bréfi til Eggerts Jóhannssonar 8. ágúst 1909 (*Bréf og ritg.*, I., 2., 204), er fjallar um þýðingu af kvæði eftir sjálfan hann á ensku, segir Stephan:

„Auðvitað er þýðingin ekki orðaþýðing, hún var ómöguleg, en andi frumkvæðisins leikur sér í þýðingunni og það er nú um að gera. Sjálfur hefi ég þýtt kvæði á íslenzku, en oft farið langt frá bókstafnum, hann drepur skáldskap.“

Í bréfi til Aðalsteins Kristjánssonar 23. júní 1923 (*Bréf og rit.*, III., 98) slær Stephan á sama streng:

„Ég þýði sjaldan, Aðalsteinn, og aldrei orðrétt. Það er kannske sérvizka: en mér finnst ég haldi aðeins skelinni, en fleygi meiru eða minna af kjarnanum, ef ég tek orðin upp aðeins. Nái ekki því „eins og talað er“, eða með öðrum orðum skemmi það, sem skáldskapur eiginlegast er. Til dæmis, vísunni, sem þú sendir mér í bréfinu, sný ég nú um leið og ég hripa þetta, svona:

*Æ, gef oss þrek — ef verja varð,*
*að vernda œ inn lœgra garð.*
*Og styrk til þess, að standa ei hjá,*
*ef stór-sannindum níðzt er á.*

Ég býst við, að þú þykist naumast þekkja vísuna þína ensku í svona „útgáfu“ og ég lái þér það ekkert. En svona þýði ég, oft og oft.“

Þessi snjalla vísa, er lýsir svo ágætlega viðhorfi Stephans til meðbræðra sinna og mannfélagsmála, er birt í *Andvökum* (V., 199) undir fyrirsögninni „Aðfengið“, en höfundar eigi getið, og ekki er mér heldur kunnugt um hann.

Hvergi víkur Stephan þó ítarlegar að ljóðaþýðingum og þýðingaraðferð sinni heldur en í bréfum sínum til frú Jakobínu Johnson skáldkonu, er birt voru í XXXIII. árgangi þessa tímarits (1952). Í bréfi til hennar 10. júní 1918 segir hann:

„Þær þýðingar af *ljóðum,* sem mér þykja góðar, eru flestar stælingar, en ekki „útleggingar“, en svo vel gerðar, að þær jafngilda því frumkveðna. Mér nægir að stjörnurnar bliki með sama ljómanum, þó blærinn sjáist rauðari eða ljósari. Mér stendur stuggur af þeim gálgum, þar sem skáldskapurinn hangir hengdur í orðabókar-ólinni.“

Og enn fastar, ef unnt er, kveður hann að orði um þessi mál í bréfi til frú Jakobínu 7. júlí 1924, þar sem honum falla þannig orð:

„Viðvíkjandi því, að létta af sér endaríminu í enskum þýðingum, skal ég segja þér sem er: ég er rímsins maður, en ekki út í ófæru, verði betur gert án þess, *jafnvel í lesmál niður*. Hefi sjálfur brugðið bæði af hætti og rími, þegar svo lá á mér í þeim fáu þýðingum sem ég hefi borið við. Það sem ég sé í er andi og blær — síður orð og rím. Trén í greniskóginum geta öll verið rétt og á sínum stað, en mikið skortir þar, ef enginn er arnsúgurinn af byl og blæ í barinu, og þá er betra að halda honum í þýðingunni, en kúga inn rím og stuðla fyrir forms sakir. Tilfinninganæmi og leikni hvers eins verður að segja til um það. Hitt er ég viss á, rímið er list. Aðeins, það verður að renna áfram ósýnilega í verkinu. Að sleppa því aðeins fyrir þá sök, að annað er léttara, er eins

og að ganga með „kálfsfætur“, eins og sagt var á Íslandi, en myndi hér samsvara því, að láta skó sína óreimaða, fyrir þá skuld eina, að léttara verði að komast í þá og úr. Því meiri vandi sem á er, þeim mun meiri virðing að gera gott kvæði. En allt verður samt að víkja fyrir inu *eina nauðsynlega* í þýðingu: að hún falli um farveg ins sama andlega straumfalls, eins og er í frumkvæðinu.“

Enginn þarf því að fara í grafgötur um það, hverjum augum Stephan leit á ljóðaþýðingar og hvað vakti fyrir honum með viðleitni sinni í þá átt.

Og sé nú mælikvarði sjálfs hans í þeim efnum lagður á þýðingar hans, þá verður það fljótt augljóst, að hann leitaðist trúlega við að fylgja kenningu sinni um það, hvað þar væri nauðsynlegast og mikilvægast, sem sé, að halda anda, efni og blæ frumkvæðisins; með öðrum orðum: að gera þýðinguna að skáldskap á íslenzkunni, en ekki aðeins að innantómri orðaskel, andlausri og ólífrænni. Óneitanlega hefir honum einnig oft tekist það, eigi sízt í hinum merkustu þýðingum sínum, að ógleymdum einstökum vísum, að ná þessu takmarki sínu merkilega vel. Og allar eiga hinar meiriháttar þýðingar hans sammerkt um það, að þær eru með sterkum persónulegum blæ, sverja sig ótvírætt í ætt við þróttmikla hugsun og kjarnmikið málfar.

Skal þá horfið aftur að síðustu þýðingu Stephans í kvæðasafni hans, dagsettri 13. ágúst 1924, en það er kvæðið „Gjafmildi“, er hann segir, að sé lausleg þýðing á “Give Not With Your Hands”, eftir Macknight Black, í “The Nation” (VI., 152).

Líklega er það þessi þýðing, sem Stephan minnist á í bréfi til dr. Rögnvalds Péturssonar í janúar 1924 (*Bréf og ritg.*, III., 113) með eftirfarandi orðum: „Rímleysuna í “Nation” gat ég ekki stillt mig um að misþýða og misríma, mér fannst efnið svo ágætt.“ En sé svo, þá hefir hann síðar endurskoðað hana og dagsetur hana því í ágúst það ár, eins og að ofan getur. En vegna þess, að hér er um seinustu þýðingu skáldsins að ræða, og einnig vegna hins, að hún er bæði einkar fagurt kvæði og fer íslenzki búningurinn ágætlega, er hún tekin hér upp í heild sinni:

*„Gefðu ei með hægri hendi;*
*þó sú vinstri viti ei af!*
*Gefðu ei með orðum heldur;*
*þau eru sverð, sem særa báða,*
*þiggjandann og þann, sem gaf!*

*Gefðu eins og gjafarinn aldni,*
*gamla móðir, jörð:*
*Óvitandi að gjafir gefi,*
*eða hugsi heldur til,*
*hún sé til þess gjörð!*

*Eins og um vor, er aldin-*
*blómum*
*brúðskart-björtum*
*laufin gæða sól og svörð.“*

Og mér finnst þessi fagri lofsöngur hinnar sönnu gjafmildi einmitt vera táknrænn um Stephan G. Stephansson sjálfan, hið gjafmilda skáld, er jós af brunni ríkrar skáldgáfu sinnar og gaf örlátlega á báðar hendur, en engin gjöf er stærri en sú, að gefa af sjálfum sér, leggja hjarta sitt og sál í gjöfina, og sjá ekki til launa.

GÍSLI JÓNSSON:

# Litið um öxl

*„Hann svo stakur, sterkur, hár,*
*stækkar við hver hundrað ár.“*

Þegar mér, sem þetta rita, veittist sá óvænti heiður, að vera kjörinn til að lesa og syngja kvæðið, sem þessar línur eru úr, á hundrað ára minningarhátíð Jóns Sigurðssonar, „okkar gæfumesta manns,“ hér í G. T. húsinu, 17. júní 1911, þá kom mér síst til hugar, að ég mundi lifa það, að taka þátt í aldarafmæli kvæðishöfundarins, Stephans G. Stephanssonar. Hann var þá innan við sextugt, og meira en fjörutíu ár er langur tími í ævi hvers sem er. Því hafði líka verið svo oft spáð, að skemmri tíma en það tæki til þess, að þurka út alt sem íslenskt er í þessu landi. En reynslan sýnir, að það er svo langt frá því, að nokkuð hafi verið þurkað út, því annars stæðum við ekki á þessum tímamótum, fagnandi yfir því að hafa átt slíkan mann, í fullri vissu um, að einmitt hann sé einn af þeim fáu, sem stækkar við hver hundrað ár.

Aldamótaárið, 1900, kom út á Íslandi lítið kver, sem hét „Á ferð og flugi“. Það rumskaði ónotalega til í hugum sumra oddborgaranna á föðurlandinu, sem lifðu í þeirri óbifanlegu trú, að ekkert gott gæti komið frá Nazareth — að ekkert nýtilegt gæti komið vestan um haf, og þá allra síst frá Íslendingum þar. Fyrsti maðurinn, sem þorði að draga athygli landa sinna að þessu kvæði og að gefa því óskorað lof, var próf. Guðmundur Hannesson, þá héraðslæknir á Akureyri. Hann sýndi fram á, í skorinyrtu erindi, að þarna væri á ferð stórskáld, sem kvæði við mjög svo ólíkari tón en jafnvel viðurkendustu skáld heimalandsins. Þetta var fyrsta rimin í frægðarstiga Stephans þar. Síðan er meira en hálf öld, og mörg bindi af ljóðum hans hafa komið fyrir sjónir almennings á þeim tíma og hlotið verðugt lof og viðurkenningu, en samt, að honum löngu látnum, hefir aldrei verið bjartara um nafn hans en nú. Einkennilegt má það þó virðast, að út frá honum hefir ekki myndast neinn skáldaskóli. Á hann það sameiginlegt við Einar Ben., og stafar það ef til vill af því, að báðir voru of stakir, sterkir, háir til þess að skipa um sig hirð, þó báðir væru þeir konungar í ríki andans.

Stephan varð nærri hálf-áttræður að aldri, en hann þornaði aldrei upp, kvað sig aldrei í kútinn; ef nokkru munaði, þá stækkaði hann með aldrinum. Hann átti margvíslega andstæðinga um dagana, eins og flestir eða allir, sem mikið er í spunnið. Hann var talinn tyrfinn og torskilinn, sbr. vísu Káins vinar hans: „Yrkir myrkt og stundum stirt Stefán G. í Kringlunne“. Hann var jafnvel sakaður um landráð, og er það eitt af því, sem ég hygg, að enginn vildi nú sagt hafa. En aðdáendur hans voru ávalt mun fleiri,

enda var honum, sem betur fór, ýmislegur sómi sýndur þegar í lifanda lífi. En næst því, að vinir hans tóku að sér, að gefa út kvæðin hans, mun honum hafa þótt vænst um heimboðið til Íslands sumarið 1917 — „árið sem hann átti gott“.

Og nú, þegar hann er ekki lengur með oss, erum við að uppskera andlega auðinn og heiðríkjuna, sem stafar frá verkum hans, og einnig heiðurinn, sem honum var ekki unt að njóta, í sambandi við aldarafmælið.

Á Íslandi hefir þessa afmælis verið minst einkum á tvennan hátt. Í fyrsta lagi með byggingu vörðunnar á Vatnsskarði, sem afhjúpuð var 19. júlí í sumar, og svo með heildarútgáfu af kvæðum hans, sem áður höfðu komið út í sex bindum, og munu nú að mestu eða öllu útseld. Auk þess höfðu verið prentaðar svonefndar úrvalsútgáfur, sem sjaldnast eru fullnægjandi eða mikið á að græða.



Minnisvarðinn á Arnarstapa, séð frá Vatnsskarði.

Hugmyndin um vörðuna átti upptök sín hjá Ungmennasambandi Skagfirðinga. Enda voru það þeir, sem komu henni í framkvæmd. Uppdrætti og líkan vörðunnar gerði Ríkharður Jónsson myndhöggvari, er einnig sá um að reisa hana. Samkvæmt frásögn blaðanna er varðan þrístrend, hérumbil fimmtán fet á hæð, á breiðum grunni. Að utan er hún bygð úr stuðlabergi misháu, sem sjá má á myndinni, en inn á milli úr brimsorfnu blágrýti. Alt er grjótið skagfirskt, og járnbent innbyrðis til að verja klofningi eða hruni. Inn í hliðarnar eru greyptar lágmyndir úr eir, sem Ríkharður hefir gert. Á einni hlið er vangamynd Stephans, á annari mynd af manni með langspil á hnjánum og bókfell, sem á er ritað: „Hver er altof uppgefinn“. Á þriðju hlið er mynd af smala með hund. Ber smalinn hönd fyrir augu og skygnist um sveitina. Undir hana eru greypt orðin: „Komstu skáld í Skagafjörð“, úr Skagafjarðar minni skáldsins.

Ræður héldu forsætisráðherra Íslands, Steingr. Steinþórsson, og margir merkustu héraðshöfðingjar. Frumort kvæði voru flutt, og kvæði skáldsins lesin og sungin. Afhjúpunin var falin yngstu dóttur skáldsins, Rósu, sem einnig hélt ræðu. En hún dvaldist á Íslandi um þessar mundir sem gestur ríkisstjórnar-

innar. Listamaðurinn skýrði sköpunarsögu vörðunnar. Um 2 þús. manns voru viðstaddir.

Hér vestra tók Íslendingadagsnefndin að sér minningarathöfnina. Fór hún fram á Gimli mánudaginn 3. ágúst á hinum venjulega Íslendingadegi. Ræður fluttu Einar prófastur Sturlaugsson, sem hér var í boði háskólans, og háskólaforseti Watson Kirkconnell, sem lauk erindi sínu með frumortu kvæði um Stephan. Hafa tvö af skáldum okkar snúið því á íslensku. Kvæði orti og skáldið Gutt. J. Guttormsson. Dóttir skáldsins var þar einnig viðstödd, nýkomin úr Íslandsför sinni. Talið er að yfir fjögur þúsund manns hafi sótt samkomuna.

Ýmsir fleiri munu hafa minst skáldsins að verðugleikum á árinu, þó rúm leyfi ekki að það sé talið. Þó má ekki gleyma Dr. R. Beck, sem hefir flutt allmörg erindi á árinu um skáldið og verk hans bæði á íslensku og ensku, þar á meðal við ríkisháskólana í Nebraska og Norður Dakota. Þá hefir hann og skrifað greinar í rit á Íslandi, svo sem Skinfaxa, Sjómannablaðið og Vísi, ennfremur greinar í ensk rit, þó ekki verði það talið hér.

Á landnámsárunum hér fyr á tíð hefði það víst verið talið vitfirringu næst, ef nokkur hefði spáð því, að stjórn Kanada mundi reisa nokkrum Íslendingi minnisvarða. Í þann tíð voru útlendingar ekki í miklu áliti eða afhaldi og öllu til skila haldið, að þeir mættu halda höfði réttu. Nú upp á síðkastið hefir þetta samt breytst, að minsta kosti að því er snertir mentamenn og stjórnarvöld. Nefnd hefir verið skipuð fyrir nokkru, sem hefir með höndum, að reisa og annast um kennimerki, vörður og steina á merkum sögustöðum eða í minningu merkra manna og atburða. Einn slíkan varða lét sambandsstjórnin reisa Stephani G. Stephanssyni skömmu fyrir aldarafmælið í Markerville, Alberta. Lagði stjórn Albertafylkis til ókeypis land og gerði að þjóðgarði í kringum styttuna. Afhjúpun fór fram að viðstöddu margmenni 4. sept. 1950. Prófessor Skúli Johnson frá Winnipeg hélt aðalræðuna, og hefir hún verið prentuð á íslensku og ensku. Tveir riddaraliðar úr löggæslu ríkisins stóðu heiðursvörð um steininn meðan á athöfninni stóð. Er þetta víst stærsta útvortis viðurkenning, sem nokkrum framliðnum Íslendingi hefir hlotnast í þessu landi.



Þótt það snerti ekki aldarafmælið, má geta þess, að frændur og vinir reistu veglegan varða á gröf skáldsins stuttu eftir lát hans.

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON:

# Klettafjöllin

Sjá furur á fótstöllum kletta
með fjölstirni vafið um háls,
með hadd nið'r á ökla
undir hjálmröðli jökla
og hárkamba gimsteinum setta
með Bifrastar litum og báls.
Sú fjalldísin unga sem á þetta skraut
frá íshafi norðan til varmastraums fjarðar,
sú fjalldísin glæst,
sem er hátignarhæst
— svo hátt ber við upploftsins skaut,
er dulin af dásemdum jarðar.

Sjá klettanna kastalaveggi
með kristals og marmaraþök,
með turnum og burstum
sem þar bygt væri furstum,
eins bjargfast í stormi og hreggi
ei hverfðist í fjúkandi flök.
Hið víðlenda fjalldísarveldi er borg
til varmalands suður frá klakalagsflóa,
hin gnæfandi fjöll
eru höll upp af höll
við hrímsteindar götur og torg
og skjólgarða sígrænna skóga.

Öll sveipast þau heiðbláma höklum
í helgidóms-víðáttu geims.
Um leið og þar syrtir
þá af ljóshöldum birtir,
það lýsir af blikandi jöklum
sem vetrarbraut himins og heims.
Og fjalldísin unga er hákrónuð hylt
þar heimskauta milli sem norðljósin braga.
Sitt fornaldarmál
geyma fjöllin í sál
og frumleik sem einkum á skylt
við fegurðar frumvarp til laga.

Hið innra, hið djúpa og dulda
var drotnandi 'ins ramasta afls
sem stórvirkin tákna,
þessar byggingar bákna,
það beizlaði hita og kulda
við grjótsteypu skriðu og skafls.
Ef frétta er leitað um fjalldísar höll
og furðuverks tildrögin, léð er því eyra,
en svarið, sem fyr,
er hans spurning, sem spyr,
að spyrjanda beinist hún öll
sem bergmál í hamri að heyra.

Þér ætlunarlaust var að yrkja
þá ortirðu töfrandi ljóð
af andanum lifað,
var sem ósjálfrátt skrifað,
og yfir þess hugsjón bygð kirkja,
það guðshús, sem stöðugast stóð.
En gátan í fjalldísar leiknum er leyst,
er lífvaki hugmynda nýrra um svarið,
hví öll þessi fjöll
eru höll fram af höll
í háleitri stílfegurð reist,
hvort forsögnum eftir var farið.

Sú list, í því fólgin að fegra
hið fagra, við hámarkið ber.
Því fagra að spilla
það er athæfi 'ins illa
og afskræmi raunverulegra
en guðanna öfugmynd er.
En síunga fjalldísin, fjallanna sál
alt fegrar með hulinni nálægð og prýðir,
hún fegrar sitt rann
eins og mannsálin mann,
og markmiðið reyndist ei tál —
sönn list hennar lögmáli hlýðir.



**EINAR STURLAUGSSON,** prófastur:

# Litið yfir land og sögu

*(Erindi, flutt í Winnipeg 25. sept.* 1953 *og að meginmáli víðar vestan hafs)*

Eins og oss mörgum mun kunnugt, hóf gamli Egill á Borg Sonatorrek sitt á þessum orðum: Mjök erum tregt tungu at hræra. Það grípur oss stundum sú tilfinning, að oss vefst tunga um tönn, er vér ætlum og þurfum að segja öðrum eitt og annað, sem oss býr í brjósti. Svo finnst mér að fari fyrir mér nú, er ég stend á þessum stað og horfi á þenna fjölmenna og fríða hóp samlanda minna svo fjarri Íslandi.

Að vonum mundi yður langa til að heyra eitt og annað að heiman, — því að enn er það svo fyrir yður mörgum, að þér segið *heim*, þegar hugsað er og talað um Ísland. — En það er svo margt, sem í hugann kemur, svo margt, sem ástæða væri til að tala um og gaman væri að ræða á þessari stundu, að það fer fyrir mér líkt og Matthíasi forðum, er hann hugðist kveða um Skagafjörð og spurði: Hvar skal byrja? Hvar skal standa? unz Bragi hinn vísi benti honum á Tindastól.

En ég er hvorki skáld né sjáandi. Hins vegar væri gaman að ganga með yður á sjónarhóla sögunnar og litast um þaðan. Í þeirri för er gott að hafa samfylgd skálda og sjáenda. — Í þjóðhátíðar-kantötu sinni segir Stefán frá Hvítadal:

*Ísland bíður og Ísland hlustar*
*á aldanna hljóða nið.*
*Grasið sprettur og döggum dala*
*drepur enginn fótur við.*

*Kristnir munkar með kross við linda*
*kveikja hinn fyrsta eld,*
*— lofandi drottin allra alda.*
*Á Íslandi mannkynsins fyrsta kveld.*

Og hann heldur áfram og rekur atburði sögunnar:

*Bæir rísa með burstir hvassar,*
*— bláhvolfin óma af fuglasöng.*
*Út til nesja og inn til dala*
*er árla risið og dagsverk löng.*

Skáldið leiðir oss af einum sjónarhóli á annan og flettir myndabók sögunnar fyrir oss. Veður gerast válynd og vígafar hefst. En elfur lífsins streymir um aldanna skóg. Og:

*Ungur kemur og aldinn víkur —*
*með elli-hvíta skör.*
*Bláminn er samur á brúnum fjalla*
*við brúðkaup og jarðarför.*

Sýnirnar halda áfram og gæfuleysi og gifta skiftast á. En hvað sem upp er á teningi í þetta skifti eða hitt, getum vér þó sagt með skáldinu:

*Enn er ljóminn ungur*
*yfir feðra jörð.*
*Stoltar konur og styrkir menn*
*standa enn hér vörð.*

Já, í trausti þess að skáldinu missýnist ekki, megum vér, niðjar hins norræna kyns, fagna hverjum nýjum degi sem arftakar kynborinna manna, er voru mikilla sanda og mikilla sæva. Og sá arfur er eggjun til vor allra, að varðveita sem bezt

hinn norræna arf hvorum megin Atlantsála, sem vér búum.

En það er ekki öllum gefið að mála svo skýrar myndir og fagrar sem skáldin gera. En vér hljótum að njóta samfylgdar þeirra, þótt fljótt sé yfir sögu farið. Þótt sagan eigi sínar skuggahliðar, á hún einnig sína sólskinsbletti, sem yndi er á að horfa, — einnig saga þjóðar vorrar. Það er að vísu ekki að jafnaði, að vér, hinir hversdagslegu menn, sjáum sýnir, en stundum er skáldunum unt að bregða þeim skygnihjálmi yfir oss, að Huldu-hvammar og hólar opnast og sagan blasir við. Verða þá vegamótin stundum slík og minningarnar, að vér sjáum yfir farinn veg — fáum litið yfir land og sögu. Í eina slíka smáferð langar mig nú til að fara með yður á þessari stundu, og vér horfum til baka, til hinna erfiðu ára, er yfir Ísland gengu á síðasta fjórðungi liðinnar aldar.

Ég sé fyrir mér í anda á þessari stundu hópa landa minna, mismunandi stóra, — börn og fullorðna og lotin gamalmenni. Þetta er fátækt fólk, en stefnufast og sterkt í raun. Það virðist eiga fárra kosta völ. En það er eitt, sem því er öllu sameiginlegt: Það veit hvað það vill. Það vill vinna. Vinna og verða frjálst og efnalega sjálfstætt. Það er fólk í hamingjuleit. Fólk, sem hefur brotið brýrnar að baki sér og horfir fram; horfir til óþekktrar framtíðar í óþekktu landi. Ég sé fylkingarnar dreifast. Það er unnið hörðum höndum, því að nú er aðeins um tvær leiðir að velja. — Þær leiðir, sem Íslendingurinn hefur jafnan nefnt svo: að duga eða drepast. Og það er auðséð, að allur fjöldinn hugsar sér hinn fyrri kostinn. Og hann verður langur vinnudagurinn, eins og hjá frumfeðrunum heima, þar sem þeir leggja nótt við dag. En hvað gerir það til, þótt setjist gigt í lend og sigg í lófa? Það er verið að nema land og búa niðjunum lífvænlegri kjör en þeir áttu við að búa heima á Fróni.

Og árin líða. Elzta kynslóðin hverfur í háttinn og hin næsta tekur við. Dagsins önn er söm, því að lífið heldur áfram og lífið gefur aldrei grið. Að nema staðar, væri að týnast eða deyja. Nei, landneminn íslenzki á sléttum Canada og öðrum frumbyggðum Vesturheims þekkti hlutverk sitt og reyndist því jafnan trúr.

Í þrjá aldarfjórðunga hefur íslenzk hönd erjað hérlenda jörð og haslað sér baráttuvöll á flestum sviðum hérlends þjóðlífs. Sú barátta hefur stundum verið ströng, en hún er fögur og næsta lærdómsrík.

Þriðja kynslóðin frá elztu landnemunum, sem nú er sem óðast að taka við og víða að komast í fylkingarbrjóst, á að vonum nokkuð örðugt með að skilja þá sögu, er að baki liggur, skilja hlutverk og baráttu afa síns og ömmu.

Utan bæjardyranna er al-enskur heimur, og hefur svo verið frá því fyrsta Íslendingar settust hér að, en hann hefur verið að smáfærast inn fyrir þröskuld heimilanna og leggja þau undir sig, og er það sízt vonum fyrri, þótt svo sé nú komið sem komið er. Að baki liggur mikil og merk saga — baráttusaga yðar fyrir varðveizlu móðurtungu yðar og sérmenningar.

Já, ég sé hana fyrir mér í anda, vinir mínir, baráttusögu feðra yðar og mæðra hér í landi, og ég dáist að þeirri sögu, því að hún er vörðuð af-

rekum drengskapar og dugnaðar, en hvergi lituð blóði yfirgangs og ódáða. Slík landnámssaga er fögur og athyglisverð.

Ég hef oft fagnað og glaðzt yfir þeim fregnum, er borizt hafa austur um haf af kynstofni vorum hér. Úr örbyrgð og umkomuleysi hafa landar vorir hér brotizt fram til virðinga og hárra embætta og ábyrgðarmikilla og jafnan reynzt þeirrar ábyrgðar verðugir. Í hæstu kennara- og dómaraembætti hafa þeir komizt og jafnvel skipað ráðherra-sess. Sumir hinir þekktustu læknar og landkönnuðir álfunnar hafa verið og eru Íslendingar, og margir ágætir viðskiftamenn eru úr hópi landa vorra. En á skrám lögreglunnar yfir vandræðamenn þjóðfélagsins eru, sem betur fer, vart finnanleg íslenzk nöfn. — Og manni finnst það gegna furðu, þegar litið er á aðstæður allar, að hér skuli enn heyrast talað svo hreint íslenzkt mál sem raun er á, og að hér skuli enn hins íslenzka ættarmóts og eðlis kenna svo glöggt sem raun ber sögu vott. Ég hefi á ferðum mínum um byggðir Íslendinga í sumar fyrirhitt fólk, á öllum aldri, einnig börn, sem töluðu svo hreina íslenzku, að hverjum heimalanda hefði verið sæmd að, að mæla svo hreinu máli.

Ég segi aftur: Hugarmyndirnar líða manni fyrir sjónir og spurningunum rignir yfir hugann: Hvernig má það vera, að svo fámenn þjóð, sem Íslendingar voru á síðasta fjórðungi liðinnar aldar, — þjóð, sem fór um eitt skeið niður fyrir 40 þúsundir, — skyldi þola slíka fólksfækkun og átti sér stað, er vesturfarir landa vorra hófust fyrir rúmum 75 árum, — án þess að bíða varanlegt tjón af; og í öðru lagi: hvernig gat svo fámennur hópur sem landnemarnir íslenzku, miðað við fjöldann, er hér var fyrir, enda þótt hópurinn væri stór miðað við heimaþjóðina, — haldið við máli sínu og menningu mitt í þjóðahafi hinnar miklu Vesturálfu? Það hlýtur að hafa verið velgert það fólk, hlýtur að hafa verið úr góðum efniviði, er svo vel hefur reynzt. Eða voru fararefnin að öðru leyti slík, að vænta mætti þess, sem orðið er? Ekki voru þau fjöldanum sjáanleg, að ég hygg, né fyrirferð þeirra mikil. Kannske gulnuð og slitin Grallarablöð, marglesnar rímur og riddarasögur, Passíusálmar og prédikanir, Heilög ritning og Hallgrímskver. Já, allt þetta og margt fleira íslenzkra bóka og lesmáls mun hafa leynzt í kistum og koffortum landnemanna íslenzku.

En hvað kemur þetta sögu landnemanna við, kann einhver að hugsa og spyrja? Þær eru svo margar, myndirnar, sem í hugann koma, er maður horfir yfir farinn veg kynslóðanna íslenzku í þessu landi. Og þær myndir eru ekki allar sem skyldi. Margt gefur þar að líta, sem veldur oss angri og iðrun, en líklega hafa þó örlagadísirnar verið kynslóð vorri hliðhollar, þegar á allt er litið.

Hinum bölsýna manni kann ef til vill að virðast svo, sem uppistaðan í lífsvef kynstofns vors á runnum þeim öldum, sem nú eru gleymdar og gengnar, hafi verið ofin úr myrkri, fátækt og kulda, — en hafi svo verið, var þá ekki ívafið úr sólskini og gulli mannkosta? Og trúi ég vart, að börn hinnar 20. aldar og þeirra næstu, gæti miður en forfeðurnir þess arfs norræns óðals og anda, sem hefur borið kynstofn vorn

fram til virðinga og sæmdar báðum megin Atlanzála.

Það eru engu síður dapurlegar myndir og skuggalegar, sem ber fyrir hugsjónir vorar, en hinar, sem birtu stafar frá.

Það var dapurt yfir landi og þjóð á þeim árum, er Íslendingar hófu vesturfarir. Sjaldan hefur trúin á landið og möguleika þjóðarinnar til að lifa á Íslandi, verið minni en þá. Og það var á ýmsan veg litið á vesturfara og vesturfarir í þann tíð. Þess er ekki að dyljast, að þeir menn voru ýmsir til, er greiddu fyrir heimanför sveitunga sinna í þeim góða tilgangi, að létta af sveit sinni, ef ekki beinum framfærsluþunga, þá að minnsta kosti óttanum af hugsanlegum kostnaði af framfærslu sumra, er mikla ómegð höfðu. — En sú tíð er liðin, og hver kynslóð verður að dæmast eftir aðstæðum og hugsunarhætti síns tíma. — En hinir voru og líka til, er sáu og skildu, að hér var um þjóðarinnar dýrustu eign að ræða, þar sem var fólkið sjálft, og þeir menn horfðu döprum huga eftir hverjum einum, er að heiman fór. Og það var í anda þeirra manna, er norðlenzka sveitaskáldið lagði þessa sáru og eggjandi spurningu fyrir vin sinn, er var á förum vestur:

*Ertu á förum, elsku vinur!*
*út í heiminn, vestur í bláinn?*
*Á að fara í ólgusjáinn*
*œttar vorrar megin-hlynur?*
*Finnst þér ekkert vera að vinna,*
*vegur enginn heima' á Fróni?*
*alt frá jökli út að lóni*
*ekkert viðnám krafta þinna?*

— — —

*Hefirðu litið hrunda garða*
*hátt til fjalls og niðr' að túni?*
*Afi þinn hinn elju-lúni*
*á sér þarna minnisvarða,*
*mœlikvarða, er mátt hans sýni.*

Vel var hún meint eggjun skáldsins til vinar síns að snúa aftur. En teningunum var kastað. Þetta fólk hafði þegar höggvið á helgasta strenginn. Óáran og hörð örlög hrundu því að heiman, og það var sízt þörf að ýfa undir þess, er það var að fara. Þær voru nægilega opnar samt. Það vissi vel hvar varðinn stóð. Hvar verkin feðranna og mæðranna leyndust, þótt lítið færi oft fyrir þeim, er árin liðu. En nú hefur þetta fólk reist sjálfu sér og feðrum sínum og mæðrum nýja varða í nýju landi, og margir yðar, sem yngri eruð, getið nú sagt:

*„Afi minn hinn elju-lúni*
*á sér „hérna“ minnisvarða“.*

Og víst eru sumir þeir varðar slíkir, að minni mundi ljómi sögu vorrar en hann nú er, væru þeir ekki til.

Kannske hef ég nú fremur hryggt yður en glatt, með sumum þeim myndum, er ég hef dregið upp fyrir yður, og hefði ég þó svo gjarna viljað sýna þær myndir einar að heiman, sem hefðu mátt gleðja hug þeirra allra, er mál mitt heyra, eða gera eitthvað það fyrir yður og þá aðra, er láta sér annt um íslenzkan menningararf hér í álfu, eitthvað, er létt gæti undir með yður í menningarbaráttunni hér og baráttunni fyrir viðhaldi móðurmálsins, og ekki aðeins viðhaldi, heldur einnig útbreiðslu íslenzkra bókmennta-afreka fornra og nýrra.

Hann fær ekki dulizt sá menningar-varði, sem þér, Vestur-Íslendingar, hafið reist ætt yðar og heima-

landi í þessari álfu á liðnum árum. Þess er að vísu ekki með sanngirni að vænta, að börn af íslenzkum stofni hér, skilji og tali íslenzku eins vel og börn fyrstu landnemanna. Minningarnar að heiman smáfyrnast og tengslin við móðurlandið máast og slitna á skemmri tíma en þrem aldarfjórðungum, auk þess sem stofninn sjálfur blandast blóði ýmissa þjóða, sem allar mæla á hérlenda tungu.

Má segja, að þér hafið háð baráttu fyrir tilveru yðar í tvennum skilningi: Í fyrsta lagi sem almennir einstaklingar og borgarar hér í landi, en þess utan hafið þér barizt fyrir varðveizlu þjóðernis yðar, tungu og sérmenningar. En yðar síðasta og stærsta framtak í þeim efnum, að minni hyggju, stofnun hins íslenzka kennarastóls við Manitobaháskóla. Mun engum unt í dag að segja eða sjá fyrir þýðingu þess stórmannlega átaks. Má vera, að þar snúist jafnvel vörn í sókn í þjóðernisbaráttunni.

Ég gat áðan lauslega um fararefni fyrstu landnemanna, bækurnar og blöðin, sem leyndust í kistunum þeirra.

Það hefur lengi við landann loðað, að vilja rýna í bækur og blöð, og stundum meira en góðu hófi þótti gegna. Hefur hinum vinnugefnari mönnum og atorkusamari víst þótt nóg um á stundum og þá haft á orði við „bóka-ormana“, að bókvitið yrði ekki í askana látið. Þeir hafa sennilega þótt léttir í maga á sumum sultarárunum, er yfir Ísland gengu, fróðleiksmolarnir, sem hin gulnuðu og máðu blaðaslitur veittu dáendum sínum.

En skyldum vér nútímamenn samt ekki eiga þeim mönnum og konum nokkuð að þakka, sem mátu meira en mat og hvíld, að færa í letur ýmsar sagnir og munnmæli, sögur og ljóð, er þeir höfðu heyrt og numið? Er þar að vísu mest um vert hin handskráðu skinnblöð. Gildi þeirra verður aldrei metið í álnum né landaurum, né heldur fer það eftir dutlungum verðbréfa í bönkum og kauphöllum stórborga heimsins. Hin fornu íslenzku handrit, sem þjóð vor á nú í dönskum söfnum, eru, að ég hygg að segja megi, slíkur fjársjóður að engum sönnum Íslendingi kemur til hugar að meta þau til fjár eða sölu. Þau eru hluti af þjóðinni sjálfri. Hluti af sál hennar og sögu. — En samlandar góðir! Gleymum því ekki, að hver tími á sína sögu og lík saga er ævinlega að verða til.

Hvað mundu ekki t. d. þeir, er mikil peningaráð hafa, vilja gefa fyrir fyrstu prentuðu bók Gutenbergs? Eða vér Íslendingar, þeir sem nokkurs eru megnugir, fyrir Nýja testamenti Odds, fyrsta prentað rit á íslenzku? — En um það er nokkuð öðru máli að gegna, kunnið þér að segja, en um almenn blöð og tímarit, sem út koma nú á dögum. Satt er það. En hitt er líka rétt, að blöð, eða annað prentað mál, sem út kemur í dag eða nú á tímum, verður einhvern tíma gamalt og eftirsótt, vegna þeirrar sögu, sem þar er geymd. Vegna þeirra heimilda, sem þar er að finna um liðinn tíma og liðna atburði. Því hvað sem hver segir, þá eru blöð og önnur frétta- og bókmenntarit spegill þjóðlífsins á hverjum tíma. Að vísu er sá spegill oft og tíðum spéspegill, en spegill samt, því að hann sýnir hugsunarhátt og viðhorf þeirra manna til lífsins, er blöðin rita á hverri tíð.

Því vík ég aftur að því, er ég áðan sagði um hið síðasta og merka framtak yðar til varðveizlu og eflingar íslenzku máli og menningu hér í álfu, — stofnun hins íslenzka kennarastóls og íslenzks bókasafns við Manitoba-háskóla. Væntanlega verður það bornum og óbornum kynslóðum álfunnar af ýmsum þjóðum, ekki aðeins íslenzkum, en engilsaxneskum og öðrum engu síður, sá Urðarbrunnur, sem þær munu sækja í þekking og svölun á komandi árum og öldum. Ég fagna því, að hafa fengið að vera með í að leggja stein, þótt lítill sé, í þá framtíðarbyggingu.

En eins og gamalt íslenzkt máltæki segir, að það sé ekki minni vandi að gæta fengins fjár en afla, svo hvílir nú á oss öllum, niðjum hins norræna kyns, sá vandi, að gæta þess menningararfs og ættaraðals, sem vér höfum hlotið í vöggugjöf. Er oss öllum, í þeim sökum, mikill vandi á höndum, og þá ekki sízt yður, hinu íslenzka þjóðarbroti hér, mitt í hinu mikla hafi þjóða og þjóðtungna.

Um margar aldir hefur heimaþjóðin barizt harðri baráttu og drengilegri fyrir tilveru sinni, tungu og menning. — Í þrjá aldarfjórðunga fulla, hafið þér, Íslendingar í Vesturheimi, háð yðar þjóðernisbaráttu og gegnir kannske furðu, má segja, hve vel þér hafið varizt til þessa. En sem að líkum lætur, að athuguðum aðstæðum öllum, gerist nú æ þyngra fyrir fæti í þeirri baráttu. — Sú spurning leitar líka á huga margra með æ vaxandi þunga: Hvaða ástæðu hef ég til að vera að leggja á mig auka-erfiði vegna máls og menningar smáþjóðar, sem ég eitt sinn tilheyrði. Ég er löngu orðinn kanadiskur borgari með enska tungu, enska siði og menningu og enskar skyldur?

Eflaust verður hver og einn að gera upp við sjálfan sig það stóra alvöruefni, er felst í þessari miklu spurningu. — Ég sem er aðeins ferðamaður hér um stund, lít hins vegar svo á, að bæði hinn norræni kynstofn sjálfur, svo og tunga hans og sú menning, er hann hefur skapað á liðnum öldum, sé allt í senn þess vert, og hafi sýnt gegnum aldanna straum þá kosti, að ástæða sé til að fagna yfir því, að vera kvistur á þeim meiði og mikið sé á sig leggjandi til að hlynna að viðhaldi og vexti norræns máls og norræns anda. Ég fæ hvergi séð, að sú fyrirhöfn, er börn og aðrir hér leggja á sig til að læra íslenzka tungu, sé þeim erfiði eitt án árangurs, eða — eins og sumir jafnvel segja, að það hefti ensku-kunnáttu unglinga. Mér virðist sagan sýna hið gagnstæða, sem og er skiljanlegt. Því að íslenzk tunga, eða norræn, er móðurtunga margra mála, svo sem latína er móðurtunga hins rómanska málaflokks, og er því gróði en ekki tap að kunnáttu íslenzku, auk þess mikla bókmenntafjársjóðs, sem íslenzk tunga er lykill að.

Ég er svo bjartsýnn, að ég trúi því, að barátta feðra yðar og mæðra í þessari álfu, barátta, sem stundum var þó svo sár og þung, að stappaði örvæni og vitfirring nærri, en sem var háð með þvílíkum manndómi og drengskap, að verpur ljóma yfir heilög sagnaspjöldin, — já, ég trúi því, að ekki hafi verið til ónýtis barizt. Og er óskabarn vort, kennarastóllinn íslenzki og íslenzka bókasafnið við háskólann hér, fegursta

vonarstjarnan í þeim efnum og um leið sá bakhjallur, sem þeir allir eiga, er íslenzkir eru og vilja vera svo áfram.

Eðlisarfurinn blandast að vonum, eftir því, sem árin líða og fólkið dreifist, en kynfylgjan norræna mun þó væntanlega lengi lifa, og vesturíslenzkar bókmenntir munu halda áfram að verða til. En hvað verður nú um fararefni feðranna, gullið á kistubotni frumbyggjanna, bækurnar og blaðaslitrin, sem þeir fluttu með sér og var kannske hið dýrmætasta, sem þeir höfðu með sér að heiman, annað en fólkið sjálft? Já, hvað verður nú um hinar gömlu, marglesnu og snjáðu skræður, sem margur skilur nú ekki lengur, en sem voru afa yðar og ömmu allt að því helgir dómar? Ég minni yður aðeins á íslenzka bókasafnið við háskólann hér og íslenzku lestrarfélögin út um sveitirnar, áður en þér eyðileggið íslenzkar bækur, sem enn eru nothæfar. Þarf bókasafnið og norrænudeild háskólans hér á sameiginlegum skilningi og velvild hvers einasta Vestur-Íslendings að halda til að ná því marki að verða höfuðvígi og arinn íslenzkra fræða hér í álfu. —

Það er engum unt að segja, hverja þýðingu gömlu bækurnar og bókmenntaarfurinn að heiman hefur haft fyrir Vestur-Íslendinga á liðnum árum. — Annars vitum vér það, að þær ásamt íslenzku blöðunum öllum, sem út hafa verið gefin hér frá fyrstu tíð, og ekki sízt íslenzku guðsþjónusturnar í hinum fjölmörgu söfnuðum landsins, hafa verið og eru sterkasti þátturinn í þjóðernisbaráttu yðar hér. Ef tungan týnist er traustasta stoð þjóðrækninnar brostin og skammt að bíða þess, að ættleggurinn hverfi sem slíkur inn í þjóðhafið, eins og dropinn í hafið, sem um löndin lykur.

Svo mjög sem tungan hefur verið heimaþjóðinni mikilvæg í þjóðernis- og sjálfstæðisbaráttu hennar á liðnum öldum, þá er hún það ekki síður íslenzka þjóðarbrotinu hér, mitt í hinum enska málheimi.

Ég hygg það sannmæli, sem eitt skálda vorra segir um móðurtunguna, þá sömu tungu, sem Ingólfur talaði og Ari skráði og börn heima á Fróni læra í dag við móðurbrjóst, að:

*„Eld og orðþunga*
*á íslenzk tunga,*
*fagra fjársjóði*
*falda í ljóði.*
*Of ísavetur*
*ornar fátt betur*
*allri ætt vorri —*
*en Egill og Snorri.*

— — —

*Því lifir þjóðin*
*að þraut ei ljóðin,*
*átti fjöll fögur*
*og fornar sögur,*
*mælti á máli,*
*sem er máttugra stáli,*
*geymdi goðhreysti*
*og guði treysti“.*

Enn er þetta lífsafl þjóðarinnar og helgur dómur, sem ég trúi og bið, að hún beri gæfu til að varðveita til daganna enda. Og þá ósk á ég einnig heitasta, yður til handa, vinir mínir, að þér megið og gæta ættararfsins sem lengst og bezt, og trúi ég þá, að heill yðar og fremd verði að meiri.

Megi allar góðar vættir styðja yður í þeirri viðleitni og leiða yður um vegu giftu, drengskapar og dáða.

JAKOBÍNA JOHNSON:

# Hún kemur . . .

Hún kemur sem lifandi ljóð,
svo létt er hver hreyfing og unaðslegt brosið.
Hún býður mér blóm-vöndinn sinn
og betra fær amma' ekki kosið.
— Velkomin, Árdís, og veldu þér sæti!

Þá sýnir hún blíðu í svip
og sezt upp í fangið á ömmu.
Svo hermir hún hæversk og kæn:
Ég heyrði það sagt fyrir skömmu
— hún amma þín býr sig og ætlar í langferð.

Hvort heyrðist mér rétt eða rangt?
— Því rósemd og kyrrð er í stofunni þinni.
Ég fæ hvorki fararsnið séð
né farangur nokkurn hér inni.
— Amma mín góða, þú ferð ekki frá mér!

Ég fer — það er ákvarðað alt.
Mér ætluð er langferð — og vinir mín bíða.
Ég líð burt í logni um nótt —
er leidd gegnum bládjúpið víða,
unz stjarnan mín birtist og staðar er numið.

Ég flyt með mér alt er ég ann.
Sem ástfólgnar minningar djásnin mín geymast
sem regnbogalitir og ljóð.
Þau lýsa — en sorgirnar gleymast.
Því fegurð og friður frá stjörnunni stafa.

Og því stefnir þangað mín för.
— En þig mun ég kveðja með trega.
Þú táknar þá tál-lausu ást
sem hér tengir frá upphafi vega.
— En heimþráin djúpa í hjartanu leynist.

Guð veiti' okkur hugfró og hlífð,
því harmur er báðum að kveðjast og skilja.
Og æskunnar ásthreinu lund
er ofraun að líða og dylja.
— Guð verndi þig Árdís, og brosið þitt bjarta!
1953

GÍSLI JÓNSSON:

# Afmælis órar

Á öllum tímum og öldum hefir mannfólkið, þegar ævidegi tók að halla, þráð viðhald og framhald æskunnar og þroskaáranna. Út af því hefir ef til vill sprottið hin algenga þjóðtrú víða um lönd, að einhvers staðar í suður- eða vesturlöndum væri að finna brunn æskunnar, þar sem menn gætu þvegið af sér þreytuna og ellimörkin, bergt af lífsins vatni og orðið ungir á ný. Á miðöldunum fékst lækna- og töfralistin mjög við þetta viðfangsefni; sáu menn jafnvel ekki í að selja sál sína þeim Gamla fyrir fáein ár og fáeina dropa af æskublóði, sbr. Faust-sögurnar, sem Goethe og ýmsir óperuhöfundar hafa gjört frægar, og fleiri þjóðsagnir af líku tæi. Eiríkur víðförli fór til Indíalands og í gin drekans, og fann Ódáinsakur, en undi þar ekki og dó svo fyrir bragðið skömmu síðar. Okkar fornhelgu goð áttu eplin góðu, sem firrði þau elli. Iðunn, kona Braga skáldaguðs, geymdi eplin, og er ekki ósennilegt, að þegar kveðskapur hans fór að verða leirkendur og þur, hafi kerling stungið upp í hann epli til að örva ögn í honum blóðið. Nú á dögum fást læknavísindin mjög við að leysa gátu hrörnunarinnar, og er ekki ólíklegt, að áður langt um líður verði hún að einhverju leyti ráðin, því draumar mannsandans rætast flestir um síðir.

En svo er önnur gáta, sem er enn torráðnari, því hún snertir það sem af andanum er fætt. Hvað veldur því, að sumir þeir, sem öll skilyrði virtust hafa til vaxtar og þroska, þorna upp og frjósa á unga aldri? Var það kannske af því, að þeir gleymdu að bíta í epli Iðunnar, þegar tungan varð stöm og hjartað kalt, eða þá af því, að þeir vanræktu að sá fræi sjálfsafneitunarinnar í Ódáinsakurinn?

Svo eru aðrir, sem gamlir verða að árum, en halda samt sálarjafnvægi sínu og varma hjartans fram í rauðan dauðann. Þeir hafa fundið yngingarbrunninn. Þeir hafa laugað sig í helgilindum eilífrar æsku.

Þessum flokki tilheyrir Jakobína.

Ég sá Bínu fyrst, er hún stóð á tvítugu. Hún var þá heitmey bróður míns. Síðan eru liðin fimmtíu ár. Í haust átti hún sjötíu ára afmæli, en þrátt fyrir það er hún enn ung. Lesið kvæðið hennar hér að framan. Þar er enn sama hjartahlýjan, sama ást og gleði yfir æskunni, engin æðra þótt leiðirnar verði að skilja. Hún er nú orðin ekkja, og börnin hennar elskuleg sum farin á undan henni og hin út í heiminn til að lifa sínu eigin lífi. En hún á enn lifandi starfssvið — vakandi áhuga á, að halda grænum frægðarmeiði landsins, sem hún er sjálf sprottin úr —



**Jakobína Johnson**

og epli Iðunnar að bergja á, þegar svo við horfir.

Í nýlega skrifuðu bréfi segir hún í gamantón, að nú ætli hún, samkvæmt þeirri venju sem kvenfólki sé borin á brýn, að hætta að bæta við sig árum, gleyma þeim sem framundan kunna að liggja, en standa á sjötugu úr þessu. Við þetta þarf naumast að bæta skýringu.

Hér verður ekki sögð nein ævisaga, né heldur reynt að útlista störf Jakobínu. Hver getur greitt eða sundurliðað sjötíu ára æviþráð dóttur, eiginkonu, móður, ömmu, fræðara og skálds? Sumir hafa reynt það, en ég er ekki einn af þeim.

Okkur gamla fólkinu er allajafna borið á brýn, að við vöðum elginn og gleymum að halda okkur að efninu. Jæja, hér er enn annar útúrdúr.

Um það bil að ég var að henda fyrstu sporin fyrir tæpum áttatíu árum, var eitt lítið en mikilsvarðandi verk unnið daglega á hverjum bæ, verk sem vafalaust hafði fylgt mannkyninu aftan úr svörtustu forneskju. Það hét: *að fela eldinn*. Eldspýtur voru þá enn á fáum bæjum, enda tiltölulega ný uppgötvun, og stál og tinna lítt þekt. Engin eldabuska eða húsfreyja var talin liðtæk, sem ekki kunni að fela eldinn. Áður en menn gengu til náða að kvöldi var síðustu glóðarneistunum rakað saman í hrúgu og taðskánum eða móköglum raðað utan að í hlóðunum. Svo var ösku hrúgað yfir og ofan á lagður flatur steinn, sem nefndist *felhella*. Ef alt gekk með feldu, var hellunni lyft af að morgni, öskunni skarað af og blásið í eimyrjuna, uns eldurinn funaði. Ef svo illa fór, að glóðin kulnaði út undir hellunni, varð að sækja eld á næstu bæi.

Jakobína hafði ung löngun og þrá til að tendra hinn innri eld, en hún hafði of snemma margs að gæta og mörgu að sinna — heimili, börn, margvísleg félagsstörf, risnu, í þjóðbraut, sem með óskráðu samkomulagi var lögð að skáladyrum þeirra hjónanna, stundum líf við þröngvan kost, vonbrigði, sorgir. Engan skyldi því undra, þó hún yrði að fela eldinn oftar en hún hefði óskað (Eru þeir ekki fleiri sem sömu sögu hafa að segja). En sagan sýnir, að hennar eldur kafnaði aldrei í öskunni undir felhellunni. Hún hefir aldrei þurft að sækja eld á næstu bæi. Og nú, þegar hún þverneitar að eldast framar, hvað sem árunum líður, þarf hún ekki að fela eldinn eins oft. Hún á enn næg skíði til að kasta á glóðirnar, svo síður er hætt við, að þær fölskvist, því „brandur af brandi brennur“ — og — „funi kveikist af funa.“

ÞÓRODDUR GUÐMUNDSSON frá Sandi:

# Hvönnin

**Hugsað til Jakobínu Johnson skáldkonu á sjötugsafmæli hennar 24. okt. 1953**

*Á Laxárbökkum óx lítil hvönn*
*og lauf sín breiddi mót sólu,*
*þar sem vorregn og vetrarfönn*
*hin vænustu lífgrös ólu.*
*En skjólklæðin hennar, hlý og sönn,*
*þá hlífðu við frosti og gjólu.*

*Hún spratt, þar sem skiptist á gull og grjót,*
*nær gnauðaði brim við sanda.*
*En ljósgjafinn efldi ungan fót*
*og orku smágervra handa. —*
*Það blóm var tekið með blöðum og rót*
*og borið til fjarlægra stranda.*

*Og gróðursett var hún í vestrænan svörð*
*hjá vínvið og glæstum runnum*
*og festi rætur í framandi jörð,*
*í frjómold hjá yngjandi brunnum.*
*Og því bar hún ávöxt, og þar hélt hún vörð*
*um það, sem vér heitast unnum.*

*Hún flutti angan úr íslenzkri sveit*
*um urtabyggð vestur í heimi,*
*þá fegurð, sem enginn þar áður leit,*
*og æðri veraldarseimi. —*
*Nú þakkarorð flyt ég því henni heit.*
*Og henni þjóðin ei gleymi.*

DR. VALDIMAR J. EYLANDS:

# Ásmundur Pétur Jóhannsson

*(Fáein minningarorð)*

Ég var mjög ungur er ég fyrst heyrði Ásmundar getið. Það stóð einskonar ævintýraljómi um nafn hans í fæðingarsveit minni og nágrenni. Fólkið talaði oft um hann, að mér virtist með undrun og lotningu. Hann var afar ríkur og mikill maður og bjó í skrautlegri höll óralangt í burtu, fyrir vestan sólarlag. Að vísu var hann ekki dáinn, en nærri sama sem, — hann átti heima í Ameríku. Það var ekkert því til fyrirstöðu, að hann gæti verið dáinn, nema það að hann kom heim í sveitina sína öðru hvoru. Hafði hann þá á sér höfðingja snið, var í fínni fötum en jafnvel sýslumaðurinn eða presturinn, bar harðan hatt á höfði, þandi digra gullfesti milli brjóstvasanna á vesti sínu, tók í nefið úr forláta silfurdósum, og þeysti á völdum gæðingum milli bæja. En svo skipti hann skyndilega um ham, er hausta tók. Lét hann þá færa sig í ullarpeysu, skinnsokka og sauðvesti, fór í göngur fram á öræfi, svaf undir beru lofti, er því var að skipta og lá hvergi á liði sínu. Á réttardaginn stóð hann í forinni, hrópaði upp bæjarnöfn, og hamaðist við fjárdrátt eins og bændur og vinnumenn. Einkennilegur maður, þessi Ásmundur, sagði fólkið, einskonar sambland af útlendingi og Íslending, sveitamanni og heimsborgara. Það hlaut að vera eitthvað mikið varið í Ásmund eða Ameríku, eða hvorttveggja, að hann skuli hafa komizt svona vel áfram þar, pilturinn frá Haugi. En til hvers er að vera mikill maður, ef það er ekki hægt nema annað hvort með því að deyja fyrst, eða fara til Ameríku. Hvers vegna er ekki hægt að dvelja á Íslandi og verða mikill og auðugur maður þar? Þannig hugsuðum við víst margir, sveitungar og nærsveitungar Ásmundar, sem vorum fæddir um sama bil, eða nokkru eftir að hann fór úr landi. En gátan um manndóm hans og afrek var okkur flestum hulin.

Löngu síðar kynntist ég Ásmundi persónulega, og átti samleið með honum og samvinnu um margra ára skeið. En þrátt fyrir náin kynni afhjúpaðist hann aldrei að öllu ævintýraljóma þeim, sem æskusýn mín hafði sveipað hann í fjarlægðinni. Það duldist engum, að það var mikið í Ásmund spunnið; persónumáttur hans var mikill, andinn brennandi að hverju sem gengið var, og hæfileikar foringjans komu fram stöðugt í orðum og athöfnum. Hann var hið mesta hraustmenni á líkama og sál, óvenjulega traustur maður og heilsteyptur að skapgerð og hátterni. Í starfinu með honum skildist mönnum hér vestra, að það er ekki ævinlega nauðsynlegt að dvelja í heimahögum sínum til þess að geta unnið ættlandi sínu og orðið þjóð sinni til



**Ásmundur Pétur Jóhannsson**

sóma. Um hálfrar aldar bil kom hann mjög við sögu landa sinna vestan hafs, og hafði einnig heillavænleg áhrif á menn og málefni á ættjörðinni. Ævistarfið var húsabyggingar, var oft talað um hann sem *byggingameistara,* og hann var það í ýmsum skilningi. Hann byggði ekki aðeins fjölskyldubústaði og stórhýsi í erlendri stórborg, heldur leitaðist hann við að reisa musteri hins íslenzka manndóms hvar sem áhrif hans náðu til. Þess vegna beitti hann sér ótrauðlega fyrir öllum þeim málum, sem hann taldi að mættu verða þjóðbræðrum sínum til heilla. Það mun tæplega hægt að nefna nokkra þá grein félagsmála með Íslendingum í Winnipeg síðastliðin fimmtíu ár, að Ásmundur komi þar ekki við sögu. Þannig var hann máttarstólpi Goodtemplara, góður stuðningsmaður kirkju sinnar, frumkvöðull að þátttöku Vestur-Íslendinga í stofnun og fjársöfnun fyrir Eimskipafélag Íslands; lífið og sálin í íslenzkukennslu barna í Winnipeg síðustu áratugina; hann var einn af stofnendum Þjóðræknisfélagsins, og um seytján ára bil meðlimur í stjórnarnefnd þess. Hann hrinti í framkvæmd hugmyndinni um kennarastól í íslenzkum fræðum við Manitobaháskólann með hinni rausnarlegu fimmtíu þúsund dollara gjöf sinni. Einnig studdi hann ýmis fyrirtæki heima á ættjörðinni, svo sem spítala og stúdentagarð Háskóla Íslands. Ríkisstjórn Íslands sæmdi hann æðsta heiðursmerki, sem hægt er að veita borgara annars lands, og nafn hans mun lengi geymast í Sögu Vestur-Íslendinga, sem eins hins ágætasta af niðjum Íslands, sem fluttust í vesturvegu á þessari öld.

Hann var fæddur að Haugi í Miðfirði 6. júlí 1875, sonur Jóhanns Ásmundssonar og Guðrúnar Gunnlaugsdóttur. Hann var tvíkvæntur. Fyrri kona hans, Sigríður Jónsdóttir frá Húki, lézt 1934. Síðari konan Guðrún Eiríksdóttir frá Álftárbakka lifir mann sinn ásamt Jónasi Valdimar, Kára Vilhelm og Grettir Leo, sonum af fyrra hjónabandi hans. Heimili Ásmundar, 910 Palmerston, var eitt hið glæsilegasta meðal Íslendinga í Winnipeg; lá það um þjóðbraut þvera og þaðan eiga margir hlýjar endurminningar um skemmtilegar heimsóknir og mikla rausn húsbænda. Þar lézt Ásmundur 23. október s.l.

Fer vel á því, að Tímarit Þjóðræknisfélagsins geymi mynd og minningu þessa ötula stofnanda síns og starfsmanns, um leið og félagið þakkar manndóm hans og margvísleg störf.

DR. RICHARD BECK:

# Dr. Sigurgeir Sigurðsson biskup

*Þín helfregn mig skar í hjartarót;*
*það húmaði' á miðjum degi,*
*en hratt streymir áfram æviflјót*
*að eilífðar mikla legi.*
*Samt er það í harmi beiskum bót,*
*hve bjart var á þínum vegi.*

*Þar ljómaði trúarljósið skært*
*í lyftandi mætti sínum,*
*við helgustu lindir lífsins nært,*
*og lýsti í störfum þínum.*
*Með góðleikabrosið, gleðitært,*
*þú geymist í huga mínum.*

*Við kristni vors lands var knýtt þín dáð,*
*af kærleika heitum unnin;*
*í feðralands sögu fögur skráð,*
*úr fórnlund og þreki spunnin,*
*því dagsins var stríð með hreysti háð*
*og heið var þín brautin runnin.*

*Þú brúaðir hafið bróðurhönd*
*og barst oss frá móðurgrundu*
*þá hlýju, er vermir vora önd,*
*sem vorblær, að hinztu stundu.*
*Og fastar þú tengdir frændabönd*
*og færðir oss gull í mundu.*

*Því brúar vor þökk hið breiða haf*
*og blómsveig þitt leiði vefur,*
*sem letrað er stjarna logastaf,*
*er land vort í draumi sefur.*
*Brátt sveipar þinn legstað sólskinstraf,*
*er sumarið völdin hefur.*

DR. J. P. PÁLSSON:

# Tveir landar í Ameríku

Sú var tíðin, að ég hefði skoðað ferðalag mitt austur í Mörk sem hina mestu fýluför og reiknað mér hana í tap. Þá hefði ég heldur ekki tekist langferð á hendur í því eina augnamiði, að finna mann að máli án þess að vonast eftir nokkrum hagnaði af fundum okkar. En þó ferðin næði ekki tilgangi sínum, er ég hæst ánægður með, að hafa farið hana. Hún hefir gefið mér ný umhugsunarefni, svo nú dreg ég sumt það í efa, sem ég hafði áður fyrir satt. Og þar sem mér er uppálagt, að forðast alt fésýslugrufl eins og heitan eldinn, er mér bráðnauðsynlegt, að hugurinn eigi eitthvert viðfangsefni annað en fjármál, enda þótt það valdi breytingum á skoðunum mínum og lífsviðhorfi.

## I.

Auðurinn er afl þeirra hluta sem gera skal. Ungur nam ég þetta guðspjall og á það, ef til vill, sinn þátt í því, að ég lagði mig allan eftir fjársöfnun. Þá komst það snemma inn hjá mér, að menn eru sjaldan metnir eftir því, hvernig þeir lifa og láta, heldur fara mannvirðingar að öllum jafnaði eftir eignum þeirra í löndum og lausum aurum. Þó mun meðfætt upplag og dæmi foreldra minna hafa ráðið mestu um þá stefnu sem ég tók þegar á barnsaldri. Við vorum fátæk, eins og flestar íslenzkar innflytjendafjölskyldur þessa lands, og urðum að fara spart með það litla sem okkur áskotnaðist, sér í lagi fyrst framan af. Á heimili okkar voru því nýtni og sparsemi ekki aðeins dygðir í orði, heldur á borði og í bókstaflegum skilningi. Oft skorti björg í búi sökum þess, að faðir minn aftók, að fá eins sents virði til láns hversu hart sem við vorum leikin. Margir kölluðu þetta sérvizku í karlinum, en hún kom mér vel síðar. Ég hefi jafnan fylgt sömu reglu, og því hélt ég öllu mínu, þegar mér meiri eignamenn mistu alt sitt í kreppunni miklu.

Frá blautu barnsbeini var ég glöggskygn á alt sem að fjármálum lýtur og hófsamur langt fram yfir það sem alment gerist. Þá var ég gæddur þeirri skapfestu og einbeitni, að ég lét aldrei hlut minn fyrir öðrum, nema um þunga refsingu eða dauðann væri að tefla. Fórust föður mínum þau orð um mig, barnið, að vart mundi annað eins þráablóð finnast á guðsgrænni jörðu.

Ungur hefi ég hlotið að vera, þegar ég lagði fyrstu sentin, sem mér innheimtust, til síðu. Eiginlega gerði faðir minn það fyrir mig; og á því veit ég hver óviti ég var. Einhver gestur gaf mér tvo tuttugu og fimmsentinga. Ekki man ég hvort það var karl eða kona, en myndin af silfurpeningunum er greypt í hug minn til þessa dags. Og vel man ég hvernig ég barðist um og grét af bræði, þegar faðir minn tók annan pening-

inn og keypti fyrir hann ofurlítinn svínbanka, en mér hægðist brátt, þegar hann lét mig stinga tuttugu og fimmsentingnum, sem eftir var, í rifu á baki svínsins. Þar mundi hann vera óhultur og mér fór strax að þykja vænt um skepnuna. Á þennan hátt hófst fjársöfnun mín og þó langt sé síðan svínið mitt hætti að rúma tekjur mínar, á ég það enn og hefi alla æfi haft yndi af, að stinga í það smáskildingum, sem aðrir mundu kasta á glæ fyrir alls konar óþarfa.

Ekki held ég, að ég hafi safnað sentunum í öðrum tilgangi en þeim, að fylla svínbankann sem fyrst, og ég gerði þetta af innri þörf. Í hvert skifti og mér lánaðist að pota pening í svínið mitt, hrestist ég á líkan hátt og ég væri þyrstur og fengi að drekka. Hefði ég þó verið illa haldinn af þorsta til þess að taka svaladrykk fram yfir koparsent, væri um það tvent að velja. Og ekkert skildi ég í jafnöldrum mínum, sem komust yfir sent oftar en ég, en eyddu þeim fyrir brjóstsykur, eða freðflautir og annað sælgæti. Naut ég oft góðs af eyðslusemi þeirra og stakk stundum á mig því sem féll í minn hlut og fékk sent fyrir það seinna. Ég var ólatur og var mér úti um smásnúninga fyrir aðra, í von um sent fyrir ómakið. Og sú von rættist oft, líklega fyrir, hversu lítilþægur ég var. Mig gilti einu hvort ég hljóp eina mílu eða tíu fyrir fimm sent, væri því að skifta. Djúp og einlæg gróðagleði er ekki hlutfallsleg við, hversu ábatinn er mikill. Jafnvel eftir að eg taldi eignir mínar í tugum og hundruðum þúsunda, fanst mér sem birti yfir öllum heiminum fyndi ég skilding á götunni. Hitt hefir mér ætíð reynzt raun, að handleika peninga sem aðrir áttu og ég var ekki frjáls að, að leggja á banka, hvort sem hann var svínið mitt eða Montreal bankinn. Þó átti ég bágast með, að skila af mér sentum, sem mér voru fengin þegar ég fór á sunnudagaskólann eða til messu. En með lagi og fyrirhyggju kom ég þeim oft undan, án þess grunur félli á mig. Og ekki ónáðaði samvizkan mig, eins og hefði ég ruplað sentunum. Fyrst og fremst var mér með öllu óskiljanlegt, að guði almáttugum væri nokkur þægð í, að honum væri gefin fáein sent á sunnudögum, þegar enginn átti að hafa peninga um hönd og öll bissneshús voru harðlæst; svo átti hann allan heiminn, hvort eð var, og þá svínbankann og mig með. Og hví skyldi honum ekki standa á sama hvort sentin hans voru í sunnudagaskóla-sjóði eða kirkju eða svínbankanum mínum. Þannig hugsaði ég, barnið, og hefi ávalt síðan tekið það fram í bænum mínum, að guð ætti mig með öllum eignum mínum. Enda hefi ég þá skoðun, að guðsótti og hæfileg þjálfun samvizkunnar séu fjársýslumanninum ómissandi. Án þessa mundi hann bugast í baráttunni um dollarinn, missa alla sálarrósemi, svefn og matarlyst. Skeð getur að ótti fyrir þessari hættu ásæki ekki aðra eins og mig. Hann mun stafa af orðum móður minnar: „Þú mátt aldrei taka það sem þú átt ekki, annars tekur ljóti karlinn þig“.

Snemma varð ég þess var, að ég átti ekki samleið með öðrum, tók aldrei þátt í leikum né öðrum félagsskap jafnaldra minna, nema ég sæi mér hag í því, t. d., ef einhver eyðsluseggurinn hafði eignast sent og ég gerði mér von um, að njóta góðs af.

Vakinn og sofinn hafði ég allan hugann við svínið mitt, og dreymdi það oft: ýmist að það væri fult eða galtómt. Ástand þess var ástand mitt, í vöku og svefni, lífi og dauða. Ekkert markvert bar við, nema það væri tengt við svínið mitt. Á stórhátíðum eignaðist ég oft sent, því hlakkaði ég til þeirra. Þannig var mér farið löngu áður en ég hugsaði mér, að eitt sinn mundi svínbankinn minn fyllast. Eftir að sú von vaknaði, skapaðist mér markmið og við það jókst áhuginn um allan helming.

Loks var takmarkinu náð, meira varð ekki komið í svínið og faðir minn tók það og mig með sér niður í bæ og inn í stærsta bankann í borginni. Þar sagði hann mér að leggja svínið upp á ofurlitla hillu utan við fjarska fallegt grindaverk. Innan við grindurnar stóð fínn maður við borð, og taldi heimsins ósköp af seðlum og silfurpeningum og raðaði þeim niður í skúffu í borðinu. Á meðan opnaði faðir minn svínið mitt og helti úr því á hilluna, og ýtti svo aleigu minni undir grindaverkið, og sagði manninum, að drengurinn sinn vildi leggja þetta í sparisjóð. Þessu anzaði ekki sá fíni, fyrr en hann var búinn að koma sínum peningum fyrir í skúffunni. Þá brosti hann til mín og spurði mig heitis. En þegar ég sagðist heita Sæmundur Hrafnkelsson, fór af honum brosið, en kom aftur þegar faðir minn skrifaði nafnið á blað og rétti honum það. Var ég lengi að venjast því, hvað enskum var illa við, að ég skyldi heita Sæmundur og vera Hrafnkelsson, nema þeir fengju það skriflegt. Jafnvel það bætti ekkert úr skák í enskum krakkahóp. Þó lagaðist þetta eftir að ég sagði þeim, að á ensku, héti ég Sam Kelly. Sá fíni taldi sentin mín svo fljótt að ég fylgdist ekki með honum. Og ég veit ekki fyrri til, en hann fær mér obbolitla bók, þakkar mér fyrir viðskiftin og býður mér, að koma aftur. Og nú beinir fíni maðurinn brosinu að voðalega feitri konu, sem ýtir mér frá hyllunni og leggur uppá hana stóreflis bunka af bankaseðlum. En faðir minn togaði í treyju-ermina á mér, og sagði að við værum búnir hér. Hann var búinn að koma svíninu í samt lag, en ósköp hlaut það nú að vera innantómt, auminginn! Mér fanst sjálfum ég vera hálf soltinn og yrði það, þar til ég gæti lagt eitthvað að mun í svínbankann minn. Þetta tókst mér furðu fljótt og svo oft, að ég þóttist kominn á góðan rekspöl með, að verða fjársýslumaður fyrir fermingaraldur. Og þó bankabókin mín sýndi smáar upphæðir voru þær allar innlegg. Ég var orðinn svo vanur því að safna, að mér kom ekki til hugar að skiljast við skilding nema í bankanum. Einnig hafði ég lært ýmislegt sem fjársýslu viðkemur. Ég var þegar farinn að taka eftir því hvernig aðrir fóru með efni sín og hjá hverjum þau lágu lausast fyrir, og gerði mitt ýtrasta til, að komast í mjúkinn hjá þeim og ná trausti þeirra. Oft fylgdi þessu fyrirhöfn og jafnvel nokkur kostnaður, en síðar margborgaði það sig. Hina, sem ég sá, að fastheldnari voru lét ég eiga sig að öðru leyti en því, að taka eftir hvernig þeir fóru með efni sín og læra af þeim, áliti ég þá mér snjallari.

Aðferðir mínar til að græða á öðrum takmarkaði ég ætíð við þjófnað og rán. Gleymdi aldrei viðvörun móður minnar. Þakka ég

henni, að gegnum alt mitt langa og stranga fjármálabrask, komst ég aldrei undir mannahendur. Áður hefi ég vikið að því, hvernig ég tamdi samvizkuna, sem framtaksmanninum er ekki síður nauðsynlegt en að komast af við lög landsins. Og svo bezt vex vegur hans, að hann temji sér jöfnum höndum guðsótta og löghlýðni og sæki sem oftast ráð sín til presta og lögfræðinga. Til þess eru þeir, að spara manni tíma frá guðsorðalestri og laga og halda skjólstæðingum sínum á vegi heiðarlegs borgaraskapar. Engin útgjöld borga sig betur en það, sem látið er af hendi rakna við menn af þessum stéttum, en svo bezt þó, að vel sé valið um þá. Önnur óbein útgjöld reyndust mér einnig ábatasöm þegar til lengdar lét, gjafir til þeirra stofnana, sem haldið er við með almennri ölmusu, og framlög til ýmsra félaga, sem fjársýslumaðurinn kemst ekki hjá að tilheyra. Ódýrari auglýsingar er hvergi fyrir að finna. Og þó manni blæði í augum að kasta fé í slíkar hítir án nokkurrar vissu um að ábatast á því, er mín reynsla sú, að hér lét ég minna af hendi en skyldi. Nauðugur, viljugur leggur maður tíma og peninga til alslags félagsskapar, sem ekkert gefur af sér annað en myndir í blöðunum og lofgreinar um örlyndi manns og skörungsskap. Í seinni tíð kosta slík fjárframlög tiltölulega lítið, þar eð þau eru undanþegin tekjuskatti. Svo þegar öllu er á botninn hvolft, er litlu eða engu tapað við slíkt gjafafé. Öðru máli gegnir með gjafir til fátækra einstaklinga. Hversu illa sem þeir eru staddir, er ekkert unnið með að hjálpa þeim. Þegar bezt lætur, skrifa þeir þakkarávörp í íslenzku Winnipegblöðin, sem enginn tekur eftir né markar, þar sem höfundarnir eru ráðlausir, ósjálfbjarga ræflar. Og sæti illa á mér, að ausa út peningum í aðrar eins mannleysur. Sjálfur hefi ég ekki eytt meiru til fata og fæðis fyrir mig en óbreyttur verkamaður og oft gengið ver til fara en þeir, sem taka við ölmusugjöfum af öðrum. Verulegir þurfalingar geta snúið sér til þeirra líknarstofnana, sem þegið hafa fjárstyrk af mér. Þar er ég laus allra mála.

Að því leyti sem mér var það mögulegt, vann ég störf mín á laun og í kyrþey, eins og gróðurorka náttúrunnar og moldvarpan. Mun sú aðferð happadrýgst fjársýslumanninum; og gróða gleðinnar verða bezt notið í einrúmi. Þarf enginn að ætla sér, að næla og nurla, svo um muni, í glaum eða á gatnamótum. Um þetta sannfærðist ég æ betur eftir því sem fleiri starfsárin færðust yfir mig. En alt á sitt upphaf og endi. Með aldrinum rénaði gróðagleðin, unz ekkert fjárhapp, hversu óvænt og mikið sem það var, megnaði að hrífa hug minn og hjarta. Þóttist ég viss um, að slíkur sálardoði benti á líkamlega hrörnun, og leitaði læknis í fyrsta skifti á æfinni.

Læknirinn spurði mig spjörunum úr; skoðaði mig utan og innan með gaumgæfni og geislum; þumpaði mig og dumpaði frá hvirfli til ilja; tók ritmyndir með fáránlegum rafvélum af hjartaslögum mínum; taldi í mér blóðkornin og hafði fleiri kúnstir í frammi á minn kostnað. Að því búnu segir hann, að ég sé ekki í bráðri hættu, fari ég að ráðum sínum: „Það sem að þér gengur er æðakölkun og stórt hjarta“. Ætlaði

ég varla að trúa þessu um hjartað, en spyr, hver orsökin sé.

„Þú hefir reynt of mikið á hugann, en of lítið á líkamann“, segir læknir. Hvað þetta kom hjartanu við, skildi ég ekki. Hélt menn væru hættir að hugsa með því líffæri, en sagði ekki orð um það; því nú las læknirinn mér lífsreglurnar. Fyrir þær mundi hann setja mér fult verð og ég ætlaði mér ekki að missa af einu orði. Áhyggjulaust og einfalt líf var aðal forskriftin. Létt fæða. Reglubundinn svefn. Létt vinna úti undir beru lofti — aðeins smávegis dund og dútl. Þetta útmálar læknir í eins konar heilsumálaerindi. „En þó þú fylgir nákvæmlega þessum reglum, kemur það ekki að haldi nema svo aðeins, að þú leiðir hugann frá öllu, sem viðkemur fjársýslu — kaupum, sölum og hvers konar spekúlasjón sem er, í stórum og smáum stíl“. Þannig batt hann endahnútinn á erindið og veitti mér rothöggið! „Og fari ég ekki að ráðum þínum?“ spyr ég í hálfgerðu sinnuleysi. „Er eins líklegt, að þú fáir slag og lamist til óbóta eða verðir bráðkvaddur.“ Þetta segir læknirinn blátt áfram, eins og hann væri að spá um veðrið á morgun, en ekki að kveða upp dauðadóm minn. Og í fyrsta skifti á æfinni gerði ég, Sæmundur Hrafnkellsson *alias* Sam Kelly, mér verulega grein fyrir því, að ég átti eftir að deyja eins og aðrir menn. Og til þess að draga það á langinn, var hyggilegast að fara að ráðum læknis.

Fyrst var að finna mér hæfilegt heimili; og leitaði ég þess utan borgar. Vissi vel, að eins lengi og ég átti heima mitt í hringiðu viðskiftalífsins, mundi ég ekki geta stilt mig um, að braska með fasteignir. Og með lítilli fyrirhöfn og krókalaust fann ég kot og ekru af landi mátulega langt frá ys og þys borgarinnar, og keypti það á mjög rýmilegu verði; en varaðist þó alla gróða-hugsun í sambandi við happið. Það hefði setið illa á mér, að trekkja mig upp í slagið, sem læknirinn hafði hótað mér, út af kjörkaupum á eign, sem ég ætlaði ekki að selja.

Þó húsið sem annað væri í hinni mestu niðurníðslu, taldi ég það kost á eigninni. Hér var nóg fyrir mig að dunda við, samkvæmt forskrift læknisins. Byrjaði ég strax, að dytta að húsinu og mála það utan og innan. Gamalt bílskýli tók ég sömu tökum. Setti skilrúm í það og bjó um geit í öðrum enda þess en nokkrar hænur í hinum. Að því búnu girti ég blettinn inn og tók að arta upp á gamlan kálgarð og nokkur aldintré, sem alt lá í margra ára órækt. Sá ég brátt, að hér voru möguleikar til að lifa án þess að kosta miklu til. Og þó tekjur af eignum mínum drifu að mér eins og moldviðri, svo mér lá við köfnun, naut ég enn ánægjunnar við að spara, eins og þegar ég átti lítið eða ekkert. Í foreldrahúsum vandist ég á einfalda fæðu og alla hófsemi, og varð það að æfilöngum vana; og enn nýt ég svo bezt fæðunnar, að hún sé sem allra einföldust og tilreidd af sjálfum mér. Svo hefir það gengið til síðan fyrst ég átti með mig sjálfur, að svo miklu leyti og ég kom því við, og hefir það sparað mér bæði tíma og peninga. Nú var hægurinn hjá, að halda gömlum vana og um leið fylgja ráðum læknisins, mér að kostnaðarlausu. Lyfjakostnaður var ekki teljandi. Þá var mikils vert, að fá nú loksins notið þeirrar stundvísi, sem mér er

meðfædd og kemur heim og saman við ráðleggingar læknisins. Meðan ég var í bissnesi hafði skrifstofufólk mitt og aðrir sem unnu fyrir mig sinn vissa vinnutíma og gat lifað upp á mínútuna. Með mig gegndi öðru máli. Gróðatækifærin eru síður en svo stundvís. Þeim getur skotið upp, öllum að óvörum, eins og skrattanum úr sauðarleggnum. Og við því verður bissnesmaðurinn að vera búinn, svo hann geti stokkið á þau eins og köttur á mús. Fylgir þessu megn óregla á svefni og máltíðum auk sleitulausrar taugaspennu. Hér leyfa allar aðstæður mér, að skipuleggja störf mín þannig, að klukkan ein segir til, nær ég vaki, hvílist, vinni og nærist. Sex að morgni, rís ég úr rekkju, og vinn úti við til kl. níu, þegar birtan leyfir. Í skammdeginu dútla ég eitthvað inni við ljós. Að morgunverkum loknum fæ ég mér bita og fréttir yfir útvarpið. Því næst ræsti ég húsið, bý upp rúmið, dusta rykið af öllu innan stokks og lappa upp á vinnuföt mín og annað, ef tíminn leyfir. Um hádegið snæði ég miðdegismatinn og legg mig fyrir á eftir. Læt aðeins síga í brjóstið á mér nokkrar mínútur, en verst að falla í svefn. Eftir hvíldina pússa ég mig upp, fer í betri fötin og tek mér göngutúr í átt til borgarinnar. Stöku sinnum kem ég inn í útjaðar hennar, til að kaupa nauðsynjar mínar og tvisvar á ári neyðist ég til að fara alla leið inn í ysinn. Geri þá sakir mínar í bankanum. Annars er ég kominn heim af göngunni um klukkan þrjú. Skifti um föt og vinn úti til klukkan sex. Er þá dagsverkinu lokið utan þess, að tilreiða kvöldverð, þvæ diskana og pólera gólfið.

Á kvöldin les ég eins lengi og sjónin leyfir. Helzt eru það íslenzkar skruddur, það eina erfðafé, sem ég krafðist eftir andlát föður míns. Til að hvíla augun frá lestrum, hlusta ég á útvarpið — helzt symphóníur og annan þægilegan sönghávaða af líku tæi. Við það hvílist ég betur en nokkuð annað, og hugurinn leitar til liðinna daga og ég lifi þá upp í endurminningunum. En merkilegt er það, að þær endurminningar eru aldrei bundnar við gróðafyrirtæki né þá menn, sem ég hafði hagsmunaleg skifti við, heldur manneskjur sem ég hafði persónuleg kynni af, án þess að þar kæmi kaup eða sala til greina. Sá sem oftast sækir hug minn heim, er Oscar Marson, maður sem ég var samtíða aðeins tæpt misseri, og svo ólíkur mér, sem mest má verða. Nærri liggur, að Oscar sæki að mér í endurminningum mínum, þó þær valdi mér fremur ánægju, en leiðindum. En svo mikinn óróa elur hann í hug mínum, að ég býst ekki við að finna frið fyrr en ég hefi sótt hann heim.

II.

Á ungdómsárum mínum bar ég þá flugu í höfðinu, að skólalærdómur væri nauðsynlegur hverjum þeim, sem vildi verða maður með mönnum, og skilyrði til að koma ár sinni fyrir borð í viðskiftalífinu. Að sönnu sársá ég eftir þeim tíma og peningum, sem skólagangan krefst, en efaðist ekki um, að hún mundi borga sig síðar meir. Mér varð líka mun hægara fyrir en mörgum landanum, sem var langt að kominn og varð að kaupa kost og standast annan kostnað, sem ég komst hjá. Ég átti heima

í borginni — og hæg eru heimatökin. Þótti mér undarlegt, að tiltölulega fátt þeirra landa, sem gengu mentaveginn, eins og það var kallað, áttu heima í borginni. Allur þorrinn var utan af landi eða úr smábæjum, og vakti það stundum efa hjá mér um nytsemi skólalærdóms. Ég gekk, nefnilega, út frá því, að borgarbúar væru praktískari en bændafólk. Og Winnipeglandar voru ekki að sperrast við æðriskólanám svo árum skifti, utan einstaka einn sem stundaði framhaldsnám eftir að útskrifast úr barnaskólanum, en langtum fleiri létu sér nægja að ganga nokkrar vikur á verzlunarskóla. Það námskeið valdi ég mér, þó ég vissi, að það var ekki leiðin til að verða embættismaður. En þegar ég leit yfir landana í Winnipeg sá ég ekki, að hámentuðum embættismönnum græddist meira fé en hinum, sem lítillar eða engrar skólagöngu höfðu notið. Og til hvers var þá allur lærdómurinn? Mér lét ég nægja, að komast ofurlítið niður í bókfærslu og reikningi.

Haustið sem ég innritaðist í verzlunarskólann, giftist eldri systir mín og flutti af heimilinu. Áður hafði hún arðberandi atvinnu við klæðasaum, og mátti vel við, að borga ríflega fyrir fæði og húsnæði, þó hún væri í foreldrahúsum. Sá ég um, að hún kæmist ekki undan því. En hún hafði áskilið sér stærsta og bjartasta svefnherbergið; og nú stóð það autt. Fanst mér sjálfsagt að leigja það og jafnvel selja leiguliðanum fæði. Hér sem oftar hafði ég öll ráðin, því foreldrar mínir höfðu fyrir löngu sannfærst um, að ég bjó yfir hyggindum sem í hag koma. Ákvað ég, að ná í íslenzkan háskólanema, helzt bóndason. Bændasynir voru ekki vanir við pírumpár en greiddu skilvíslega kostgjöld sín. Og þó þeim væri vilnað í meira en almennum verkamönnum, borgaði sú ívilnun sig. Skólapiltar átu minna en menn, sem unnu stritvinnu, gengu þrifalegar um hús og vistuðu sig fyrir ákveðinn tíma. Utan þess sá ég mér persónulega leik á borði. Sækjist sjálfum mér námið ekki sem bezt, væri ekki í annað hús að venda eftir tilsögn. Mér var einnig kunnugt um, að bændasynir guldu oft kost sinn að einhverju leyti í keti, eggjum, sméri og öðrum bændavörum. Alt slíkt mundi ég meta til verðs og njóta sjálfur þess, sem munaði milli markaðsverðs og þeirra kjörkaupa sem ég þóttist viss um að komast að. Fór þó sú áætlun mín út um þúfur, því ég græddi aldrei eitt sent á Oscar Marson. Ekki sökum þess að hann væri mér hyggnari í viðskiftum, heldur hafði sambúð okkar lamandi áhrif á ásælni mína og gróðahug. Fann ég sárt til þessarar veilu í skapgerð minni, meðan ég var Oscar samtíða, þó ég hafi aldrei endranær orðið hennar var, hvorki fyrr né síðar.

Oscar Marson kom norðan frá Mörk. En svo nefndu landar eina af landspildum þeim, sem þeir námu milli stórvatnanna í Manitoba. Þetta var þriðja árið, sem hann stundaði nám við háskólann, og var fyrir löngu orðlagður fyrir óvenjulega skarpar námsgáfur. Hann var ekki aðeins jafnvígur á allar kenslugreinar, heldur og leikfimi. Mælskur var hann með afbrigðum, alúðlegur, fyndinn og glaðlyndur, glæsilegur jafnt á að líta og í allri framkomu — sjálfkjörinn til forustu í sínum hóp.

Þannig mælti almannarómur. Sjálfur treysti ég mér ekki til að lýsa manninum að öðru leyti en því, að hann var stór og bjartur yfirlitum. Og nærvera hans hafði svo þægileg áhrif á mig, að ég hugsaði ekkert um útlit hans og eiginleika. Þetta var hann Oscar, alveg sérstök persóna, sem ekki varð borinn saman við annað fólk. Og það fór víst líkt fyrir kvenþjóðinni eins og mér. Allar stúlkur voru bálskotnar í Oscar, líkt og nú gerist um ofurmennin í Hollywood. Jafnvel Tóta, systir, sagði, að Oscar væri svo sakleysislega sætur, að það ætlaði að gera sig vitlausa. Alt til þessa hafði ég skoðað spaugsemi og fyndni, sem hverja aðra vitleysu. Nú fanst mér bros Oscars og gamansemi lýsa upp stofuna eða strætið þar sem við vorum staddir, þegar honum tókst upp. Og víst átti glaðlyndi hans mikinn þátt í þeirri breyting, sem heimilisbragurinn tók, meðan hann dvaldi hjá okkur. Foreldrar mínir gerðust léttari í lund og spori en ég mundi eftir að hafa séð þau. Ég tala nú ekki um Tótu systur! Allt fram að þessu var hún úti fram á nótt öll kvöld, sást varla heima nema á meðan hún reif í sig matinn kvölds og morguns. Á daginn vann hún á þvottahúsi svo langt að heiman, að óþægilegt var fyrir hana, að koma heim í miðdagsmatinn, svo hún tók vanalega bita með sér. Þó kom fyrir, að það var hundur í henni og hún fór nestislaus, og keypti sér mat niður í bæ. Væri vikið að því, að henni væri hollara að vera heima á kvöldin, varð hún vond og sagði, að sér veitti ekki af að lyfta sér upp eftir þvottahúsþrældóminn. En eftir komu Oscars lyfti hún sér upp með því, að sitja heima kvöld eftir kvöld við sauma eða bóklestur.

Sjálfur varð ég að hafa mig allan við lærdóminn, hafði lítið lært í barnaskóla og lélega undirstöðu í þeim námsgreinum, sem kendar voru í verzlunarskólanum. Hefði ég að líkindum gefist upp við námið, ef Oscar hefði ekki verið við hendina, að segja mér til og stappa í mig stálinu. Nokkur orð frá honum lýstu upp hvern krók og kima skólabókanna, sem annars hefðu reynzt mér villandi völundarhús. Í fyrstu veigraði ég mér við að kvabba í Oscar, í hvert skifti sem mig rak í vörðurnar. Bæði þótti mér minkun að fákunnáttu minni og svo vissi ég, að hann hafði fleiri og erfiðari viðfangsefni að glíma við en ég. En brátt skildist mér, að hann hafði ánægju af að greiða fyrir mér við lærdóminn; og eftir það kærði ég mig kollóttan. Svo var engu líkara en Oscar væri gæddur fleiri en einum heila og gæti hugsað sitt með hvorum í senn. Að minsta kosti aftók hann, að kvabb mitt truflaði sig við námið. Hann stakk aldrei niður blýant eða penna við að leysa flóknustu reikningsdæmin fyrir mig; en liðaði þau í sundur og fann svörin án þess að líta upp úr bókinni, sem hann var að lesa. Á sama hátt leysti hann allar óráðnar gátur mínar, hver sem námsgreinin var. Og honum átti ég að þakka, að ég undi náminu mun betur en ég hafði búist við. En þar kom fleira til greina en tilsögn hans.

Þegar ég greiddi skólanum kenslukostnaðinn fann ég sárt til þess að láta af hendi peninga, án nokkurrar vissu um, að ábatast á þeim útlátum. Skólinn var prívat stofnun, gróðafyrirtæki þeirra, sem fyrir honum

stóðu. Þeir voru að græða á mér. En svo fór ég að meta til verðs tilsögn Oscars mér að kostnaðarlausu, og við það sefaðist gróðasamvizka mín. Í öllu falli naut ég meiri kenslu en skólasystkini mín án aukakostnaðar.

Annað sem ég taldi mér í hag við veru Oscars á heimilinu, voru áhrif hans á okkur, sér í lagi móður mína. Ég mun hafa komið í heiminn nær dauða en lífi og verið mesta afstyrmi fyrstu ár æfinnar. Enda væskill að vexti og burðum alt fram á þennan dag. Hefir því móðir mín mátt leggja sig alla fram, til að halda í mér líftórunni og verið síhrædd um að ég sálaðist þá og þegar. Mun óttinn og umhyggjan fyrir mér hafa komist upp í vana, sem hélzt við þar til ég flutti úr foreldrahúsum. Eftir að ég stálpaðist kunni ég þessu afar illa. Það hafði lamandi áhrif á mig og gerði mér oft gramt í geði. En meðan Oscar var hjá okkur bar lítið á þessu; og ég fann mig fríari og frjálsmannlegri en nokkru sinni áður. Í mínum augum var hann andlegt og líkamlegt ofurmenni, en umgekst mig þó eins og jafningja sinn, og ég gleymdi smæð minni í svipinn. Stundum þvoði hann upp diskana með mæðgunum og var þá fullur af spaugi og alskonar ærslum, svo þær hlógu sig máttlausar. Hann lét sem hann væri bálskotinn í móður minni, og þó hún tæki því eins og öðru spaugi hans, hélt hún sér betur til en síðan ég mundi fyrst eftir henni. Hún sá um að Oscar vanhagaði ekki um neitt, sem heimilið gat látið honum í té. Sjálfur var ég öllum hnútum kunnugur og fær um að bjarga mér. Og í fyrsta skifti á æfinni varð ég sjálfstæð og sjálfbjarga manneskja. Ekki fóru feðginin heldur varhluta þessarar vakningar persónuleikans, sem Oscar olli þeim sem umgengust hann. Jafnaðarlega var faðir minn fámáll og dulur í skapi og réð litlu á heimilinu. Móðir mín hafði öll heimilisráðin og oftar en hitt orðið fyrir manni sínum. Að hún var bóndinn og húsfreyjan, lézt Oscar ekki sjá og ræddi ætíð við karl eins og hann væri í raun og sannleik höfuð fjölskyldunnar. Þá voru báðir vel heima í fornsögunum og kýttu oft um skapferli söguhetjanna, kosti þeirra og lesti. Í þessum orðasennum lét Oscar jafnan undan síga, kvaðst ekki vera nógu kunnugur sögunum, né hafa hugsað þær rækilega. Þá rétti faðir minn úr sér og tók á sig þann svip og látbragð, sem ég kannaðist ekki við.

Eitt með öðru sem Oscar var vel gefið, var sönghneigð og óvenjulega fögur tenor-rödd. Eða svo heyrði ég sagt. Sjálfur er ég ekki söngvinnari en svo, að greina varla milli *Eldgamla Ísafold* og *Ríðum, Ríðum,* nema vísurnar fylgi lögunum. Tóta átti lítið stofuorgel og hafði fengið lítilsháttar tilsögn í músík, sem var svo takmörkuð, að hún lék aðeins nokkur ensk smálög við veraldlega eða andlega texta, ekkert það, sem foreldrar mínir könnuðust við, nema *Heims um ból.* Undir því lagi raulaði móðir mín íslenzka sálminn hverja jólanótt. Hún keypti Tótu íslenzka kirkjusöngsbók, en fékk stelpuna aldrei til að opna hana, fyrr en Oscar kom í spilið. Hann söng lögin og skipaði Tótu, að leika undir á orgelið. Í fyrstu aftók hún það, bar við vankunnáttu, þó mér sýndist feimni ráða meir en kunnáttuleysi. „Þá er að æfa sig", sagði

Oscar. „Ég á kærustu útí Mörk, sem leikur undir fyrir mig, þó hún hafi aldrei fengið tilsögn í músík". Og Tóta tók að æfa sig og taka á ný tíma í orgel-leik. Og ekki hætti hann fyrr en allir sungu, að mér undanskildum. Gengu þessar söngmessur hans svo langt, að faðir minn fór að syngja bassa! Eftir að heyra til mín einu sinni, hvatti Oscar mig ekki til að taka þátt í söngnum. Hefi ég það til marks um, að ég er gjörsneiddur sönggáfunni. Oscar mintist oft á kærustuna til samanburðar við Tótu, og bar kærastan jafnan lægri hlut. Hálft í hverju efaðist ég um að þessi kærasta Oscars væri annað en hugarburður hans, sem hann hefði skapað sér Tótu til dýrðar, og átti hún ekki lítinn þátt í, að auka sjálfstraust systur minnar og gera hana upplitsdjarfari. En hvort sem hún var holdi klædd eða ímyndun ein varð okkur vel til hennar, öllum nema þá ef til vill Tótu. Móður minni þótti verulega vænt um hana og þótti Oscar gera vel að skáka henni eins oft og hann gerði, svo Tóta hefði enga ástæðu til, að byggja sér rómantíska loftkastala. Og var faðir minn á sama máli. Það væri ekki Oscar að kenna þó stelpan fengi ástarflugu í hausinn.

Á kommóðunni í herbergi Oscars hafði hann stilt út ljósmynd af fallegri stúlku. Og þó hann léti ekki orð falla í þá átt, var gengið út frá því, að myndin væri af kærustunni. Sjálfur hefði ég þorað að leggja eið út á, að ég hefði áður séð myndina og annars staðar, en hvar, kom ég ekki fyrir mig í svipinn. Síðar blasti myndin við mér á vegg í porti Winnipeg-leikhússins. Hún var af leikkonu, sem óaðvitandi var að leika rullu á heimili okkar. Þegar ég benti Oscar á hvað myndirnar væru líkar hló hann. „Svo er margt sinnið sem skinnið", segir hann, „en eitt skinnið öðru líkt". Svo hætti ég alveg að hugsa um þetta. Reyndi eftir megni að halda huganum við raunveruleikann, sem táknast aðeins með sentum og dollurum.

Áður en Oscar bjó hjá okkur, kom varla nokkur hræða í heimsókn til okkar. Nú var sífeldur straumur út og inn um framdyrnar og upp og ofan stigann, því allir komu gestirnir til fundar við Oscar. Flestir voru það skólapiltar, sem sóttu hann heim og sumir enskir! Og þótti það mikill heiður fyrir heimilið, ekki ríkmannlegra en um var búið. En þó fór fyrst skörin upp í bekkinn, þegar íslenzkir Norðanmenn og jafnvel lúterskir prestar þóttust hafa erindi við Oscar.

Fyrir utan hvað húsið okkar var fátæklegt utan sem innan, stóð það í suðurbænum, sem kallað var á þeim dögum, og var það í sjálfu sér nóg til þess, að Norðanmenn træðu okkur ekki um tær. Nú munu uppvaxandi landar í Winnipeg vart geta gert sér grein fyrir því regindjúpi, sem íslenzkir Norðanbæjarmenn höfðu staðfest milli sín og okkar, sem syðra bjuggum. Þeir voru, sem sé, upp til hópa stranglúterskir og Liberalar og margir þeirra í bissnesi, eða höfðu stöðu á stjórnarskrifstofum. Vitaskuld voru verkamenn innan um þennan línkraga-aðal, en þeir gengu reglulega í lútersku kirkjuna og greiddu liberal atkvæði í kosningum og töldust því góðir og gildir Norðanmenn, nutu margra heiðurshlunninda og var sagt að sumum þeirra væri boðið í fínustu

prívat samsæti. Í Suðurbænum var sagan önnur. Hér voru landar upp til hópa Konservatívar og únitarar, eða því sem næst og gengu í Tjaldbúðina, eða annað verra. Allur þorri þeirra var verkalýður og þó innan um fyndust bissnes- og offísmenn, misti hið hvíta lín þeirra alla töfra, sökum villu í trúmálum og pólitík.

Svo var íslenzkt mannfélag í Winnipeg klofið, að það sætti furðu, að sjá Norðan- og Sunnanmenn talast við, án þess að skammast og rífast, og beint og blátt hneyksli fyrir Norðansvanna að líta Sunnansvein hýru auga. Vitnar ekkert betur um hvert álit Oscar hafði unnið sér en það, að hann sást oftar en einu sinni á gangi með einni glæsilegustu heimasætunni í Norðurbænum. Menn vissu til, að hann hafði verið boðsgestur í samsæti á heimili hennar, og þótti ekki ótrúlegt, að drægi saman með þeim. Þegar siðameistari einn í Norðurbænum hafði orð á þessu, og kvað Oscar vera hættulegan stéttafjanda, var þaggað niður í honum með því, að aðkomandi námsfólk gæti ekki talist til Sunnanmanna, þó það ætti heima hjá þeim vetrarlangt. Þegar móðir mín ympraði á þessum orðasveim, sem fór af Oscar og norðandrósinni, hló hann og kvað þetta eintómt kaffislúður. „Eins og allir vita, á ég kærustu út í Mörk,“ sagði hann. „Svo er ég algerlega mótfallinn lauslæti og fjölkvæni. Það er líka á allra vitorði, að þá sjaldan ég fer til messu er það í kirkju únitara eða annara villitrúarmanna. Pólitík hata ég og álít þá Sigtrygg og Baldvin báða sómamenn og órétt, að gera öðrum hærra undir höfði en hinum. Að öllu þessu samanlögðu, er heimskulegt, að halda að háttstandandi Norðanmey taki saman við mig“.

Ég hefi aldrei verið útsláttarsamur og allra sízt var ég það þennan vetur. Varð að hafa mig allan við námið og lét mig ekkert annað varða. Þrátt fyrir það fór orðstír Oscars meðal landanna ekki fram hjá mér. Allir vissu, að hann var hjá okkur til húsa og ég komst hvergi þvers fótar án þess að vera spurður spjörunum úr . . . . Oscar var úti öll kvöld, á dönsum og öðrum samkomum. — Sat hann þá uppi við lestur á nóttunni? Þurfti hann ekki að sofa eins og aðrir? — Var hann eins og Edison? — Var hann eins skemtilegur í sambúð og á ræðupallinum? — Fyrr mátti nú vera, — jafnvígur á bæði málin! — Eða prófskýrslurnar. — A I í öllum greinum, tungumálum jafnt og stærðfræði og vísindum. — Var það satt, að hann læsi fleiri námsgreinar en háskólinn krafðist? . . . .

Á götunni tókst mér oft, en þó misjafnlega, að slá forvitnina af laginu. Engum virtist koma til hugar, að Oscar var mér engu síður ráðgáta en öðrum. Og í blýantskaupum hjá Bardal, var ég umkringdur af ungum og gömlum, sem ýmist sögðu frægðarsögur af honum eða leituðu upplýsinga hjá mér um ný afrek hans. Og gekk þetta svo langt, að ég hætti að verzla við Bardal. Sjálfur smitaðist ég af aðdáun og forvitni fjöldans og stillti mig ekki lengur um að leita svars hjá Oscar sjálfum. En hann virtist engu nær en aðrir, kvaðst skilja og muna flest, sem hann læsi og heyrði, og það sem hann skildi ekki, greiddu kennararnir úr. Hvaða vit væri í, að vaka við að lesa upp aftur og

aftur það sama? — Það bara sljófgaði hugann og setti hann í eins konar gapastokk.

Oscar hafði mig upp í, að ganga út með sér á kvöldin. Í fyrstu færðist ég undan því; áleit það tímaþjófnað. Ég hafði líka hálfgerðan beyg af að láta sjá okkur saman á götunni. Ég svo smávaxinn og lítill fyrir mann að sjá, en hann risavaxið glæsimenni. En enginn komst undan þar sem Oscar leitaði á. Hann hafði sitt fram við alla, án þess maður fyndi að sér væri þröngvað til að verða við vilja hans. Og munu fáir hafa iðrast þess, að láta að ráðum Oscars. Þessar kvöldgöngur reyndust mér ágæt hressing. Eftir þær var hugsunin skarpari, og af því Oscar umgekst mig sem jafningja sinn jafnt í návist annara og þegar við vorum einir tveir, bar ég höfuðið hærra og þóttist maður með mönnum. Að einu leyti stóð mér þó stuggur af undanhaldi mínu þegar Oscar átti í hlut. Hvernig færi með þá lífsstefnu, sem ég hafði sett mér, ef Oscar afsannaði mér, að fjársöfnun væri hið eina nauðsynlega? Ekki svo að skilja, að ég óttaðist að til væru rök, sem megnuðu að breyta skoðun minni í þeim efnum, hver sem bæri þau fram. En það var ekki rökfimi Oscars, sem kom öðrum á hans mál, heldur persónulegir töfrar, sannfæring um, að hann vildi manni alt hið bezta, og meðvitundin um afburða vitsmuni hans. Tæki hann í sig, að snúa mér frá áformi mínu var honum sigurinn vís. Bezta vörn er áhlaup, hugsaði ég mér. Og á einum göngutúr okkar lét ég í ljós undrun mína yfir því, að hann skyldi geta haft nokkuð saman við mig að sælda. Mér væri kunnugt um álit hans á þeim mönnum, sem verja æfinni til þess eins að safna fé. „Hvað koma mér við ætlanir og þrár annara?“ segir Oscar. „Heldurðu ég væri ekki fremur einmana, hefði ég ekkert saman að sælda við aðra en jafningja mína?“ Spurningunni fylgdi sú glettni í svip hans og rödd, að ég vissi, hann var að henda gaman að þeirri tröllatrú, sem ég hafði á honum — að hann ætti ekki sinn jafningja. En svo varð hann alvarlegur. „Þú gleymir því, að af öllum þeim biljónum manna, sem hafa bygt og byggja þennan heim okkar, er enginn öðrum líkur. Því er engin villa verri en sú, að dæma einn öðrum meiri eða betri. Eins og skaparanum, eða náttúrunni hefði feilað! Nei, Mundi minn. Við skulum ekki ætla alföður svo hlutdrægan, að hann hafi afskift börn sín. Alt er gott sem gerði hann, þó jafnmargt sé sinnið sem skinnið“. Hann hló, en ég hristi höfuðið. Alténd var það sama sagan. Oscar greiddi allar flækjur, sem ég komst í við námið og færði fram í ljósið alt, sem í myrkrum skólabóka minna var hulið; en færi hann út í aðra sálma, varð mér umtalsefnið óskiljanlegra með hverri skýring hans. En mest gramdist mér, að vita aldrei með vissu hvort honum var gaman eða alvara.

Yfirleitt voru íslenzkir nemendur ekki svo efnum búnir, að þeim færist að slóra í bænum eftir skólum var lokað. Þá voru allir vasar tómir og bráðnauðsynlegt, að ná sem fyrst í vinnu, hvort sem hún var barnaskólakennsla, smíðar, bændavinna eða annað. Flestir höfðu pakkað töskur sínar áður en síðasta prófinu var lokið og lögðu upp í heimferð

eins fljótt og lestagangur leyfði, og var flestum ferðin greiðari en Oscar, sem aðeins komst hálfa leið með eimlest. Hitt var farið á gufubát. Og stóðust siglingar og lestaferðir sjaldnast á. Í þetta skifti munaði tveimur dögum; sem Oscar kaus heldur að eyða í borginni en við endastöð járnbrautarinnar, og notaði þann tíma til að kveðja kunningjana, eins og hann orðaði það.

Námskeiði verzlunarskólans var fyrir löngu lokið, og ég búinn að leigja mér kontór-kompu niður í Aðalstræti. Hér ætlaði ég mér að stunda fasteignasölu og hvert annað brask, sem líklegt væri að gefa eitthvað af sér. Ekki gerði ég mér háar vonir um skyndigróða, svo margir fengust við fasteignaverzlun um þessar mundir. Jafnvel landar, nýkomnir að heiman, freistuðust til, að skrautrita tilkynningar um, að þeir hefðu fasteignasölu með höndum, og hengja við dyrnar, þar sem þeir höfðu leigt lélega svefnkompu, þó það væri á Kate Street eða lengst upp á Ross. Og báru sumar þær auglýsingar fremur vott um list-fengi höfundarins en fjárhyggjuvit. Með tímanum bjóst ég við, að flytja úr foreldrahúsum og búa þannig um hnútana, að ég yrði hvorki talinn í hóp Norðan- né Sunnanmanna, lúterskra né Únítara, Liberala né Konservatíva. Einnig hafði ég þegar lagt drög fyrir að fá nafni mínu breytt og gerast Sam Kelly. Hvorki flokksfylgi né þjóðerni skyldi standa í vegi fyrir fjárhagslegum framkvæmdum mínum. Laus allra sérmála, var mér gefið, að snúa á þessa eða hina sveifina sæi ég mér hagnað í því; og hefir reynzlan sannað fyrirhyggju mína í þessu sem öðru. Enda komst ég snemma að því, að fjársýslumaðurinn verður að gjörhugsa fleira en kaup og sölur, grunda mannlífið og athuga upplag og eðlisfar þeirra, sem hann skiftir við. Hagfræðin er vísindagrein og lúta öll verzlunarviðskifti órjúfandi lögmáli, ekki síður en líf villidýranna í frumskógunum.

Þannig atvikaðist það, að ég sá varla Oscar síðustu vikurnar, sem hann var hjá okkur. Nú var hann loks allur við námið, en ég að búa um mig á skrifstofu minni. Kom mér þetta vel, því ekkert var aurasál minni óhollara en umgangast Oscar. Og í fyrsta og síðasta sinn heimsótti hann mig á kontórnum, á leið sinni á járnbrautarstöðina. „Ég er líklega að gera þér ónæði", sagði hann, „en vildi ekki fara úr bænum án þess, að kveðja þig og þakka þér góða viðkynning".

Ég sagði eins og var, að í svipinn væri ég ekki við neitt bundinn og þætti vænt um að hann leit inn á skrifstofuna. „En ég vona, að við eigum eftir að sjást oft", bætti ég við, og undraðist með sjálfum mér, að ég meinti það. Því eins og ég hefi drepið á, voru persónuleg áhrif Oscars alt annað en örvandi hvað áhugamál mín snerti; og eftir þeirri afspurn, sem ég hafði af lífinu í Mörk, var þaðan lítils hagnaðar að vænta.

„Já, að líkindum sjáumst við aftur", segir hann. „En hver veit?"

„Þú átt þó eftir eitt námskeið við háskólann, og sjálfsagt húki ég hér í bænum þetta árið".

„Nei, Mundi minn, hingað kem ég ekki aftur til náms".

„A-á! Þú ferð beint til Oxford".

„Ekki nú aldeilis", segir Oscar

hlæjandi. „Sannleikurinn er, að ég hefi ákveðið, að hætta við allan skólalærdóm. Búinn að læra nóg til þess, að sannfærast um að hann er hégómi“.

„Nú ertu að spauga. Hver heldurðu, að trúi slíkri fjarstæðu? Manni eins og þér liggur allur heimurinn opinn. Þú getur valið um óteljandi leiðir til vegs og virðingar, og ætlar að telja mér trú um, að þú gerist ánægður með fátæktina og amlóðaháttinn í Mörk, þar sem menn vaða veglausan aurinn milli bjálkakofanna og hafa fisk og kartöflur í alla mata“.

„Bravó! Þú getur komið til að verða mælskur, ef þú heldur þér við efni, sem þú berð ekkert skynbragð á. Hver veit nema þú eigir eftir að verða þingmaður? En hvaðan hefir þú þekking þína á Merkurbúum og lifnaðarháttum þeirra?“

„Þetta er altalað“, sagði ég, eins og satt var. „Og sjaldan lýgur almannarómur“.

„Og svo hefirðu kynst einum Merkurbúa. En þú mátt ekki dæma þá alla eftir mér“. Þó Oscar væri brosandi, varð ég nú í fyrsta skifti var gremjublandinnar þykkju í rödd hans. En ég var líka gramur. Mér hefir ætíð sviðið að sjá það, sem verðmætt er fara að forgörðum. Ég leit á Oscar sem eitthvert dýrmæti, sem hverfa mundi úr sögunni í flóum og skógum úti á hala veraldar.

„Þú veizt hvert álit mitt er á þér“, segi ég, „og mátt henda gaman að. En hvorki þú né aðrir fá notið afburða hæfileika þinna, þar sem ekkert verksvið er fyrir hendi og úr engu efni að vinna. Engar afurðir, engin von um fyrirtæki, sem hæfa gáfum þínum og mannskap“.

„Engar afurðir! Hvað um fólkið — konur, menn og börn?“ Og nú er gamli galsinn kominn í Oscar. Hann stendur upp og réttir úr sér og segir með uppgerðar hátíðleik. „Sjáið manninn!“ og rekur upp skellihlátur. Og maðurinn og hlátur hans fyltu kontórkytruna, svo þar rúmaðist ekkert annað, ekkert nema skáhallur sólargeisli, sem lá hlýr og mildur á borðinu milli okkar. Sjálfum fanst mér ég ekki vera neitt og þagði. Eftir stundarþögn kom þó Oscar auga á mig og settist. Og nú varð rödd hans og látbragð hið sama og þá er hann var að skýra fyrir mér skólaverk mitt. „Þekking mannanna á öllum sviðum er orðin svo mikil og víðtæk, að engum einum auðnast að fá meira en nasasjón af henni. Og hún margfaldast með ári hverju. Þetta er nú eiginlega það helzta sem ég hefi lært í háskólanum og þykir nóg komið af svo góðu, og mér hefir stundum fundist, að þar væri aðeins um tvent að velja: lærða þekking og sjálfstætt vit“.

Eins og oftar skildi ég ekki hvað Oscar var að fara, og spyr svona bara út í bláinn: „En hvað um sérfræðingana?“

„Þannig lagað nám og æfistarf gæti ég ekki lagt mig niður við. Sérfræðingurinn verður að þræða mjóan stíg, knúður til að binda skyn og skygni við alt smátt og stórt, sem hann finnur í götunni og annað ekki; en missa sjónar á öllu öðru, sem er að finna um víða veröld, og gerast þannig þræll sérfræði sinnar. Nei, Mundi minn, heldur vil ég vera fávís og frjáls en sérfróður þræll“.

Skildi ég rétt þessa skoðun Oscars, gat ég ekki fallist á hana og maldaði

í móinn. Hafði líka grun um, að í mér væri einhver snefill af sérfræðing, að minsta kosti fann ég engan þrældóm í því, að beita mér einvörðungu fyrir að safna fé. Af frjálsum vilja og eigin ramleik hafði ég valið hinn þrönga stíg, sem Oscar talaði um, og var hæst ánægður með það hlutskifti. Þetta lét ég uppskátt við hann, fremur til að halda honum við efnið en að andmæla skoðunum hans. Eins og aðrir, hafði ég jafn gaman af, að hlýða á mál hans, hvort sem ég var honum sammála eða ekki, og jafnvel þó ég skildi ekki hvað hann var að fara. En nú sem endranær varð hann ekki leiddur út í þrætu. Hversu oft sem hann kastaði fram hugmyndum sínum, sem margir álitu fjarstæður, fékst hann aldrei til að verja þær. Hann skildi þær eftir í lausu lofti fyrir aðra að þrátta um. Og nú hló hann að mótbárum mínum. „Alveg rétt hjá þér, Mundi. Þú ert þú og ég er ég og svo er margt sinnið sem skinnið". Hann sækir nýsilfur úrhlunk ofan í buxnavasa sinn, lítur á það, kveður mig vingjarnlega og fer. En ég sit einn eftir með sólargeislann, sem hafði fært sig af borðinu og liggur nú við fætur mína eins og hlýðinn hundur. Og kontórinn er aftur nægilega rúmgóður fyrir sérfræðilegar athafnir mínar.

Skömmu seinna tók ég nafnið Sam Kelly og dróg mig út úr íslenzka lífinu í Winnipeg. Þó fór ekki umtal landanna um Oscar fram hjá mér. Og var það margort og hávært. — Hann var einn af þessum Íslendingum, sem of miklar gáfur fara með í hundana. — Það mátti sosum við þessu búast af ungum gapa sem þóttist of góður, til að binda bagga sinn með öðrum. — Maðurinn var ekki heilsteyptur; og komu nú ýmsar sannanir þess fram í dagsljósið. Menn sem voru Oscar aðeins málkunnugir höfðu orðið varir við margvíslegar veilur í skoðunum hans og skapferli. — Voru annars Merkurbúar ekki orðlagðir fyrir leti og framtaksleysi? Mannskapsmennirnir höfðu fyrir löngu tekið sig upp og flutt úr vesaldómi nýlendunnar, en ómennin ein setið eftir. Og með því, að hverfa frá náminu, þegar vegur hans stóð sem hæst, sýndi Oscar, að hann líktist sveitungum sínum. —

Árið eftir flutti ég til California; og höfðu þá landar í Winnipeg gleymt Oscar og þessu Merkurhneyksli, sem hann var óaðvitandi valdur að.

III.

Síðustu dagana sem ég var í Winnipeg, áður en ég flutti vestur, hélt ég til á einu af ódýrustu gistihúsum bæjarins. Stóð það vestan Aðalstrætis örskamt suður frá Sípíarstöðinni. Og legg ég nú þangað með pjönkur mínar. Þó hálf öld sé liðin, finst mér sjálfsagt, að þar sé alt eins og fyrr. Enda kemur mér flest kunnuglega fyrir á leiðinni þangað, líkt því sem mig minni til. Og sú tilfinning snertir mig, að þessi fáu ár, sem ég átti heima í Winnipeg hafi verið meiri hluti æfinnar, en vera mín vestra eins konar aukageta.

Jú, reyndar! Hér stendur litla hótelið mitt á sínum stað. Alt er með kyrrum kjörum, nema hvað það er snyrtilegra innanstokks og hreinlegar um gengið en mig rekur minni til. Og svo er með herbergið, sem mér er vísað til. Rúmið og aðrir

húsmunir nýlegir, þar á meðal stór og vandaður spegill yfir ofurlitlu skrifborði. En við að líta í hann vaknar gremja í hug mínum, finst óréttlátt, að verk mannanna geti kastað ellibelgnum, en þeir ekki. Út um gluggann er alt að líta líkt og áður var. „Hér er hvorki umbreyting né umbreytingarskuggi", segi ég við sjálfan mig. Líklega af því, ég var fermdur upp á Helgakverið, en ekki vegna þess, að þessi hluti borgarinnar minni svo mjög á himnaríki. En ég er hálft í hverju kominn heim, og við þá tilfinning örvast löngunin til að ná fundi Oscars. Foreldrar mínir voru fyrir löngu komin undir græna torfu og hvar systur mínar voru niðurkomnar hafði ég ekki minstu hugmynd um, hvað þá aðrir landar, sem ég hafði eitt sinn verið kunnugur. Annara þjóða menn kærði ég mig ekkert um að hitta hér, og það þó ég hefði haft meira saman að sælda við marga þeirra en Íslendinga. „Ellimerki", hugsa ég og hristi höfuðið framan í sjálfan mig í stóra speglinum.

Á lestinni, austur, hafði ég ekki brugðið gömlum vana. Sat uppi um nætur og daga og dottaði við dogg eftir atvikum. Var því mál komið, að ganga í bað og snurfunsa sig eftir föngum. Eftir það tek ég mér dúr. Svo labba ég í hægðum mínum suður Aðalstrætið og furðar meira og meira með hverju fótmáli hversu alt er líkt því sem áður var. Hafði þó lesið um sífeldan vöxt borgarinnar og þóttist viss um, að Winnipegbúar væru ekki eftirbátar annara í framtakshamförum tuttugustu aldarinnar.

Þó göngunni væri heitið upp á Leland hótelið stilti ég mig ekki um, að hring-ganga Market Square. Því hér var hjartapunktur borgarinnar í hennar ungdæmi og mínu. Enn virtist alt með kyrrum kjörum. Bæjarhöllin lítið eitt breytt, nema hvað mér sýndist hún mun minni en fyrr. Vonaði ég að Leland gamla sýndi sama stöðugleik, þó ekki væri að öðru leyti en því, að vera eins konar Þingvellir landa úr borg og bygð, þar sem þeir gistu, mæltu sér mót og þrefuðu um alla skapaða hluti milli himins og jarðar og víðar.

Forsalurinn var lítið eitt breyttur. en því nær auður. Nú situr hér varla nokkur sál, full né hálffull; og heyrist þó skvaldur og háreysti frá drykkjustofunni í hvert skifti og dyrnar að henni opnast. Geng ég nú að kontórnum og spyr ungan mann, sem þar ræður ríkjum, hvort nokkur gestur frá Mörk sé hér skrásettur. En hann bara hristir höfuðið og tönglast á orðin, Mörk. Ber það fram á ýmsan hátt, en aldrei rétt og staðhæfir loks, að þess bæjar hafi hann aldrei heyrt getið. Ég fræði hann um að Mörk sé gömul íslenzk bygð norður á milli vatnanna. Þá tekur hann landabréf ofan af hillu og skoðar það lengi, hristir höfuðið og kveðst geta fullvissað mig um að Mörk sé ekki á neinu landabréfi, og því hvorki bygð né bær til með því nafni í þessu fylki. Ég spyr hann þá, hvort nokkrir Íslendingar séu á gestaskránni. Kveður hann svo vera en gizkar á, að í svipinn muni þeir vera útí bæ eða á bjórstofunni. „Bjórstofunni?" segi ég en átta mig fljótt á þeim umbótum sem bindindismenn höfðu valdið um alla Ameríku og opna dyrnar að stofunni; og blasa nú við mér fyrstu veruleg framfaramerki, sem ég hafði

enn orðið var í borginni, að ógleymdum þeim sæg af bílum, sem maður er hundvanur við og gleymir, að bíl var rarítet fyrir fimmtíu árum síðan. Í gömlu stofunni var aðeins eitt bringuhátt langborð, þar sem menn stóðu eins og kindur við garða og nutu ekki meiri þæginda en einn látúnsteinn veitti þreyttum fótum. Lá hann meðfram háborðinu vitund hærra en gólfið og hvíldu menn fæturna á víxl með því að lyfta öðrum í senn upp á teininn. Nú er hér víður salur og annar inn af honum og gott ef ekki má finna þann þriðja, endist maður til frekari rannsókna. En skvaldrið og glaumurinn draga úr mér allan kjark til langferða um salina. Þó er eitthvað þægilegt við hávaðann. Og mig rekur minni til þess eina æfintýris, sem ég lifði á Íslandi. Ég var víst ekki fullra sjö ára, en þó lofað, að fara til Drangeyjar á vorvertíð. „Þetta er eins og við Drangey", segi ég við sjálfan mig. „Bölvað skvaldrið í Enskinum eins og svartfuglaskvaldrið, en þessar skæru háværu raddir frá máfunum". Komu þær frá löndum, sem töluðu móðurmál sitt og höfðu hátt. Ég vík mér að einum þeirra og spyr hann hvort nokkur Merkurbúi sé hér, svo hann viti til. „Já, blessaður vertu!" segir hann, „og fleiri en einn. En lofaðu mér að sækja þér stól". Borðið var fullskipað; en þó menn hvíldu hér í stoppuðum stólum ætlaði ég mér ekki að taka sæti. Bragða aldrei áfengi og hefi enga löngun til að traktera aðra á því, og neita boðinu með hæversku og kurteisi, en bið landann, að finna mér einhvern frá Mörk. — „Walter, Walter!" kallar landinn hástöfum, yfir allan kliðinn. Og ungur maður og mannborlegur veður reykinn að borði landans. „Þetta er Walter Samson", segir landinn, en kemst ekki lengra, því ég hafði ekki sagt til nafns míns. „Sam Kelly", segi ég. „Glaður að mæta' þér". „Ertu frá Mörk?" „Fæddur og uppalinn þar", segir Walter og talar íslenzku. Spyr ég hvort hann hafi tíma til að tala við mig. „Meir en svo", segir hann. „En við verðum þá að setja okkur niður og drekka bjór". Ég kveðst þola illa hávaðann. „Hvernig væri að koma fram í forstofuna?" „Ágætt", segir hann, og við höfum okkur út úr glaumnum.

Segi ég Walter hvaðan ég komi, og hvert ferðinni sé heitið, og erindi mitt við hann sé, að leita upplýsinga um hvernig ferðum hagi út í Mörk. Ég hafi spurt skrifstofuþjóninn hvort nokkur þaðan sé skrásettur hér, og hann hafi frætt mig á því, að Mörk sé ekki að finna á neinu landabréfi. „Lítið að marka landabréf", segir Walter. „Til dæmis, hefi ég aldrei rekist þar á bústað okkar fyrstu foreldra, og er þó mikið látið af þeim stað". Þetta svar hans minti mig á Oscar. — Skyldi þá allir Merkurbúar vera jafn gáskafullir? hugsa ég, en Walter lætur dæluna ganga, um hvað landabréf séu ófullkomin. — „En fyrst þú rakst á mig, er þér gefið að komast norður. Þangað ganga tvær járnbrautarlestir daglega fyrir utan alla bössana".

„Alla leið útí Mörk?" spyr ég, þó ég þættist vita að hann var að spauga.

„Já, því ekki það? En hvert í Mörk er ferðinni heitið?"

„Nú, ég hélt Mörk væri bara smávegis bygðarlag".

„O-o, það er sosum ekkert stór-

kostlegt við nýlenduna; og ekki vandratað um hana. En fyrir ókunnugan mann er betra að vita heiti þess bæjar eða bygðarlags, sem hann ætlar til". Þóttist ég lítið græða á þessum upplýsingum viðvíkjandi landskika, þar sem nokkrir landar hokruðu í kargaskógi á vatnsbakkanum; en fen og flóar að baki — og breyti umtalsefninu.

Ekki vænti ég, þú þekkir mann þar norður frá, sem Oscar Marson heitir?"

Walter hugsar sig um. — „Marson — Marson. Nei, og ég þori að fullyrða, að enginn með því nafni á fast heimili í Mörk".

„Þar átti Oscar heima þegar ég kyntist honum í Winnipeg. Og hann er maður sem hvergi dyldist. Allra sízt í Mörk", bæti ég við, sem aldrei skyldi verið hafa, því ég sé að Walter þykir. „Hvað meinar þú með því?" spyr hann kuldalega. Walter þessum tók víst jafnsárt til skógarins og flóanna eins og Oscar í gamla daga. „Ekki annað en það, að Oscar Marson er svo vel gefinn að sál og líkama, að hann mátti heita alþektur í Winnipeg eftir að vera þar þrjá vetur. Og ég hefi fulla ástæðu til að ætla hann ekki hafa flutt úr nýlendunni".

„Hvað er annars langt síðan þú vissir til að Oscar þessi átti heima í Mörk?" spyr Walter og er nú mýkri á manninn.

„Ja — það mun nú vera fast að því fimmtíu ár".

Walter fór að hlæja: „Aðeins tuttugu og fimm árum áður en ég fæddist. En það er nægur tími fyrir hvern sem er, til að flytja út í heiminn, eða alla leið út úr honum".

Þetta hafði mér aldrei komið til hugar. Og það fór um mig ónota hrollur. Sé Oscar, þetta góða, gáfaða glæsimenni, úr sögunni og minningin um hann þurkuð út eins og krítarstrik af veggtöflu og orðstír ofurmannsins fallinn úr munnmælum sveitunga hans, er líf manns hégómi — hafi hann ekki skilið eftir eignir í löndum og lausum aurum. En til þess hefði ég aldrei treyst Oscar. Ekki datt mér þó í hug, að hætta við svo búið, og snúa heim. Til þess er ég of þrár og þrautseigur. Og skeð gat, að eldri menn en Walter vissu hvar fornkunningi minn var niðurkominn. Hér átti ég ágætan leiðsögumann, og áfram skyldi ferðinni haldið — út í Mörk.

„Heyrðu mér, Sam", segir Walter. „Ég er hér einn í bíl, og þér er velkomið, að verða mér samferða. Ferðaáætlun þín virðist hvort sem er fremur óákveðin, svo þú mátt eins vel keyra heim með mér og gista hjá okkur í nótt. Á morgun er útiskemtun við vatnið. Þar verða ungir og gamlir samankomnir og ekki ólíklegt, að þú getir fengið upplýsingar um fornvin þinn".

Slík greiðasemi hafði mér aldrei verið sýnd, síðan við Oscar skildum; og ég tók boðinu með þökkum. „En í hvaða tilefni er samkoman haldin?" spyr ég. „Ó, hún er bara eitt af þessum ættingjamótum, sem algeng eru í Mörk", segir Walter blátt áfram, eins og þetta væri fult svar upp á spurning mína. „Ættingjamót? Ég hefi heyrt getið um ættarmót, en þetta orð kannast ég ekki við. Skil það ekki". „Það er varla von", segir Walter. „Gamall sérvitringur valdi þessum samkomum okkar nafnið. Á þeim mæta afar, langafar, langalangafar og ömmurn-

ar, feður, mæður, systur, bræður og fleira frændfólk. Þess utan slæðist sægur af nágrönnum og vinafólki með".

„Og tilefni þessara gleðifunda?" spyr ég.

„Þau eru nú margvísleg", segir Walter. „Á morgun verður haldið upp á fimmtíu ára giftingarafmæli langafa míns og ömmu, tuttugu og fimm ára giftingarafmæli frænda míns, elzta systir mín lætur skíra fjórða barn sitt; en sú yngsta giftir sig".

Ég hálfpartinn kveið fyrir að lenda í slíku margmenni, sem hlaut að hafa á sér einskonar helgibrag; en þau óþægindi voru smámunir hjá því, að fá fría ferð og gisting. Verð ég þó að játa, að þetta happ hreif mig ekki, eins og það hefði gert fyrr á árum. Þannig lamar ellin framtakið jafnt og aðra sálarkrafta.

Á leið út úr borginni sá ég fyrst veruleg merki þeirra stakkaskifta, sem Winnipeg hafði tekið síðan ég flutti þaðan. Þá sjaldan hugur minn hafði hvarflað hingað, sá hann borgina eins og hún leit út laust eftir aldamótin. Og spölurinn milli Sípíar og Leland hafði ekki gefið stórfeldar breytingar til kynna, og var ég þeim óviðbúinn. Hefði þó mátt vita að framtaksmenn hér sem annars staðar kynnu að haga seglum eftir vindi tuttugustu aldarinnar, sem blásið hefir fjöri og framförum í nasir hvers dugandi manns. En nýungarnar koma mér á óvart, líkt og ég væri kominn í framandi land, og kann því miður. Verst að sjá Walter þurfa að hafa sig allan við, að verjast árekstri, fyrir öllum þeim urmul bíla sem þeysa fram og aftur um eggslétt malbikið svo langt sem augað eygir. Og það löngu eftir að komið er út úr aðalbænum. En þrátt fyrir allan gauraganginn fer keyrslan vel með mig. Veðrið hlýtt og bjart og vegurinn láréttur og þráðbeinn; en „bleikir akrar og slegin tún" á báðar síður. Munur eða krókaleiðirnar um fjalllendið vestra.

„Björguleg er sléttan", segi ég við Walter. „Læt ég það nú vera", segir hann. „Þetta er ónýtur jarðvegur hér norður eftir öllum götum. Bíddu þangað til við komum út í Mörk". Og enn dettur mér Oscar í hug. Veit ekki hvort ég ætti að taka orð Walters sem spaug eða háð eða rómantíska bjartsýni, og held mér saman, hæst ánægður með, að njóta hvíldarinnar í veðurblíðunni — og öryggi ökumannsins. Og ég sit í hálfgerðu móki þar til malbikið er á enda og vegurinn gerist mölborinn, en jafn breiður sem fyrr og vel upp borinn. Og þó komið sé út fyrir hinar svonefndu sléttur, er landið en slétt eins og lygn vatnsflötur, en talsvert skógi vaxið, þó merkin sýni, að mikið af honum hefir verið rutt. Víða vottar fyrir grjóti og er öll spretta fremur léleg nema í kálgörðum, sem sýnilega hafa notið sérstakrar ræktar. Heimilin og útihúsin eru snotur og vel um alt gengið, að því er séð verður frá veginum, en eru gerð í stíl, sem minnir mig á myndir af bújörðum á Balkanskaga. Hér búa sérvitrir menn, hugsa ég, en læt það ekki uppskátt við Walter. Hélt að við værum kanske komnir út í Mörk, og spyr hann hvort svo sé. „Ekki nú aldeilis. Eða sýnist þér þessi húsakynni bera það með sér, að landar búi hér?" „Ég hélt kanske að þeir bygðu svona í Mörk", segi ég sneypulega.

„Nei, nei, minn góði. Þetta er Gallabygð og svipar ekki til íslenzkrar sveitar, eins og þú munt bráðlega sannfærast um“. En ég hlakkaði ekkert til að gera samanburð á dugnaði Gallanna og ómennskunni í Mörk.

Enn sjást þó engin merki flóa og skóga. Útsýnið víkkar með hverri farinni mílu og líkist meira sléttunni en skóglendi. Aðeins einstök skógarbelti ber fyrir augað, og skjólrunnar sem minna á eyjar í sjó — gullsjó akra og engja.

„Þá erum við nú komnir út í Mörk“, segir Walter. Fyrr má nú gera að gamni sínu, hugsa ég. Betur sprotna akra og ræktuð heylönd en hér hafði ég ekki séð á ferð minni, austan Klettafjallanna.

„Fagur er flóinn“, segi ég til að bekenna spaug Walters. „En ertu ekki hræddur um, að bíllinn sökkvi í?“

„Engin hætta, laxmaður, þó sagt sé, að hér hafi engri skepnu verið fært í fyrri tíð. En það var fyrir mitt minni“. Á þetta legg ég lítinn trúnað, því altaf gerist bygðin blómlegri og húsin reisulegri og hafa mörg þeirra á sér meira borgarsnið en bændabrag, og standa sums staðar tvö eða fleiri með örskömmu millibili, svo landrými hlýtur að vera mjög takmarkað, eftir því sem gerist hjá bændum í Manitoba. Þrátt fyrir það er yfirleitt meira borið í bændasetrin hér og betur um flest búið en í öðrum sveitum sem mér eru kunnar. Þetta er mér fjárhagsleg ráðgáta, sem ég ber undir Walter.

Hann segir, að þéttbýlið stafi ekki af skornum skamti landrýmis; heldur hafi margir afkomendur fyrstu landnemananna kunnað bezt við sig á gömlu heimilisréttarlöndunum, og reist þar hús sín, þó lönd þeirra liggi annars staðar; og síðan bílar og aðrar mótorvélar gerðust almenn tæki, hafi fjölbýlin farið í vöxt; minstu muni hvort ekið sé nokkra faðma eða svo mílum skiftir til vinnunnar.

Þetta gat ég skilið. En ekki var það ráðning aðalgátunnar: „Hvaðan koma þau efni, sem útheimtast til, að byggja eins og hér hefir verið gert og kaupa bíla og dráttarvélar að auk?“

„Úr vatninu og skóginum“, segir Walter. „Mikið af byggingarefni var unnið úr skóginum af bændum hér. Sumt af því fór í þessi hús sem þú sérð; sumt var selt ásamt eldivið, við til pappírsgerðar og böndum til járnbrautarfélaganna. Á þessu lifðu menn og komu sér upp bærilegum heimilum. Og eftir því sem skógurinn eyddist, jókst jarðræktin. Svo komu bílarnir og útheimtu færa vegi. En þeir urðu svo bezt bygðir, að flóar og fen væru skorin fram og landið þurkað. Eftir það komst kornræktin í algleyming“.

„Og altaf nógur fiskur á borðum,“ segi ég.

Walter hlær að því og segir að lítið sé nú um það. „Við nennum ekki að verka hann. Svo gefa gripir og kindur af sér nóg í soðið“.

„En allur fiskur seldur á markað?“ spyr ég, og er orðinn spentur fyrir braski þessara bænda, sem hafa svo margt í takinu.

„Vitaskuld. Þó við gerðum ekki annað en éta fisk, mundi ekki sjást högg á vatni. Héðan væru margir útvegir gerðir út sumar og vetur og oft mokafli. Aðrir sem ekki fiskuðu höfðu atvinnu með hesta sína við að

flytja vetrarveiðina til markaðar. En nú er öllu fiskirii hér því nær lokið".

„Og hvað kemur til?" spyr ég. Þótti illa farið, að menn skyldu leggja niður arðberandi iðnað.

„Bæði er það, að afli er í rénun og svo kjósa bændur að gefa sig alla við akuryrkju".

Og ég á að trúa því, að við séum að aka um Mörk! — „En hvar er vatnið?"

„Nokkrar mílur héðan", segir Walter. „En nú erum við að koma inn í Steinnes. Ég þarf að stanza augnablik til að taka póstinn".

En hér er enginn steinn og ekkert nes. Bara allstórt þorp og snoturt og ber öll merki þess, að hér sé líf í landi. Langar bílaraðir standa við gangstéttirnar og göturnar kvikar af fólki. Utan við bæinn ber dumbrauðar kornhlöður við loft eins og á sléttunum. Og í þessum svifunum þeysir lafmóð eimlest inn á stöðina.... Þó Walter tefði ekki nema nokkur augnablik, gafst mér tími til að hlusta á tvíraddað tal alt í kring um mig — þetta gamla og góða dútl íslenzku og ensku, sem ég ólst upp við í Winnipeg. Og eru grunntónar þess djúpir og sterkir — alíslenzkir. Mun landinn ráða hér fyrir landi og Walter ljúga það satt, að við séum í Mörk.

Heim til Walters er aðeins steinsnar. Bújörðin frjóf og fögur og fjölhýst mjög, enda er hér sægur af íslenzku fólki saman kominn og kynnir Walter mig hópnum. Síðan leiðir hann mig til stofu og biður mig að afsaka annríkið. „Við erum uppteknir við undirbúning fyrir morgundaginn. Þér að segja, Sam, er það minn heiðursdagur og fyrirhugaður gleðskapur við vatnið stofnaður í því tilefni, og um leið eitt þetta ættingjamót, sem ég sagði þér frá".

Ég óskaði honum til lukku og kvaðst verða feginn að vera einn stundarkorn, til að átta mig; alt væri hér svo frábrugðið þeirri hugmynd, sem ég hafði gert mér um Mörk og Merkurbúa.

„Þú getur litið í bók, ef þér leiðist", segir Walter og fer.

Já, víst gat ég litið hér í bók. Úr nógu var að velja, og mikið af íslenzkum bókum, gömlum og nýum; og var flestu svo fyrirkomið í stofunni, að telja mætti hana bókasafn, væri hún ekki á bændaheimili. Í næði hefði ég haft gaman af að grúska í íslenzku skruddunum. En hér er ekki því að fagna. Hugurinn í uppnámi út af því fjárhagslega fyrirbrigði sem hér hefir gerzt. Lengur rengi ég ekki, að þetta sé Mörk — strandlengjan upphaflega vaxin kargaskógi milli vatnsins og flóanna, þar sem íslenzkar landeyður drógu fram lífið í leti og framkvæmdaleysi .... Og væri ég ekki útskrifaður úr raunveruskóla verzlunarlífsins, mundi ég sannfærður um, að hér hefði skeð kraftaverk. En ég veit betur. Í heimi hagfræðinnar gerast engin kraftaverk... Eftir að bygðin hófst höfðu mannskapsmennirnir séð, að hér voru engar framtíðarvonir og haft sig á burt .... Oscar líklega séð sitt óvænna eins og aðrir sem nokkurt táp var í... Honum hefði ég þó trúað til hinna ótrúlegustu afreksverka .... Hefðu dugnaðarmennirnir setið kyrrir og nýlendan fengið að njóta afkasta þeirra — og Oscars .... Hefði fjármálavits míns notið hér við .... En engum þeim höppum hefði Mörk átt að fagna ....

Úti var hlýtt í veðri, þó komið væri kvöld. Inn um opna stofugluggana barst ilmur frá blómum og nýslegnu grasi. En þess gætti lítið. Hávær glaðværð fólksins tók einkarétt á allri skynjan minni . . . . Og nú er farið að æfa söng, íslenzk sönglög. Fjórrödduð! Og þó ég kunni ekkert lag, fer hávaðinn vel með mig. Vísurnar og versin kannast ég við frá barnsárunum . . . . Hve gott og fagurt og indælt er . . . Brúðkaupssálmur. Því Walter og systir hans gifta sig á morgun . . . Og svo væntanlegir silfur- og gullbrúðkaupsþættir í ættingjamótinu við vatnið . . . . Nú væri farið að líða að gullbrúðkaupi okkar Stínu, hefði ég ekki haft vitið fyrir mér og gefið mig allan við fjármálin . . . . Og hvernig hefði ég átt að eyða heilum dögum í ættingjamót við vatn eða annars staðar og aukatíma í undirbúning þeirra, utan kostnaðarins, sem þetta umstang hlýtur að hafa í för með sér . . . Óhugsandi að þetta fólk leggi peninga, sem nokkru nemur í sparisjóð, hversu mikið sem það hefir upp úr búskapnum. Til þess ber það of mikið í heimilin og öll lífsþægindi; og svo hlær það og syngur og heldur útiskemtanir við vatnið. En mikil undur eru það, sem Merkurbúar hafa komið í verk!

Upp úr þessum þankabrotum mínum slitnaði við komu aldraðrar konu inn í stofuna. Hún gekk beint til mín og heilsaði mér glaðlega með handabandi, eins og löndum er títt þó þeir hafi ekki verið formlega kyntir. „Ég heiti Jónína Strandar“, segir konan, „og vona að þú fyrirgefir mér framhleypnina. En ég heyrði hann Walter tala um, að þú værir að spyrjast fyrir um mann, sem eitt sinn átti heima hér í nýlendunni“.

Við þetta lifnar yfir mér, líkt og þá er ég var upp á mitt hið bezta og græddist tíu þúsund í einum rykk; það var ekki aðeins, fyrir von um að loks fái ég fréttir af Oscar, heldur minnir Jónína mig á hann. Þó öldruð sé og hvít fyrir hærum, er hér ekkert um að villast. Kærustumyndin hans Oscars var af Jónínu! Og kom þetta svo flatt upp á mig, að ég var nokkur augnablik að jafna mig.

„Ég er kominn alla leið vestan frá hafi, til að finna Oscar, og veit, að nú fæ ég fréttir af honum“.

„Og hvernig veiztu það?“ spyr hún brosandi.

„Oscar hafði ljósmynd af þér á kommóðunni í svefnherberginu sínu“. Við þessi orð mín skein gleðin út úr svip Jónínu, eins og manns, sem sér hlutabréf sín hækka í verði með hverju líðandi augnabliki; en hún lætur sem hún heyri þau ekki.

„Oscar þekti ég fyrir löngu síðan“, segir hún. „Í rauninni hét hann Ásgeir Ingimarsson, en tók sér þetta gerfinafn árin sem hann var við nám í Winnipeg. En nú er svo langt um liðið, að aðeins örfáir okkar eldra fólksins, kannast við hann undir Oscars nafninu. Annars er hann flestum hér gleymdur“.

„Hann *hét* Ásgeir, segir þú. — Er hann dáinn?“ Og var þetta í fyrsta skifti, sem mér flaug í hug, að þó Oscar væri öðru vísi en aðrir menn, lyti hann sama lögmáli og þeir.

„Enginn veit hvort Ásgeir er lífs eða liðinn, svo ég viti til“, segir Jónína. „Og þess vegna gerðist ég svona framhleypin við þig — í von um að þú hefðir séð hann eða haft

fréttir af honum síðan hann fór héðan".

„Og nær var það?"

„Tæpu ári eftir að hann hætti við námið".

„En mér skildist á honum, að Mörk væri hans fyrirheitna land. Hvað gat komið til, að breyta þeirri skoðun hans? — Nei, Mrs. — eða er það Miss Strandar?"

„Miss", segir hún. „En ég kann bezt við að vera nefnd Jónína".

„Nei, Jónína, ég hefi hvorki séð Oscar né haft afspurn af honum síðan hann kvaddi mig eftir að hann lauk þriðja bekkjarprófi við háskólann. En eitthvað hlýtur þú að vita um tildrögin til hvarfs hans héðan".

„Ekki ég, fremur en aðrir, sem sáu hann hverfa héðan eins og dropa í hafið. Burtför hans undruðust allir, jafnt þeir, sem þektu hann bezt og hinir, sem voru honum lítið kunnugir. En þú varst Ásgeir samtíða heilan vetur og veizt hver ráðgáta hann reyndist þeim, sem kyntust honum".

„Já, ég man altaf hvað ákvörðun hans, að hætta við námið, kom flatt upp á mig," segi ég. „En hann gerði þó nokkra grein fyrir henni. Og sjálfsagt hafa menn myndað sér einhverjar skoðanir um ástæðu fyrir því, að hann þaut héðan".

„Ekki vantaði það", segir Jónína. „Lengi framan af lá það í loftinu hér og líklega víðar, að enginn sá er nokkurt táp væri í, ílengdist í Mörk. Og þurfti engan að furða á því, að annar eins maður og Ásgeir sæi sér litla framtíð hér, sér í lagi þar sem von um auð og æfintýri var annars vegar".

„Auð?" segi ég og gerist forvitinn. Þó mér komi ekki til hugar, að Oscar hafi breytt stefnu og látið leiðast af von um að honum græddist fé, langaði mig til að vita hvað Jónína átti við. Ég er svona gerður. Þrátt fyrir allar læknisforskriftir fyllist hugur minn óljósum áhuga fyrir tilverunni, þegar ég heyri minst á eitthvað það, sem arðvænt er.

„Von um auð", segir Jónína með áherzlu. „En von og veruleiki eru sitt hvað. Svoleiðis var, að ungur angurgapi utan úr heimi flæktist hér um nýlenduna svo mánuðum skifti. Hafði hann miklar sögur að segja af gullfundi og gullnámum lengst út í óbygðum Norður-Canada, og þóttist viss um að dugandi menn, sem þangað færu, mundu verða vellríkir á skömmum tíma. Þegar svo gullmaðurinn, eins og við nefndum hann, fór héðan, slóst Ásgeir í för með honum til Winnipeg. Síðan veit ég ekki til að spurst hafi af þeim". Og mér fanst ég merkja gremju í svip og rödd Jónínu, þó ég lifnaði allur við, við þessar upplýsingar.

Hér eftir mundi mér aldrei blandast hugur um, að ég hafi valið hið góða hlutskifti, beitt kröftum mínum í þjónustu hins eina nauðsynlega, sem sé, hafa mig áfram og safna fé. Hafði Oscar ekki yfirgefið námið, sveit sína og heimili og unnustuna, alt — fyrir gullið? Og Oscar var sú mesta og fullkomnasta persóna, sem ég gat hugsað mér. Nú fyrst taldi ég mig jafningja hans, eða vel það. Þó hann hefði komist yfir meiri efni en ég, sem var óvíst, mundi hann aldrei hafa haldið eins vel á þeim. Svo vel þóttist ég þekkja manninn. Hitt var í fullu samræmi við skapferli hans og mannskap, að leita fjárins, þar sem

mikilla uppgripa var að vænta, þó hann yrði að sækja það í iður jarðar, ganga beint að uppsprettulind allra heimsins gæða — gullnámunni, í stað þess, að þræða, ár eftir ár, refilstigu verzlunarlífsins. Til þess skorti Oscar þá þolinmæði og þrautseigju, sem ég er gæddur.

Mitt í þessum hugleiðingum verður mér litið á Jónínu og sé, að hún er að virða mig fyrir sér. Les líklega ánægju í svip mínum og skilur ekki hví upplýsingar hennar um Oscar verða mér gleði-efni. Sjálf hefir hún gerst daufleg og þungbúin, svo ég kenni í brjósti um hana, og tek það ráð, að segja henni frægðarsögur um Oscar frá skólavistardögum hans í Winnipeg. Við það birtir yfir svip hennar, svo ég læt dæluna ganga um hinn forna unnusta hennar . . . .

Hún þakkar mér fyrir — hvað, veit ég ekki. „Við sjáumst á morgun við vatnið", segir hún brosandi. „En nú er ég búin að slóra alt of lengi". Með það fer hún, en ég sit eftir hjá bókunum. Dettur ekki í hug að líta í þær. Finn enga löngun til að fara út í kvöldblíðuna og kátínuna. Hlakka ekkert til að vera á ættingjamótinu við vatnið. Langar bara heim.



# Kveðja til barnaskóla

Aðaljón Kristvinsson í Markerville hefur komið eftirfarandi kvæði Stephans G. Stephanssonar á framfæri, og gerir hann svohljóðandi grein fyrir því . . . „Sendi ég þér kvæði, sem Stephan orti vorið 1895, er fyrsta barnaskóla í þessari byggð var sagt upp. Ég var þá á ellefta ári og gekk þá í skóla í fyrsta sinn og hélt til á heimili hans. Kvæðið er hvergi að finna í bókum hans, en ég náði í það hjá kunningja hans, Bjarna Jónssyni (Auðna-Bjarna), sem hafði það í Stephans eigin handriti, og gerði ég afrit af því. Mér finnst kvæðið þess virði, að það glatist ekki."

Til sumarvinnunnar vaknar hvert fræ,
því vorið er komið í dal og bæ,
sem fannir af foldinni plokkar.
Og hólarnir standa svo hreyknir að sjá
með hjarnskyrtur flakandi brjóstinu á
sem íslenzku drengirnir okkar.

Og hárprúðu aspirnar hoppa í dans
og höfðinu kasta, svo þyrlast í krans
í hlývindi hangandi lokkar.
„Við erum að reyna, hver röskust er
að renna upp í brekku," hugsa þær sér,
sem íslenzku stúlkurnar okkar.

Og veturinn þenna, sem umliðinn er,
var útlitið stundum á skólanum hér
sem veðurs í vorhlákum fyrstu,
því æskunni finnst það afkastasmátt,
ef aldrei er stokkið og talað neitt hátt,
að lúra sem læstur í kistu.

Þó stormurinn brölti um hæðir og hlé
og hávaðinn meiri en stórverkin sé,
samt leynist þó von í þeim vindi:
með sumar og gróður og akranna auð,
með uppskeru framför og ríkdóm og brauð,
með fegurð og framtíðar yndi.

Þó æskan sé hvikul og óragjörn,
þá eru samt þessi skólabörn
í þjóðakri þroskandi gróður.
Og þetta eru efnin í skínandi — sko —
í skólaráð, kennara, vitringa, og svo
við vitum: hver genginn er góður.

Og þökk fyrir samvinnu öll og eitt,
ég óska, að ei glatist smákorn neitt,
sem við höfum tínt upp í vetur.
Ég tek með mér sjálfur af órunum ögn,
þá ævin mér verður að kveldvöku þögn,
ég reyni, hvort glatt það ei getur.

En þjóðin vor unga þroskast senn,
og þá verða hennar beztu menn
íslenzku drengirnir okkar.
Og senn verða heimilin hlýleg að sjá,
og heimilisprýðirnar verða þá
íslenzku stúlkurnar okkar.

P. S. PÁLSSON:

# Íslenzk Baldursbrá í Ameríku

*Nú er komið hret og hríð,*
*hér ert þú svo björt og fríð.*
*Sviftibyljir haustsins hörðu*
*höfuð þitt ei beygja að jörðu.*
*Snjór og héla hárið þitt*
*hjúpa, fagra blómið mitt.*

*Dætur Vínlands drúpa nú*
*daprar, sneyddar von og trú,*
*dreyma um liðna, ljósa daga,*
*landið grænt og fagra haga.*
*Hugur þinn og hjarta á skjól*
*„heima", móti vori og sól.*

*Fæddist þú á hausti, og hér*
*haustsins fagra skrúð þú ber;*
*fegurð Íslands fjalla og jökla,*
*„frosta-landsins" grænu hökla,*
*svip þess lands sem líf þér gaf:*
*landsins fyrir austan haf.*

*Beið ég þín, mitt blómið frítt,*
*beið þín, svo þú gætir skrýtt*
*garðinn minn, er haustsins héla*
*hendur legði á tún og mela.*
*Sumarblóm mér brostu hlýtt,*
*bros þitt gaf mér eitthvað nýtt.*

*Þú fórst ung frá Íslands-strönd*
*æfintýra leidd af hönd.*
*Gróðursett í fjarri foldu,*
*frjófguð annarlegri moldu.*
*Kom sér vel í kulda og snjó*
*kraftur sá er í þér bjó.*

*Þú munt prýða þetta land*
*þó að annað fari í strand.*
*Þú munt haustsins hljóðu gleði*
*hlúa í mörgu þreyttu geði.*
*Höfði drúpi ég hljótt til þín,*
*haustsins blóm — og ástin mín.*

ÞORSTEINN Þ. ÞORSTEINSSON:

# Upphaf bygða Íslendinga í N.D.

Niðurlag frá í fyrra

V.

Hér þykir hlýða, að gera ofurlitla grein fyrir því fólki, sem flutti alfarið til nýlendunnar þetta fyrsta ár, eða settist að við Pembina. En einnig verða þeir taldir til þessa árs, sem voru þar í landskoðunarferðum og völdu sér bújarðir í nýlendunni, þótt ástæður þeirra í Nýja-Íslandi hömluðu þeim frá, að flytja suður fyrr en næsta ár. Um þá menn, sem áður er getið við útflutninga, frá 1872 til 1875, í S. Í. í V., II. B., verður hér og síðar, að öllum jafnaði, vísað til blaðsíðutalsins, en það ekki endurtekið, sem þar er um þá sagt, en því bætt við, sem þurfa þykir ef heimildir eru fyrir hendi, sem þó verða alls staðar saman dregnar í stytzta ágrip.

*Nýlendumenn,* 1878:

Magnús Stefánsson (1853 eða 2 — 1935) frá Fjöllum í Kelduhverfi, hið hugrakka karlmenni, er vestur flutti 1873 og getið er um í II. B. (af S. Í. í V.), 181, og víða hér að framan. Hann er, hvað Íslendinga áhrærir, frumkvöðull bygða þeirra í Dakota, ásamt Sigurði Jósúa, eins og undanfarandi saga ber með sér. Magnús var gæddur góðum hæfileikum og þeirri skerpu og harðfengi ásamt óbilandi vilja og kjarki, sem flestar torfærur sigraði í baráttu og framsókn frumbýlinganna, en þó oftar meir fyrir aðra en hann sjálfan. Fór hann margar harðsóttar ferðir fyrir ýmsa í Dakota fyrstu árin á hægfara uxum en þörfustu þjónunum þó, án þess hart væri gengið eftir gjaldi fátæklinganna. Segir hann svo frá, að Þorsteinn Þorláksson, bróðir séra Páls, hafi stundum verið með sér í ferðum þessum, einkum að flytja hveitikorn fyrir bændur langar leiðir til mölunar fram og til baka um háveturinn. Hann var 35 ár í nýlendunni, þar til hann flutti aftur til Canada. Þau árin, sem hann var þar lögregluþjónn, segja sögur, að hann hafi ekki „veigrað sér við að handsama lögbrjóta, því kjarkurinn var mikill“. Árið 1880 nam hann land á ný suður í Garðarbygð, skamt frá Jóni Bergmann, og bjó þar nokkur ár. Þar andaðist Valgerður fyrri kona hans, dóttir Jóns en systir séra F. J. Bergmanns, í október, 1883, sem hann kvæntist 21. nóvember, 1879. Börn þeirra er á legg komust: Amy, kona Halldórs Björnssonar frá Úlfsstöðum, er vestur flutti 1884. Dóu þau hjón á bezta aldri. Seinni kona Magnúsar: Ólöf dóttir Sigfúsar Ólafssonar Eyfirðings, er til Nýja-Íslands flutti 1876, en til Dakota 1879. Þeirra börn: Jón Bergmann byggingameistari; Magnús Valgard

póstafgreiðslumaður í Climax, Sask., þar sem Magnús Stefánsson vann við verzlun sín efri ár;Elías símritari, og Elín.

Sigurður Jósúa Björnsson, er vestur flutti 1874, frá Bæ í Miðdölum, II. B., 255; hinn mikli hæfileikamaður og óþreytandi leitari, sem alt lék í höndum, en varð lítið við hendur fast. Hann rennur víðast hvar fyrstur á vaðið með skarpskygni og góðri forustu, en leiðist að hanga lengi við það sama, leitar nýrra ráða og ríður á ný vöð. Í nýlendunni er hann fyrsti yfirsetumaður (1878), fyrsti póstafgreiðslumaður að Hallsson (Coulee pósthús, 1881), fyrsti friðdómari (um eða fyrir 1883) og fyrsti ljósmyndari í Vík (Mountain, um eða fyrir 1885). Sigurður Jósúa ritaði snemma vetrar, 1881, bænaskrá til stjórnarinnar, og safnar eiginhandarnöfnum bænda undir hana. Var þar farið fram á, ásamt öðrum umbótum, að stjórnin stækkaði nýlendusvæði Íslendinga með kaupum nýs lands — líklega af Indíánum, sem enn áttu landsvæði þar um slóðir samkvæmt samningum. — Hafðist sumt af þessu fram, sem síðar getur. Seinna á árum, þegar mjög tók að þrengjast um landrými bænda, þeir orðnir afkróaðir í nýlendunni af annara þjóða mönnum, og lítil sýndust önnur ráð, að losast úr nýjum skuldafjötrum, en að láta óðul sín, er hann kjörinn til þess á fundi þar í nýlendunni (1888), að leita nýs landnáms í vestanverðri Canada, og verður frumkvöðull að nýlendu Íslendinga í Alberta, er hann flytur til. En laun Íslendinga urðu sem við mátti búast til manns, sem ekki átti skap eða kunnáttu til, að mata sjálfur krókinn og koma ár sinni kænlega fyrir borð. Þegar aldur færðist yfir hann, var honum gersamlega gleymt með þökk þurra tára og djúpri þögn. — Ekki átti Sigurður Jósúa lengi bújörð þá, sem hann valdi og skrifaði sig fyrir, 1878, í fyrstu skoðunarförinni með Magnúsi Stefánssyni, þegar þeir völdu þetta nýlendusvæði handa sér og löndum sínum. Næsta vor eftirlét hann Samson Bjarnasyni hana, en nam annað land sama ár (1879) rúma mílu austur frá Hallsson, sem hann seldi að fám árum liðnum. Seinni kona Sigurðar Jósúa hét Sigurveig Jóhannesdóttir. Þau áttu fjölda barna. En að því er óvissar heimildir herma, andast hann fyrir kringum þrjátíu árum síðan (um 1923), hátt á áttræðis aldri, sunnarlega í California-ríki.

Jóhann Pétur Hallsson (1823—1899) var hálfbróðir Jóns prófasts í Glaumbæ í Skagafirði, en þeir voru synir Halls bónda í Geldingaholti Ásgrímssonar bónda og „ökunómusar" í Víðinesi í Hjaltadal, Sveinbjörnssonar bónda að Stóru-Gröf, Helgasonar bónda að Reykjarhóli, Einarssonar. Móðir Halls, föður þeirra bræðra og kona Ásgríms í Víðirnesi, hét Guðríður og var dóttir Guðmundar bónda á Hóli Erlendssonar hreppstjóra að Skeggjabrekku, Guðmundssonar eldri bónda að Siglunesi, bróður séra Sveins hins lærða manns og júbilkennara að Barði í Fljótum, Jónssonar bónda að Siglunesi (Lambanesi), Guðmundssonar bónda sama staðar, Jónssonar. — Móðir Jóhanns Péturs landnámsmanns að Hallsson og seinni kona Halls bónda í Geldingaholti, var Guðrún dóttir Ingimundar í Fremsta Felli, sem var sonur Kolbeins Bárð-

dælings að Stóru-Völlum, Eiríkssonar, og konu hans Katrínar Bjarnadóttur prests að Eyjadalsá Magnússonar prests að Auðkúlu, Eiríkssonar. Móðir séra Bjarna en kona Magnúsar prests, var Steinvör Pétursdóttir Filippussonar bónda að Svínavatni, er veginn var að Auðkúlu, 1548, Þórarinssonar lögréttumanns sama staðar, Jónssonar. Móðir Péturs, kona Filippusar, var Solveig systir Magnúsar prúða. Voru þau alsystkin sjö. Foreldrar þeirra voru Jón höfðingi á Svalbarði við Eyjafjörð Magnússon sýslumanns að Skriðu, Þorkelssonar, og fyrri kona Jóns: Ragnheiður „á rauðum sokkum“ Pétursdóttir, sem er beinn karlleggur til Lofts ríka. En móðir Jóns á Svalbarði, og kona Magnúsar í Skriðu, var Kristín Eyjólfsdóttir frá Urðum — beinn karlleggur Urðverja („Riddaranna í Svarfaðardal“) til Þorsteins Eyjólfssonar á Urðum, hins mikla höfðingja Íslands allan síðari hluta fjórtándu aldar. [Sbr. I. B., 35 nm. og II. B., 295 nm. og víðar]. — Ragnheiður Pálsdóttir (c. 1816—1897), kona Jóhanns Hallssonar að Hallsson,[1] var dóttir Páls prests á Brúarlandi í Deildardal Erlendssonar klausturhaldara að Munka-Þverá, Hjálmarssonar. Móðir séra Páls og fyrri kona Erlendar, var Karítas dóttir Sveins lögmanns Sölvasonar á Munka-Þverá og konu hans Málmfríðar Jónsdóttur, systur Þórarins sýslumanns að Grund í Eyjafirði. Er sú ætt rakin til Sveins prests að Barði, í II. B. 165, bróður Guðmundar á Siglunesi forföður Jóhanns Hallssonar. Móðir Ragnheiðar, kona séra Páls, var Elín dóttir Halldórs Vídalíns klausturhaldara að Reynistað í Skagafirði. Er sá ættleggur nokkuð rakinn í II. B., 265, og þar getið fyrri manns Ragnheiðar, Jóhanns Kristjáns Schrams, bónda í Höfða á Höfðaströnd (d. 1845), í sambandi við vesturför (1874) þeirra hálfsystkinanna, Jósefs Schrams af fyrra hjónabandi, og Ragnheiðar Halldóru [Schram] af seinna hjónabandi, sem hér að framan hefir verið minst, — konu Gísla Egilssonar. Er líklegt, að fleiri af börnum Jóhanns og Ragnheiðar en Jóhann sá, er dagbækurnar hélt, hafi nefnt sig ættarnafni fyrra manns hennar, og má ske hún einnig meðan hún var heima. — Jóhann P. Hallsson ólst upp í föðurgarði í Geldingaholti, þar til hann varð fulltíða maður. Þótti hann snemma greindur vel og söngmaður mikill. Um eða eftir 1845, ræðst hann til ekkjunnar Ragnheiðar Pálsdóttur [Schram] húsfreyju í Höfða á Höfðaströnd, sem mist hafði mann sinn í sjóinn. Kvongast hann henni nokkuru seinna og býr þar nokkur ár. Þaðan flytja þau hjón búferlum fram að Skriðulandi í Kolbeinsdal, „og bjuggu þar þangað til 1857, að skriða féll á bæinn og sópaði burt og eyðilagði allan fjárstofn, að undanteknum kúnum“. Mun þetta hafa skeð að hausti til og þau fluttu þaðan strax á vegum Benedikts Vigfússonar prófasts að Hólum, nær því eignalaus, í óræktarkot fremst í austanverðum Hjaltadal, sem lá undir Hóla, og ekki var búið á nema annað slagið, en nú hefir verið í eyði síðan fyrir aldamót. Um vorið munu þau

1) Staðarnafn þetta (föðurnafn J. P. H.) sem gefið var hinni fyrstu bygð Íslendinga í Dakota, er alls staðar ritað **Hallson**, en af gömlum íslenzkum vana, er essinu haldið hér í staðarnafninu eins og mannsnafninu.

hafa fengið Nautabú til ábúðar og farið aftur þaðan að Þorleifsstöðum í Blönduhlíð, þar sem þau eru sögð hafa búið í fjórtán ár, en síðustu árin heima áttu þau bú að Egg á Hegranesi. Mun Jóhann þá hafa verið orðinn þreyttur á þessum hrakningi, því til vesturfarar var hugur hans snúinn 1873 [sbr. II. B., 138]. En svo voru fararefnin naum, að þau urðu að skilja eitthvað af börnum sínum eftir, þegar þau komu því í framkvæmd, að flytja vestur um haf til Nýja-Íslands, sumarið 1876, hann fimtíu og þriggja ára gamall en hún sextug. Frá Gimli fluttu þau hjónin sem fyrr segir, 1878, til Dakota, þar sem Jóhann „gerðist eiginlega fyrsti landnámsmaðurinn í þeirri nýlendu", eins og séra Fr. J. B. kemst að orði í minningargrein um hann. [*Alm.* O. S. Th., 1902, bls. 84—85]. „Mun hann lengi í minnum hafður fyrir dugnað þann og kjark, er hann sýndi í því, að verða fyrstur manna til að rífa sig upp frá Nýja-Íslandi og ryðja braut fyrir alla þá, er á eftir komu". En auk óbilandi kjarks og óþreytandi dugnaðar, var hann áhugamaður mikill, hygginn og ráðagóður, en flanaði að engu, enda var hann mjög heppinn í vali bújarðar sinnar og allir þeir, sem bygðu í nágrenni hans, því þar reyndist jarðvegurinn beztur. Jóhann studdi safnaðarmál í bygð sinni með ráði og dáð. Átti hann mikinn og góðan þátt í því, að kirkja var reist að Hallsson. Var sú smíði hafin 1897, sama árið og Ragnheiður kona hans andaðist. Gaf hann þeirri kirkju fullsmíðaðri veglega klukku, altari og stól. Fyrir kirkjuþingið 1899 að Hallsson, sem koma átti saman á bæ hans, og vígja þá hina nýju kirkju um leið, bjó Jóhann alt undir sem bezt. En í þeim undirbúningi ofreyndi hann sig á átaki, sem honum var um megn jafn öldruðum manni. Beið hann af því bana og auðnaðist hvorki að sitja kirkjuþingið, né vera viðstaddur kirkjuvígsluna eins og ráðgert hafði verið. En um líkt leyti og kirkjan var vígð (seint í júlí), fór útför hans fram, heiðruð af kirkjuþingsgestum og miklum fjölda bygðarmanna. — Jóhann var höfðingi í lund, víðsýnn og frjálslyndur í skoðunum, unni bygð sinni heitt og var sannur brautryðjandi, að dómi Árna Magnússonar nágranna síns.

Jóhann Schram (1852—1887) sonur Jóhanns Hallssonar og Ragnheiðar Pálsdóttur. Frá 1. ágúst, 1876, þar til 17 ágúst, 1887 (nokkurum dögum áður en hann andast), ritaði hann dagbækur þær, sem hér að framan er getið, og sem nú vantar blöð í á nokkrum stöðum. Eru þær og hafa verið sundurlausar og í mismunandi pappírsbroti. Eiga Íslendingar í Dakota honum það að þakka, að fyrsta árs saga þeirra, sérstaklega, hefir verið all-greinilega sögð í þeim landnámsþáttum, er ritaðir hafa verið. Hann mun frá því fyrsta til þess síðasta hafa dvalið með foreldrum sínum, þótt hann yrði landnemi í Hallsson, því faðir hans bygði fyrsta bæ sinn á landi hans, svo sem áður er ritað eftir athugunum Árna Magnússonar. Bróðir Jóhanns Schrams, sem Pétur hét, varð eftir heima, 1876. Er þess getið, 24. apríl, 1878, að Jóhann hafi fengið „bréf frá Pétri bróður að heiman úr Hrísey" [á Eyjafirði]. Þessi Pétur kemur snemma á árum til Dakota og gerist þar landnemi að öllum líkindum.

Er frá því skýrt 17. september, 1882, að Pétur ásamt öðrum hafi farið ofan til Pembina og „tekið borgarabréf“.[2] Elín hét systir þeirra bræðra. En ekki er víst, að hún hafi orðið eftir heima, 1876. Nefnir Jóhann hana: „Elín Schram systir“. Hún var hálfsystir hans og seinni kona Pálma Hjálmarssonar [II. B., 297]. Jóhann Schram ritaði prýðis-fallega hönd. Hann var vel gefinn maður og vandaður til orðs og æðis.

Gunnar J. Hallsson (f. 1853, d. í Calder, Sask., 20/2, 1948), albróðir Jóhanns Schrams, flutti með foreldrum sínum til Nýja-Íslands, 1876. Hann nam land, 1878, í Akra-bygð, rétt austan við merkin, sem aðskilja Akra frá Beaulieu, skamt fyrir sunnan Hallsson. Gunnar kom kvæntur að heiman fyrri konu sinni, Ragnheiði Ingibjörgu Jóhannsdóttur frá Húsabakka í Skagafirði, er andaðist í bólunni í Nýja-Íslandi, 6. nóvember, 1876. Seinni kona hans (11. des., 1880) var Gróa Sigurlaug dóttir Sölva bónda Húnvetnings Sölvasonar frá Ytri-Löngumýri í Blöndudal. Þótt Gunnar flytti frá föður sínum á bújörð þá, er hann valdi sér, var hann alt af hans önnur hönd, einkum hin síðari ár Jóhanns, eftir að hann misti Jóhann Schram; en seinustu ár föður hans, var Gunnar hjá honum og sá um búskapinn með honum. Hann var öflugur félagsmaður í samtökum nýlendumanna, greindur vel og söngmaður góður sem faðir hans, og reyndist öllum hinn bezti drengur. Seinna gerðist Gunnar landnemi í Lögbergs-nýlendunni í Saskatchewan-fylki í Canada, sem fyrrum hét Assiniboia, og á þar aðra landnemasögu eins og Gísli mágur hans. Nú dregur Löbergs-bygðin nafn af pósthúsinu og bænum Calder í nýlendu þessari. En þótt Gunnar flytti aftur til Canada, dvaldi hann þó löngum stundum í Hallsson-bygð. Kom hann þangað oft og mun þar hafa fundist sínir „heimahagar“ vestan hafs.

Gísli (1851—1927) sonur Egils bónda að Völlum í Hólmi í Skagafirði Gottskálkssonar hreppstjóra sama staðar, Egilssonar bónda að Mið-Grund, bróður Konráðs prófessors í Kaupmannahöfn, en þeir bræður voru synir Gísla Konráðssonar hins fróða sagnaþuls, sem fæddur var að Völlum í Hólmi, 18. júní, 1787. Gísli Egilsson flutti til Nýja-Íslands, 1876, frá Skarðsá í Skagafirði. Þar kvæntist hann að Gimli árið eftir, Ragnheiði Halldóru (1852—1917) Jóhannsdóttur Hallssonar, miðvikudaginn, 19. júlí, 1877. Þá var mikið um að vera á Gimli, því þenna dag messaði séra Jón Bjarnason þar, sem þá var gestur í nýlendunni. Hafði enginn prestur komið þar síðan sumarið áður, að séra Páll Þorláksson ferðaðist þangað norður. Við messuna var fjöldi fólks, en á undan guðsþjónustunni, gaf hann saman fimm hjónaefni, sem hétu: Gísli og Ragnheiður Halldóra; Jósef Schram, hálfbróðir hennar, og Kristín Jónasdóttir, systir Einars læknis; Jón Jónsson frá Munka-Þverá og Guðný Eiríksdóttir; Friðfinnur og Þórdís Kristjánsdóttir;

2) Pétur Jóhannsson Hallssonar, varð mörgum árum seinna landnemi í Álftavatnsbygð við Manitobavatn, og bjó þar nokkur ár. Þaðan flutti hann vestur á Kyrrahafsströnd og var þá kvæntur Gunnvöru, móður Baldvins Kristinssonar Hafstein, er bjó með móður sinni fáein ár þar í bygðinni, og flutti einnig vestur að hafi. [Sbr. Álftavatnsbygð (frh.) eftir Sigurð Baldvinsson, Alm. O. S. Th., 1944, bls. 70].

Árni Sveinsson [síðar bændahöfðingi í Argyle] og Guðrún Jónsdóttir. — Bújörð sína í Dakota nam Gísli, 1878, „rétt sunnan og vestan við Hallsons landið“, og var þar póstafgreiðslumaður frá 1882 til 1884, að hann seldi hana og keypti aðra jörð tvær mílur suðaustur af Hallsson, en hafði þó annan fótinn hjá tengdaföður sínum meðan hann bjó í nýlendunni. Gísli kemur mikið og vel við sögu Íslendinga í Dakota, enda var hann góður hæfileikamaður. Fjóra fyrstu mánuðina af árinu 1880, kendi hann skóla annað slagið í Hallsson fyrir séra Pál Þorláksson. — Árið 1888 fluttu þau hjónin með börnum sínum til Winnipeg. Mun Gísli þar hafa stundað allmikið húsasmíðar. Þá var Lögbergs-nýlendan að byggjast. Fluttu þau hjón þangað, 1891. Þar nam Gísli land á ný og gerðist aftur bóndi, en lagði einnig stund á smíðar og var póstafgreiðslumaður að Lögbergi í mörg ár. Börn þeirra hjóna, er þroska náðu: Hallur, hinn fyrrnefndi fyrsti Íslendingur, er fæddist í Dakota hjá Bótólfi norska, (d. 1943), bóndi skamt frá Lögbergs [Calder] pósthúsi, átti Kristínu dóttur Einars J. Suðfjörðs; Páll kaupmaður í Calder-bæ í Lögbergs-nýlendu, hans kona Elíná [Ella] Jóhannesdóttir Einarssonar bónda þar í bygð og fyrrum sveitarstjóra þar og í Þingvallabygð [sbr. ritgerð dr. R. Becks, Alm. S. O. Th., 1944, bls. 79—88]; Hannes kaupmaður í Calder-bæ, kvæntur Helgu Snorradóttur Reykjalín (fósturdóttur séra Jóns og frú Láru); Guðríður, átti enskan bónda þar í bygð; Rannveig, kona séra Guttorms Guttormssonar í Minneota, Minnesota; Helga, átti þýzkan mann, en María enskan, er báðir stunduðu verzlun í Calder.

Sigurður (1863—1935) Pálsson Guðmundssonar fæddur að Élvogum í Sæmundarhlíð en fóstraður af Jóhanni P. Hallssyni, og dvaldi á því heimili frá því hann var lítill drengur og þar til nokkrum árum áður en Jóhann bóndi lézt, að hann fór að búa sér nálægt Hallsson. Sigurður átti alt af heima í Hallsson-bygð (um 57 ár) og dvaldi þar lengst allra þeirra, er þangað fluttu þetta ár (1878), og tók mikinn þátt í félagsmálum þar. Kona hans var Sesilía Magnúsdóttir fædd að Fellsenda í Miðdölum, 1849, en flutti vestur árið 1888, og bjó að Hallsson síðan.

Jón J. Hörgdal fæddur að Möðruvöllum í Hörgárdal, 1854, sonur Jóns bónda á ýmsum bæjum í Hörgárdal Jónssonar Þorvaldssonar og konu hans Karítasar Árnadóttur, er varð landnámskona að Hallsson þetta ár, sem enn verður getið. Jón Hörgdal var frændi Ragnheiðar konu Jóhanns Hallssonar; var séra Páll á Brúarlandi í Deildardal upp frá Höfðaströnd, faðir Ragnheiðar, bróðir Sigríðar Erlendsdóttur klausturhaldara frá Munka-Þverá, en hún var kona Árna og móðir Karítasar landnema, sem hét eftir Karítas móðurömmu sinni dóttur Sveins lögmanns, sem hér að framan er getið við ætt Ragnheiðar Pálsdóttur að Hallsson. — Jón Hörgdal flutti vestur til Nýja-Íslands 1876. Í Winnipeg hitti hann fornkunningja sinn, Björn K. Skagfjörð [II. B., 171—172 og víðar við 1873]. Urðu þeir samferða til nýlendunnar á einum „flatdallinum“. Þegar niður á vatnið kom, lentu þeir í miklu hvassviðri, settu upp segl, sem var stórt

íslenzkt brekán, og náðu landi við Kjalvík, bújörð Skafta Arasonar. Dáðist Jón mikið að því, hversu ágætlega Björn stýrði hinum klunnalega farkosti þeirra, bæði niður ána og norður eftir vatninu. Vorið 1877, var Jón baðaður eins og kláða-gemlingur af sóttverðinum suður af Nýja-Íslandi, þegar hann, ásamt fjölda ungra manna, reyndi að komast burt úr nýlendunni til að bjarga sér, sem þeim líka öllum tókst eftir næga bið og böðun. Fengu þeir atvinnu við nýbyrjaða járnbraut, sem verið var að leggja suður til Bandaríkja, en unnu varla fyrir fæði sínu vegna rigninga. En í hópi þessara landa, voru sex Jónar Jónssynir, sem allir rugluðust saman hjá þeim canadisku, þegar gjalda átti þeim vinnulaunin. Tóku þeir því það til bragðs, allir sex, að fá sér ættnefni, og þaðan stafar Hörgdals nafnið. Snemma vetrar þetta ár réðist hann í vist í Kildonan, fimm mílur norður frá Winnipeg, til ágætis manns, sem James Black hét, sonur Rev. (séra) John Blacks hins skozka, sem talinn er, að vera einn af fyrstu prestum í nýlendunni í Rauðárdal, sem Selkirk lávarður stofnaði 1813—1815. Segir Jón Hörgdal svo frá, að ekki sé hægt að hugsa sér betra heimili en þeirra hjóna, James Black og seinni konu hans, sem var skólakennari frá Skotlandi. Kona sú, er hann áður átti, var af einum þjóðflokki Rauðskinna. Lifðu sjö börn af því fyrra hjónabandi, sem seinni konan kendi ensku á hverju kvöldi. Eftir að Jón hafði dvalið þar stuttan tíma, bauð konan honum að taka þátt í náminu. Þá hann boðið með þökkum. Lærði hann um veturinn undirstöðu bókmálsins og framburð enskunnar. Þarna dvaldi hann þar til í byrjun júní, 1878, að búið var að sá, og fanst hann aldrei hafa áður tíma sínum betur eytt, og vera nú orðinn maður til að mæta hverju, sem að höndum bæri. Í Winnipeg hitti hann J. P. Hallsson á förnum vegi og slóst í förina suður, sem fyrr er ritað, og vann við „að hrófa upp litlum og ljótum bjálkakofa“, sem hann, einn af níu, flutti í. Síðar starfaði hann að heyskap og öðru unz hann vistaðist yfir sumarið hjá N. E. Nelson í Pembina, sem áður getur, og vann hjá honum fram á haust. En þegar Karítas móðir hans og Jónína litla komu að heiman til Winnipeg, flytur hann þær til Jóhanns Hallssonar og sezt þar einnig að. Með móður sinni reisti hann bú, vorið 1879, á bújörð, er hún nam í Hallsson, en valdi sjálfum sér land ásamt tengdaforeldrum sínum tilvonandi, fjórar mílur suðaustur frá Hallsson, en bjó þó nálega öll sín fjörutíu ár í nýlendunni á bújörð móður sinnar. — Jón Hörgdal var hinn mesti fjörmaður og átti fjölbreyttum hæfileikum á að skipa. Hann var fæddur leikari og skemti fólki allra manna bezt í sinni bygð, bæði á sjónleikum og samkomum. Vandasöm embætti opinberra mála hafði hann stöðugt á hendi frá því þau voru stofnuð og þar til hann flutti úr bygðinni. Hann var „hreppstjóri“ í bygð sinni fullan hálfan þriðja tug ára. Tók hann við af Gísla Egilssyni, er hann hvarf þaðan, 1888, en fyrsti maður, sem kjörinn var til þess embættis, var Jóhann Pétur Hallsson. Frá því skólahérað var þar myndað, 1882, var Jón forseti skólastjórnar í 36 ár og kennari við sunnudagaskólann

fult eins lengi. — Jón Hörgdal flutti frá Hallsson til Vatnabyggðanna í Canada (Elfros, Saskatchewan) árið 1918. Það ár kendi hann veikinda (slags), sem lamaði fjörið mikið en glaðværð sálarinnar var ósigrandi. — Kona hans (19. júní, 1880) var Kristrún (f. 1861) Hallgrímsdóttir Hólm úr Skagafirði, getur foreldra hennar við næsta ár. Kristrún var mjög samhent manni sínum og bezta móðir börnum þeirra, sem hétu: Alfred; John Wilhelm, átti Ólöfu Ólafsson; Hólmfríður María, gift canadiskum manni; Emilía, kona Óskars Gíslasonar; Hallgrímur, átti Guðrúnu Ólason; Jón, maður Önnu Ólason; Árni; Valdemar; Elinborg, kona Hallgríms Björnssonar; Guðbjörg Sigrún, yngst þessara tíu barna, er þroska náðu.

Karítas Árnadóttir, móðir Jóns Hörgdals og amma Jónínu, sem hér getur næst, var fædd að Brúarlandi en andaðist 6. nóvember, 1886, á heimilisréttarlandi sínu við Hallsson, er lá rétt sunnan við bújörð Gísla Egilssonar. Erlendur hét bróðir hennar, maður greindur vel, gefinn fyrir lækningar og þótti nærfærinn við menn og skepnur, en var vinnumaður á Íslandi alla ævi sína. Hann flutti vestur til frændfólks síns í Dakota, 1883, og mun þá hafa verið 73 ára, því 1896 er hann talinn 86 ára og á þá heima að Garðar. Árni faðir þeirra systkina var sonur Jóns Péturssonar (1733—1801) læknis í Norðlendingafjórðungi, er bjó að Viðvík í Skagafirði,[3] og sagt er um, að gerði minni háttar kraftaverk með lækningum sínum. Hann var sonur Péturs þjóðhaga, er lengi bjó að Ytra-Hvarfi í Svarfaðardal (f. 1687); þá jörð átti þá Jón í Dæli í Skíðadal; borgaði Pétur honum leigur og landskuld (80 álnir) sum árin með smíðum frá 1725—1735. Sagt er einnig, að hann hafi búið í Aldahrygg, en mun nú ekki sannanlegt, og kirkjuna að Völlum á hann að hafa smíðað, þá, er bygð var að nýju 1861. Kona Péturs var Margrét yfirsetukona, systir Jóns skólakennara á Falstri, er Erlendur bóndi að Urðum, föðurbróðir þeirra, ól upp. Faðir þeirra var Illugi lögréttumaður og snikkari, er býr að Nesi í Höfðahverfi 1703, Jónsson, „sýslumanns“ að Urðum, ráðsmanns og umboðsmanns Hólastóls, en foreldrar Jóns voru Illugi Jónsson Hólaráðsmaður að Urðum (d. 1637) og kona hans Halldóra (systir Þorláks biskups) dóttir Skúla Einarssonar bónda að Eiríksstöðum í Svartárdal og konu hans Steinunnar laundóttur Guðbrandar biskups Þorlákssonar. Margrét húsfreyja á Ytra-Hvarfi var annáluð ljósmóðir, má vera að þangað hafi Jón sonur hennar sótt læknisgáfu en handlægnina til föður síns. Faðir Péturs var Jón smiður, er býr að Hnjúki í Skíðadal í Svarfaðardalshreppi, 1703, og vantar þá tvo

---

3) Munnmæli og sagnir um Jón Pétursson fjórðungslækni og suma ættmenn hans er að finna í missirisritinu **Saga** (Þ. Þ. Þ.), VI. ár, bls. 41—52, eftir þjóðsagnaritarann Þorstein timburmeistara Þorsteinsson (1826—1912), sem kendur er við Upsir og smíðaði flestar kirkjur og fjölda bæja í Svarfaðardal og gekk þar undir nafninu „Þorsteinn smiður“. Hann flutti til Canada, 1889, ásamt Friðrik syni sínum og fjölskyldu hans. Dvaldi Þorsteinn á Gimli í hlýjum vinarhúsum hjá systursyni sínum Hannesi kaupmanni Hannessyni Skagfirðingi, og konu hans Guðrúnu Jónsdóttur alþingismanns Samsonarsonar frá Keldudal í Hegranesi, þar til Hannes lézt. Fluttist Þorsteinn þá til Winnipeg og andaðist þar. Langamma hans í móðurætt var Solveig Oddsdóttir húsfreyja að Tungufelli í Svarfaðardal (1732—1813), sem komin var af „Melaætt“ eins og Jón læknir Pétursson.

vetur í sextugt, sonur Jóns smiðs á Melum og konu hans Þóru Pálsdóttur bónda á Hnjúki Þorbjörnssonar, sem er svarfdælsk bændaætt til Nikulásar Þormóðssonar prests að Upsum og príors á Möðruvöllum (á lífi 1521). Faðir Jóns smiðs á Melum var Oddur sterki bóndi þar, sem hin fjölmenna Melaætt er komin frá; var faðir hans Bjarni Sturluson lögréttumaður í Skagafirði og síðast bóndi að Melum í Svarfaðardal, er Steinn Dofri ættfræðingur rekur í beinan karllegg til Oddverja; en kona Bjarna og móðir Odds sterka á Melum, var Ingibjörg Pálsdóttir sýslumanns Grímssonar sýslumanns að Möðruvöllum, Pálssonar sýslumanns, Brandssonar lögmanns (d. 1490) Jónssonar.

Jónína Jónsdóttir Hörgdal, sem fyrr er getið, ólst upp hjá Karítas ömmu sinni og frændum í Hallsson. Hún giftist Þórarni syni Sigfúsar Bjarnasonar frá Staffelli í Fellum í Fljótsdalshéraði, er land nam í Dakota um fimm mílur vestur af Hensel, sumarið 1881. Jónína og Þórarinn fluttu til Canada og gerðust landnemar við Elfros í íslenzku Vatnabygðunum í Saskatchewan.

Árni (f. 1857) sonur Þorláks Björnsonar frá Fornhaga, er flutti vestur um haf, með foreldrum sínum og systkinum, 1874, frá Skeggsstöðum í Svarfaðardal, festi sér ekki land að svo stöddu í hinni nýnumdu nýlendu, er hann skoðaði um vorið, en valdi sér bújörð um fjórar mílur suðvestur af þorpinu Pembina, á öldumyndaðri, þurlendri hæð, sem landar nefndu „á Öldunni“. Þar voru landkostir fremur rýrir, en votlendi var í kring, sem Íslendingar voru orðnir svo þreyttir á úr Nýja-Íslandi, að þeir máttu það helzt ekki augum líta. En á láglendinu var ágæt gróðrarmold; urðu þar hin beztu akuryrkjulönd þegar bygð var hafin með brautum og framræslu. Þeim gengu Íslendingar fram hjá, en urðu brátt óánægðir með sína lélegu landkosti, þótt hærra væru settir á sléttunni, er þeir sáu nágranna sína ausa upp allsnægtum úr fyrrverandi forarpollum, er fyrstu íslenzku landnemarnir höfðu forsmáð og flúið. Fluttu margir þeirra af „Öldunni“ innan fárra ára og vestur í aðal-nýlenduna. Allar líkur benda til, að Árni hafi fyrstur Íslendinga þetta ár setzt að á landi sínu í Pembina, þótt foreldrar hans væru þá í Nýja-Íslandi, en þar voru þau hjónin mjög heilsulítil og Þórdís oftast við rúmið. Skýrir Þorlákur frá, eftir að Árni er kominn suður, að von sín sé öll þar sem hann sé. En frá Dakota skrifaði Árni honum: „. . . . Það verður annað hvort, að okkur gengur betur hér ef við getum náð fótfestu, ellegar það er öll von úti“. Og enn skrifar hann — sem bendir sumpart til, hvers vegna hann velur hærra landið til bólfestu: — „Það herðir á mér að taka hér land, að ég held að loftslagið sé hér hollara fyrir mömmu; það er svo þurt og hreint, landið liggur hátt og er vel þurt“. En um væntanlega burtför sína úr Nýja-Íslandi skrifar Þorlákur: „Ég skal ekki neita því að mér hefði verið það mikið kærara, að vera hér og geta átt von um góða framtíð, en sé þó á hinn bóginn, að ég hefi héðan lítils að sakna“. [Sbr. *Framfari*, II., 18., 9/4—'79]. — Sumarið 1879 munu foreldrar Árna hafa flutt sig suður til hans eða hann sótt þau, og Þorlákur numið þar

land. Þar bjuggu þeir feðgar aðeins fá ár unz þeir fluttu sig upp til Mountain og námu þar lönd á ný. Er þeirra hjóna áður minst í öðru bindi S. Í. í V. (bls. 272 og 3) og getið barna þeirra þar. Þorlákur Björnsson frá Fornhaga (1829—1888) og kona hans Þórdís Árnadóttir frá Syðra-Holti í Svarfaðardal (1836—1893) voru hin mestu sæmdarhjón, sem fengu alls staðar hinn bezta vitnisburð. Tóku þau mikinn og góðan þátt í fyrstu félagsmálum þessarar nýju bygðar sinnar, er þau nutu svo skamt. Var Þorlákur skýr maður, félagslyndur og hjálpsamur. — Þótt Árni sonur þeirra væri ungur, þegar þau flytja til bygðarinnar, er hann talinn „einn fyrsti brautryðjandi Íslendinga í Dakota", og tók mikinn þátt í ýmsum opinberum málum og fékk það orð, að vera „sérstaklega vel greindur, framtakssamur og duglegur". Árið 1890, var hann kosinn þingmaður í neðri deild þingsins í Norður Dakota, og sat á þingi veturinn 1891. Hann reyndist foreldrum sínum hinn bezti sonur bæði í Nýja-Íslandi og Dakota. Nokkuru eftir lát þeirra fór hann alfarinn úr bygðinni og gekk í þjónustu bankafélags eins í New York, og var bankastjóri yfir einu af útibúum þess.

Benedikt Jónsson Bardal, sem hér að framan er getið við flutninginn suður um vorið og minst í öðru bindi þessa safns (bls. 171) við árið 1873. Hann var bróðir Jóns úr Mjóadal og Gísla Dalmanns. Þegar rekstri nautgripanna var lokið suður, réð hann sig í árs vist hjá norskum bónda, er bjó skamt frá Pembina. Vorið eftir (1879), er hann með þeim allra fyrstu, er nemur land við Garðar, sem þá hét Park. Býr hann þar unz hann flytur vestur til íslenzku nýlendunnar í Alberta-fylki, Canada, 1888, og er í fyrsta hópnum, sem nemur þar lönd. Benedikt var iðjumaður mikill, hagsýnn og verklaginn. Manna var hann hjálpfúsastur til liðsinnis, þótt endurgjald væri óvíst. Lánaði hann getulausum löndum sínum austur í Ontario, þegfastast svarf að þeim þar [II. B., 202]. Kom hann að heiman með nokkur efni og einnig til Alberta frá Dakota, en varð þar nýkominn fyrir skakkafalli og ofríki útlends manns, sem segir í sögu Íslendinga í Alberta eftir J. J. H. (Alm. 1911, bls. 56—57). Kona hans, Sesilía Pálsdóttir, sem ættfærð er í öðru bindi, var bezta húsmóðir, dugleg og hirðusöm og studdi mann sinn af ráði og dáð í búskap sínum heima og í þremur nýlendum vestan hafs. Börn þeirra, er þroska náðu, voru fjórir drengir og ein stúlka: Júlíus; Jón Páll; Helgi; Árni; Guðrún, sem Baldur Stephansson átti, elzti sonur Stephans G. — skáldsins.

Jón Þórðarson hafnsögumanns frá Skeri á Látraströnd, Jónssonar. Sá bær er nú í eyði en stóð austan Eyjafjarðar í Þingeyjarsýslu móti norðurenda Hríseyjar. Er Jóns og Rósu Jónsdóttur konu hans frá Þverá í Staðarbygð í Eyjafirði, getið við vesturför, 1873, í öðru bindi (bls. 164) og víðar, og síðar getur þeirra vel og mikið við sögu-upphaf Íslendinga í Winnipeg, þar sem þau mega teljast frumkvöðlar að íslenzkum félagsmálum. Frá Winnipeg fóru þau seint á hausti, 1878, suður til Pembina með þrjú börn sín og það fjórða á leiðinni, en tvö þeirra önduðust á barnsaldri í Dakota. Bújörð sína valdi Jón sér suðvestur frá

Pembina, strax og hann kom suður. Er svo að skilja, að fleiri Íslendingar hafi setzt þar að um haustið, þótt nafngreindir verði þeir ekki með vissu, og annara þjóða menn hafi verið þarna nýkomnir á undan þeim og búið í grend við þá. Engin tök hafði Jón á, að reisa sér skýli á landinu um haustið, en leigði bjálkakofa, sem þar stóð skamt frá. Hann var með einum glugga á norðurhlið og því ekki hætt við ofbirtu. Vetrarforði var lítill og atvinna engin yfir veturinn nema lítils háttar við skógarhögg hjá landnemunum, sem þar höfðu setzt að. Kartöflur og brauð var helzt viðurværi, sem hægt var að afla sér, sem brást þó stundum, en aldrei nema dag og dag í einu. Um vorið bygði Jón íbúðarhús á landi sínu og þá fjölgaði íslenzkum landnemum kringum þau að stórum mun. Þeirra á meðal voru tveir bræður Rósu, Kristján, sem vestur flutti í sama hópi og hún [II. B.,164] og Þorsteinn, er kom vestur ári síðar [II. B., 271]; Arngrímur Jónsson frá Héðinshöfða [II. B., 276], þá nýkvæntur Helgu Sigurlínu Þorsteinsdóttur frá Mýrarlóni, sunnudagaskólakennara frá Winnipeg og frænku Rósu en systur Þorsteins, er vestur flytur 1874 [II. B., 270—271], komu þau ekki fyrr en um haustið suður; Páll Jóhannsson frá Víkingavatni [II. B., 180] og fleiri.[4] Trúlegt er, að Jóhanna Skaftadóttir læknis úr Reykjavík [II. B., 177] og fyrrverandi kennari frá Winnipeg, sem talin er með fullum sanni, að flytja til Pembina vorið 1879, hafi setzt að hjá fólki þessu, sem flest hafði starfað saman með henni að félags- og safnaðarmálum Íslendinga í Winnipeg, og hafi hún dvalið þar unz hún gerist landnemi vestur í aðal-nýlendunni. — 1882 fluttu þau Jón og Rósa á bújörð, er þau náðu eignarrétti [heimilisrétti?] á í íslenzku bygðinni neðan Pembinafjalla, miðja

---

4) Þótt sums staðar sé svo að orði komað Jón og Rósa hafi setzt að „skamt frá Pembina", þá er víst, að Páll frá Víkingavatni, sem talinn er einn af nágrönnum þeirra, tók sér jörð og hóf búskap, 1879, nálægt Tunguá um eða yfir níu mílur suðvestur frá Pembina, og eftir bréfi að dæma til **Framfara,** II., 20, er Jón Þórðarson skrifar 21. febrúar [1879] frá Carlisle, Pembina Co., er hann sjálfur ellefu mílur suðvestur frá Pembina bænum. Hefir sýnilega búið þar dálítill hópur Íslendinga á allra fyrstu árum í Dakota. Sýnir bréfið, að fleiri landar hafa flutt til Dakota, 1878, en nú er hægt að nafngreina, og að Jón sér hættuna, sem fram undan bíður fólksins allslausa, ef það hrúgast saman í stórum hópum á auða sléttuna, þar sem enginn getur öðrum bjargað, og hvergi atvinnu að fá nema óraveg í burtu. — Sá kafli bréfsins, er blaðið birtir, hljóðar á þessa leið:

„Land það, sem ég hefi séð hér, sýnist vera vel lagað til akuryrkju og heyskapar; skógur er aðeins dálítill með fram ánni [Tongue River], en þau lönd, sem hann er á, eru öll numin og næstu lönd við skóginn, frá Pembina[bænum] og upp hingað [11 mílur frá Pembina]. Skógur af einni ekru kostar hér $10, en 14 mílur hér fyrir ofan [nálægt Hallsson] hefi ég heyrt að hann væri seldur á $6 ekran. Hér í kring eru varla nokkurir, sem vilja selja skóg á þann hátt. Álmlogga[bjálka, trjáboli] í hús, 16—22 feta langa, hafa menn selt hér á 25 cent hvern, en kaupandi varð að höggva þá sjálfur. Þar eð ég hef lítið farið um land hér, þá get ég ekki gefið nákvæma lýsingu á því af sjálfsreynd. Oss löndum, sem hér eru, líður þolanlega að því sem mér er kunnugt. Hér í Pembina Co[unty] eru nær 40 Íslendingar ungir og gamlir; nokkurir þeirra hafa numið land. Hér hefir verið heldur litla atvinnu að fá í vetur, svo sumir af löndum hér hafa orðið að leita burt að fá sér vinnu. Flestir bændur hér eru aðeins búnir að vera hér 2—4 ár, og eru fæstir svo efnaðir, að þeir geti gefið vinnu að vetrinum. Mér dettur í hug, að það gæti má ske orðið erfitt fyrir fátæka og fákunnandi Íslendinga, ef þeir settust að í stórum hóp hér á sléttunum; og hvað snertir landa í Nýja-Íslandi, þá álít ég betra fyrir þá og hvern sem er búsettur, að skoða hér land sjálfur áður hann skiftir um bústað heldur en reiða sig alveg á annara sögusögn".

**Framfari,** 30. apríl 1879

vega milli Mountain og Garðar. Eftir hálft þriðja ár fluttu þau enn á aðra jörð, rétt fyrir austan Garðar og bjuggu þar í hálft áttunda ár. Þessa vetur vann Jón við hveitiverzlanir á Edinborg og Milton, en 1892 varð hann umsjónarmaður við hveiti- og timbur-verzlun í Hensel, smáþorpi með fram nýbygðri járnbraut milli Grafton og Cavalier. Hætti hann þá búskap og átti heima í Hensel í tíu ár. Árið 1902 fluttu þau hjónin til Esmond í Norður Dakota. Bjó þar Ingibjörg dóttir þeirra gift kona, er vestur flutti með þeim frá Eyjafirði, 1873. Þar hafði Jón á hendi hveitiverzlun unz hans lézt úr krabbameini, vorið 1911 — [11. maí segir í sögu Þórstínu, sem hér er stuðst við, en 12. marz stendur í *Alm.* O. S. Th.]. — Á löggjafarþingi N. D. átti Jón Þórðarson tvisvar sæti, 1899 og 1901. Hann var hvers manns hugljúfi og allra manna beztur félagsmaður. Rósa Jónsdóttir kona hans var kvenskörungur og dugnaðarkona hin mesta, enda er heimili þeirra orðlagt mest allra fyrir íslenzka risnu frá elztu tímum í Winnipeg; dvöldu þau þó þar ekki nema liðugt ár. En á þeim stutta tíma reistu þau að hún merki félagsandans frá Milwaukee yfir Íslendingum, sem enn er við lýði þótt stundum hafi fallið í hálfa stöng. — Börn þeirra hjóna, er fullorðin urðu: Ingibjörg, fædd heima, kona bankastjóra í Esmond, Richard Swengel að nafni; Jón, fæddur í Milwaukee, 1875, ráðsmaður félaga bæði í Regina og Winnipeg; Franklin, fæddur í leigða kofanum gluggalitla, veturinn 1879, fyrst skólakennari, síðan skólastjóri og svo fasteignasali vestur við Kyrrahaf; Ólöf, fædd 1884, átti amerískan skólakennara; Kristín, yngst, átti einnig annara þjóða mann. — Eftir að Jón Þórðarson andaðist, átti Rósa ekkja hans oftast heima vestur á Kyrrahafsströnd og varð háöldruð kona.

Gísli (1858[5]—1943) sonur Jóhanns óðalsbónda Bjarnasonar að Vigdísarstöðum á Vatnsnesi í Húnaþingi og konu hans Guðfinnu Gísladóttur. Til Kenmount í Ontario flutti Gísli 1874 og næsta ár til Nýja-Íslands [II. B., 261]. 1876—1877 vann hann ýmsa vinnu í Winnipeg, Selkirk og

---

5) Sbr. fæðingarár Gísla Jóhannssonar, 28. júní, 1858, í **Minningariti** ísl. í N.D.: „Þættir um fyrstu landnema í Dakota-bygðunum íslenzku“ eftir Árna Magnússon (að Hallsson, bls. 34). En á skrifuðum blöðum, sem Árni lét eftir sig, ritar hann að Gísli sé fæddur 1854, og 1852, og víðar ber minnisblöðum hans ekki alls kostar saman með ártöl og nöfn, en illmögulegt að vita nú hvoru blaðinu beri að treysta, og ef til vill eru öll þessi ártöl skökk, því í **Alm.** O. S. Th., 1944, bls. 125, er Gísli talinn fæddur að Vigdísarstöðum 29. júní, 1851 (d. 4. apríl, 1943); má því óhætt treysta ef það er fengið úr Kirkjubókunum heima — annars ekki. En Árni Magnússon ritaði eins og honum var skýrt frá, trúlega og samvizkusamlega, því hann var allra manna vandvirkastur og vandaðastur. Lengra verður stundum ekki komist hér megin hafsins, þar sem fylstu sönnunargögnin eru minni manna, og stundum getgátur, er orðið hafa að fullum sanni með tímanum. Annars er þetta „nýja Árna-safn“ yfir íslenzka búendur í Dakota hið merkilegasta á sína vísu, þótt í tómum brotum sé — það, sem mér hefir í hendur borist — og því erfitt fyrir ókunnuga að gera því full skil nema með afar mikilli yfirlegu, en er fróðlegt efni og góð undirstaða, að sérstakri og sérstæðri bændasögu Dakota-manna, sem orðið hefði fullkomnari og víðtækari en þær, sem enn hafa verið ritaðar, einkum ef honum sjálfum hefði enzt ævin, að raða safni sínu niður í réttar skorður, notið betri heilsu og átt við hægari kjör að búa meðan hann var að safna þessum heimildum, því hann vissi allra manna bezt á hvaða bletti á sléttunni hver bóndi hafði búið. Stóð honum þar enginn á sporði hvað þekkingu og nákvæmni snerti. — Safn Árna útvegaði mér að láni frá aðstandendum hans í Dakota Ólafur Pétursson Björnssonar umsýslumaður í Winnipeg.

víðar, og á gufubátum þeim, sem gengu eftir Rauðá. Sumarið 1878 var hann starfsmaður á gufubátnum Lady Ellen, sem flutti farangur Íslendinga og þá sjálfa frá Gimli til Winnipeg á leið til Dakota. Þá um sumarið kom hann upp í bygð Íslendinga við Hallsson með Jóni lækni Jónassyni og valdi sér heimilisréttarland í Akra sveit, en fjarri fór því, að hann flytti þangað alfarinn strax. Hélt hann aftur norður til Manitoba og gekk þar í þjónustu kaupmanns nokkurs að Park Creek. Vann hann þar við verzlun í tvö ár og önnur tvö í Winnipeg. Alfarinn flutti hann til Hallsson 1882, og bjó þar síðan á landi sínu þrjár mílur fyrir norðan þorpið; reisti hann þar strax stórhýsi að kalla mátti á þeim árum, sem fyrst var notað fyrir verzlunarbúð og síðar til íbúðar. Gerðist Gísli kaupmaður sama árið og hann settist þar um kyrt (1882) og var annar sá fyrsti þar. Hinn var Ásgeir Vídalín sonur Baldvins Helgasonar úr Cardwell nýlendu í Muskoka. [Sbr. II. B., 212]. Er frá því skýrt á einum stað, að Ásgeir hafi verið í félagi með Gísla Egilssyni, en sú verzlun stóð stutt. Gísli hætti kaupskap sínum næsta ár (1883) og stundaði síðan nálega alt af búskap í Hallsson-bygð, bæði akuryrkju og kvikfjárrækt, [„breeder of short horn cattle, shropshire sheep, angora goats“]. Nefndi hann óðal sitt „Silver Creek Stock Farm“. — Kona Gísla Jóhannssonar var Metta Elizabeth Nissdóttir Petersen og Sofíu Þorleifsdóttur. Var Metta fædd að Njálsstöðum á Skagaströnd, 1854, en lézt að heimili sínu í Hallsson, 8. desember, 1928. Börn þeirra sex (af níu): Ísabella, gift Jónasi K. Þorsteinssyni Ásmundssonar, Austfirðings; Hansína Friðrika; Sigríður Sofía; Percy Franklín; Pétur, Bjarni. — Albróðir Gísla, er Bjarni hét (f. 18/8 — 1861 að Vigdísarstöðum en alinn upp að Skarði á Vatnsnesi), flutti vestur um haf til Dakota, 1883. Hann nam land sama ár með forkaupsrétti (í Beaulieu-bygð) þar í nágrenni við bróður sinn, og annað land, 1886, með heimilisrétti, suður í bygðinni (Þingvallasveit). Bjó hann á því seinna landi í nokkur ár, en flutti þaðan norður á sína fyrri bújörð, og bjó þar í félagi með Gísla bróður sínum.

Jón læknir frá Skíðastöðum í Nýja- Íslandi, var fæddur að Syðra-Vatni í Tungusveit í Skagafirði, 19. desember, 1835, sonur Jónasar Jónssonar bónda að Syðra-Vatni (f. 1801), orðlags gáfumanns og sveitalæknis, og konu hans Sigurlaugar (f. 1800) Einarsdóttur frá Ytra-Vatni Bjarnasonar bónda í Borgargerði, Gunnarssonar sama staðar, Jónssonar. — Bróðir Jónasar hét Bjarni „skytta“, faðir Sigurðar bónda í Vatnsskarði, föður Sigurðar bónda á Geirmundarstöðum í Sæmundarhlíð (f. 1861). Jón „skytta“ Bjarnason í Álftagerði sunnan Víðimýri, faðir þeirra bræðra en afi Jóns læknis, var maður spakur að viti og gætinn. Bróðir hans var Bjarni á Sjávarborg, faðir Bjarna á Daðastöðum og síðar bónda í Höfn í Nýja-Íslandi og bygðastjóra í Árnesbygð, er getur í sögu þeirrar nýlendu, föður Þorkels prests að Reynivöllum í Kjós. Bjarni faðir þeirra bræðra bjó í Syðra-Vallholti, sonur Jóns hreppstjóra sama staðar, Bjarnasonar í Valadal, Björnssonar lögréttumanns í Stóradal, Hrólfssonar sýslumanns, Sigurðssonar sýslu-

manns, Hrólfssonar sterka að Álfgeirsvöllum, Bjarnasonar. Liggur sá ættbálkur til Lofts ríka og fram til flestra fornætta Íslendinga. — Jón læknir Jónasson flutti vestur um haf til Nýja-Íslands frá Saurbæ í Skagafirði, 1876, í sama hópi og Bjarni frá Daðastöðum, frændi hans. Hann ferðaðist til Dakota þetta sumar (1878) og valdi sér bújörð við Tunguá, skamt þar frá, sem nú er Akra-þorp, en flutti ekki alfarinn úr Nýja-Íslandi fyrr en árið eftir. — Fyrri kona Jóns var María (f. 1835) Rögnvaldsdóttir bónda að Skíðastöðum í Tungusveit (f. 1803) Þorvaldssonar á Kimbastöðum, Rögnvaldssonar hreppstjóra á Sauðá (d. 1790), Halldórssonar (f. 1693), sem býr að Ytra-Garðshorni í Svarfaðardal, 1735[6], Nikulássonar bónda sama staðar (f. 1653), sem býr þar ekkill, 1703, Þorsteinssonar, sem er bróðir Þorbjarnar föður Nikulásar, er býr að Ytra-Hvarfi, 1703, en sú ætt er rakin eftir fornum frásögnum til Nikulásar Þormóðssonar prests að Upsum og síðast príors að Möðruvöllum, sem nýrri ætta-rannsóknir ætla, að kominn væri frá Þorsteini Eyjólfssyni riddara, lögmanni og hirðstjóra að Urðum í Svarfaðardal. — Börn Maríu Rögnvaldsdóttur og Jóns læknis, þau þrjú af átta, er á legg komust: Jónas, sem fyrr er nefndur og hér getur næst á eftir; Anna Guðrún, kona Samsonar Bjarnasonar, er flutti suður næsta ár eins og þeir feðgar; Ingibjörg, sem átti Sigurður tónskáld Helgason söngfræðings Helgasonar frá Reykjavík, er búið hefir löngum við blíðu Kyrrahafsins og lyfti upp í söngvaveldi kvæði Matthíasar: „Skín við sólu Skagafjörður“.

— Jón Jónasson stundaði lækningar á Íslandi, í Nýja-Íslandi og í Dakota. Við Tunguá bjó hann í þrjú ár, en sumir telja, að hann hafi eitthvað dvalið í Pembina af þessum árum. 19. júlí, 1882, andaðist María kona hans. Varð honum sá missir að sár-

---

6) Þessi eru talin börn Halldórs í Ytra-Garðshorni: 1. Rögnvaldur hreppstjóri, fyrr nefndur, afi Maríu konu Jóns læknis; 2. Guðleif, móðir Halldóru á Melum í Svarfaðardal, móður Guðleifar [Gísladóttur prests að Tjörn, Magnússonar prests og skálds, „Svanurinn á Tjörn“, Einarssonar þar], móður Halldórs hreppstjóra á Melum Hallgrímssonar bónda þar, föður Hallgríms gagnfræðings og hreppstjóra á Melum, föður Halldórs, er þar býr nú; 3. Sigríður, móðir Jóns í Syðra-Garðshorni Sigfússonar frá Melum [Hólsætt til Krossa-, Hámundarstaða- og Öxnhóls-ættar], föður Jóns bónda í Syðra-Garðshorni, föður (a.) Jóns kapteins að Dvergasteini við Gimli, föður Sveinbjarnar Johnson prófessors, er ólst upp í íslenzku bygðunum í Dakota, og (b.) Sigfúsar bónda að Grund og Brekku, föður Snorra skólastjóra á Akureyri, föður Jóhannesar, er á flugi sveif yfir Winnipeg fyrir fám árum síðan og lærði þar þá list; 4. Björg, giftist fyrst Þorleifi Halldórssyni bónda að Búrfelli, síðar átti hún Þorlák Jónsson bónda að Grund; 5. Vigdís, kona Páls Pálssonar bónda að Gullbrekku í Eyjafirði; 6. Hálfdán bóndi að Hreiðarstaðakoti og Krosshóli, faðir Jón bónda að Krosshóli og síðar lengi efnabónda og meðhjálpara að Ytra-Hvarfi, föður Sigurðar bónda á Syðri-Másstöðum og víðar, föður Sigríðar seinni konu Þorkels Þorsteinssonar járnsmiðs og bónda að Skröflustöðum, Ytri-Másstöðum og Hofsá í Svarfaðardal, móður Sofoníasar verksmiðjueiganda í Winnipeg og hans alsystkina: Áskels í Hrísey á Eyjafirði, Jórunnar í Winnipeg, Svanfríðar í Vancouver, og Sigurjóns í Winnipeg; 7. Elín Halldórsdóttir móðir Jóns Johnsoníusar sýslumanns í Ísafjarðarsýslu (f. 1749, d. 1826), sem var maður hálærður, ágætt skáld og sneri Njálu á latínu. Hann mun hafa lært undir Hólaskóla á Urðum og vera þar til heimilis hjá Lárusi H. Scheving sýslumanni manntals árið, 1762. Maður Elínar og faðir Jóns sýslumanns var Jón bóndi Hálfdánarson. Þóttu þau hin mestu merkishjón, bjuggu fyrst að Urðum og síðar að Hreiðarsstöðum. Börn þeirra önnur en Jón sýslumaður: Halldóra, Jón og Þorgerður. — Dóttir Jóns Johnsoníusar er talin Margrét, er átti Björn Hallsson á Skriðulandi í Hörgárdal.

um harmi, en var áður aldrei laus við óyndi og heimþrá, frá því hann flutti vestur. Árið 1884, fór Jón til Íslands og mun ætlun hans hafa verið, að setjast að alkominn í Skagafirði og stunda þar lækningar, en hann var ekki lærður læknir og segir sagan, að héraðslæknirinn hafi ýfst við honum en Jón hörundssár og viðkvæmur. Undi hann sér þá ekki heldur heima lengur og fanst sér þar ofaukið, þrátt fyrir mikinn frændafla og vinarhug fólksins. Þar kvæntist Jón í annað sinn Jarþrúði Jónsdóttur, og flutti í öðru sinni frá Skagafirði vestur um haf, eftir ársdvöl heima. Settust þau hjónin að í Dakota. Þeirra börn tvö: Jón og Margrét. Skömmu eftir hina síðari vesturför andaðist Jón Jónasson úr fótameini í Hamilton (fyrir austan íslenzku nýlenduna) 23. júlí, 1886, hjá Önnu dóttur sinni og Samson manni hennar, og varð nýlendumönnum harmdauði. — „Hann var valmenni og einn meðal merkustu íslenzkra frumbyggja í Vesturheimi“, segir í sögu Þórstínu. En Jónas J. Húnford, sem þekti Jón vel, kveður hann hafa verið velgefinn mann um margt, bezta dreng í allri raun og gáfurnar skýrar og ljósar, lipurmenni og alúðarmann í allri framkomu við alla, og stundað lækningar sínar með alúð og vandvirkni og hepnast þær oftast vel.

Jónas, sonur Jóns læknis Jónassonar og Maríu Rögnvaldsdóttur, var fæddur á Syðsta-Vatni 16. marz, 1858, flutti frá Saurbæ með foreldrum sínum og systrum til Nýja-Íslands, 1876, og fór þaðan tvítugur með Jóhanni Hallssyni til Dakota, vorið 1878, en þaðan aftur til Nýja-Íslands um sumarið með föður sínum. Þaðan flutti hann alfarinn til Dakota næsta ár með fjölskyldunni. Hann var einn þeirra, er hjálpaði til þess, að byggja fyrsta bæ Jóhanns Hallssonar. Raunar hlóð hann þó ekki veggina né neytti smíðiskunnáttu sinnar, heldur hafði hann það starf á hendi, að halda kröftum þeirra við, er bisuðu við bjálkana. Var hann kjörinn matreiðslusveinn. Hefir hann svo lýst brauðgerð sinni, að hann hafi höggvið holu í trédrumb, sem hann fyllti með hveiti og bleytti í með vatni úr Tunguá og hnoðaði deig úr því, en úr deiginu bjó hann til flatkökur, sem hann síðan steikti við eld. [*N.D.-saga* Þórstínu, 26—27]. Og glatt á hjalla segir hann að verið hafi þá, þegar bjálkakofinn var reistur í sumarblíðunni. Mun það mála sannast, að framtíðarvonir þeirra félaga hafi reist sér höll í huga, meðan hendur þeirra smíðuðu lítinn kofa. Alls staðar blöstu við þeim ónotuð tækifæri, sem seinna átti að grípa í góðu tómi. „Þeir voru nýir menn í nýjum heimi. Sæluvonin eilífa stigin niður á jörðina til að rísa upp í mold hennar“. [*Vestmenn,* 258]. Þessir eru draumar landnemanna, sem hafa verið, eru og munu enn verða ríkjandi í nýjum landnámum, loftnámum og sænámum jarðarinnar, því þeir stafa frá sömu þörf mannlífsins og trúin á paradís og ríki himnanna. Og „nemi“ hinna nýju „náma“, má mikið ilt líða eins og hinn gamli, íslenzki landnámsmaður, svo það beri fagrar vonir framtíðarinnar ofurliði. — Jónas Jónsson nam land um tvær mílur austur frá Hallsson (í Akra-bygð). Var það næst austan við bújörð Sigurðar Jósúa. Til Alberta flutti

hann frá Dakota, 1889. Bjó hann í Calgary í fimm ár og vann þar við smíðar. Þaðan fór hann til íslenzku nýlendunnar norðan Red Deer og nam þar land að austanverðu við Medicine ána, þar sem Markerville er nú. Var sá bær bygður úr landi Jónasar. Þá bújörð valdi sér fyrstur Ólafur Ólafsson frá Espihóli, en bjó þar stutt. — Jónas kvæntist í Dakota, 1887, Ingibjörgu Arnveigu (f. 1865) Sigfúsdóttur bónda að Húsey í Hólmi Gíslasonar Skagfirðings og bónda sama staðar, Ólafssonar Borgfirðings, Bjarnasonar. Flutti Ingibjörg með foreldrum sínum frá Húsey til Nýja-Íslands, 1876, og þaðan aftur til Dakota um 1879. Börn þeirra hjóna: Sigfús Mozart; Árni Lawrence; Jón; Rannveig Frances. — Árið 1923, fluttu þau Jónas og Ingibjörg búferlum frá Alberta til Morden [Brown-bygðar] í Manitoba. — Jónasi er svo lýst af nafna sínum Hunford í Alberta, að hann sé vel gefinn að flestu og hagvirkur á alt, sem hann leggi hönd á; stefnufastur og sé óljúft að láta hlut sinn, og svipi um margt til forfeðra sinna; raunbezti maður, tryggur og vinfastur. — Hann andaðist að Betel á Gimli, 4. desember, 1930.

Guðni Tómasson Kristjánssonar, Ólafssonar Jónssonar, var fæddur að Snóksdal í Dalasýslu, 14. ágúst, 1855 [aðrir rita 1856]. Kona Tómasar og móðir Guðna var Björg (1828—1871) Ataníusardóttir Bjarnasonar og konu hans Bjargar Guðnadóttur frá Hlaðhamri við Hrútafjörð. Þóttu báðir þeir karlar, Atanasíus og Guðni, merkir menn á sinni tíð og greindir vel. Hyggja rýndir menn, að nafnið Guðni [Guðini] muni í fyrstu komið í ætt þessa frá hinum vestfirzku frændum, Guðna sýslumanni í Ögri og Guðna sýslumanni að Hóli í Bolungarvík, sem eru forfeður flestra Íslendinga (og líklega allra sannra Vestfirðinga) þótt ryk aldanna sé fallið yfir flest nöfnin í þeim ættatölum. Frá Snóksdal fluttu foreldrar Guðna að Tungu í Hörðudal, og þar ólst hann upp hjá þeim. Þau áttu fjórtán börn, en fæst þeirra náðu háum aldri; þó eru, auk Guðna, fyrir tæpum tuttugu árum síðan taldar tvær systur hans á lífi: Sigríður Helga og Margrét. Með bróður sínum, Tómasi Hirti, og föður sínum, Tómasi Kristjánssyni (1818—1912) flutti Guðni til Canada, 1876. Staðnæmdist hann í Ontario-fylki og var þar í Toronto-borg og víðar. Þaðan hélt hann sumarið 1877 til Winnipeg, en fór alfarinn þaðan til Dakota næsta ár (1878) og bjó í Pembina þar til næsta vor. Þar vann hann við að flytja póst á hestum milli Grand Forks og Pembina, því þá lá engin járnbraut til Pembina né St. Vincent. — Árið 1879, nam Guðni land með forkaupsrétti í Akra-sveit norðaustur af Hallsson, en 1885 tók hann sér aðra jörð með heimilisrétti í Advance-sveit og bjó þar átján ár, og 1903 flytur hann enn á bújörð, sem hann kaupir nálægt Svoldarpósthúsi (nefnt í Lamoure-sveit) og átti þá orðið 480 ekrur af landi þar í bygðunum. Þar andaðist Guðni við Svold, 14. desember, 1929 [aðrir rita 1930]. Kona Guðna (1879) var Margrét Sigurðardóttir Jónssonar, ættuð úr Haukadal í Dalasýslu (d. 1918). Börn þeirra tvö (af fjórum): Kristján Ágúst, bóndi þar í bygð, kvæntur Rebekku Benediktsdóttur; Sigríður Björg, gift Jóni Hanssyni Níelssonar, bónda þar í bygð.

# Úr bréfum Jóns Jónssonar

## frá Sleðbrjót

Eins og kunnugt er, hafa bréf Stephans G. Stephanssonar nú verið gefin út í 3 stórum bindum, hið merkilegasta safn. Bréfvinir hans voru margir, og er stórfróðlegt að fylgjast með þessum bréfaskiptum, er oft stóðu áratugi. Hvert bréf Stephans hefur til síns ágætis nokkuð, þó að þau séu auðvitað misjöfn bæði að efni og vöxtum. Einna ýtarlegust munu vera sum bréf hans til Jóns á Sleðbrjót, en með þeim tókust bréfaskipti árið 1913 og héldust, unz Jón dó árið 1923. Hafði Jón flutzt vestur um haf rúmlega fimmtugur að aldri (1903) og bjó fyrst í Álftavatnsbyggð, en síðar að Siglunesi. Hugur Jóns dvaldist þó löngum heima, því að þar hafði hann lifað og starfað öll sín beztu ár, setið á þingi árum saman og verið mikils metinn leiðtogi í byggðarlögum sínum austan lands. Hann hlaut því að sakna margs, er vestur kom, en reyndi að bæta sér það upp með ýmsu móti, svo sem lestri, ritstörfum — og bréfaskiptum við vini sína heima og þá menn vestan hafs, er hann þekkti að áhuga á málefnum Íslands. Er auðfundið, að fátt hefur orðið honum slík hugsvölun sem samband hans við Stephan G. Stephansson. Við hann gat hann rætt um allt, er honum var kærast, skáldskap og stjórnmál, bæði íslenzk og erlend eftir því, hvað efst var á baugi hverju sinni. Lét Jón sig talsvert skipta hérlend stjórnmál og ræðir þau oft af áhuga við Stephan.

Fundum þeirra Jóns og Stephans bar aldrei öðruvísi saman en í bréfum, og mætti um þá fundi rita langt mál. Er þess þó eigi kostur hér, heldur skulu aðeins birtir fáeinir kaflar úr bréfum Jóns til Stephans, svo sem í dálítilli minningu um vináttu þeirra og þau mál, er þeir báru mest fyrir brjósti. Er þess og skemmst að minnast, að sr. Albert Kristjánsson skrifaði grein um Jón í síðasta árgang Tímaritsins, en 2. nóv. 1952 voru liðin 100 ár frá fæðingu Jóns.

Bréfkaflarnir, sem ég hef valið, eru um ýmis efni, um Jón sjálfan, skáldskap og stjórnmál (hér þó aðeins íslenzk), en seinast árnaðarorð Jóns, er hann sendi Stephani á leið hans til Íslands vorið 1917.

Kaflarnir eru ekki teknir eftir aldri, heldur efni, og koma nú hver af öðrum.

*Finnbogi Guðmundsson*

9. júlí 1920

Ég hef nú „góðan tíma", eins og þeir segja hérna, í dag. Allt fólkið á sumargleðimóti unga fólksins og ég *einn* heima. Er svo vondur í fætinum, að ég treysti mér ei að stjákla þar í dag nema mér til skaða og þrautar á eftir. Ekki er það nú alveg af því ég geti ekki enn „kólnað í frosti og klökknað í yl og kunni ekki lengur að hlakka til". Ég hef enn dálítið gaman að horfa á ærsli hinna

yngri, þó mér þyki þau oftast helzt til andlaus og benda í skrílsáttina. En ég kann vel við mig einn heima, lifi í *mínum* heimi og hugsa mínar hugsanir.

9. apríl 1914

Hvort ég hef skilið lífsstefnu þína og skáldskaparstefnu rétt, að þínu áliti, veit ég ei. Ég dæmi eins og *ólærður* almúgamaður, með takmarkaðri þekking. Guðm. Friðjónsson skrifaði um þig ritdóm í Skírni. Ég las hann einu sinni fljótlega, var gestur og tók bókina, þegar aðrir voru háttaðir (ég fer á mis við margt vegna getuleysis að kaupa bækur). Guðm. fór þar með þig í hring, náttúrl. í góðu skyni, því þá unni hann þér og var ekki búinn að fá á sig þessa Haf-steiningu. Ég er ekki eins lærður og G. F. Og ég hef tekið beina línu í lífsskoðun þinni (ætla líka hún liggi *beint*). Og mig langar að segja þér hana nú, af því „þú liggur svo vel til höggsins“, eins og þú sagðir við mig!! Ég tek þín eigin orð að einkenna lífsskoðun þína. Þessi vísuorð:

Til æskumannsins:
*„Reyndu að safna þér sannfæringu,*
*þá sannfæring skaltu' ekki tauta oní bringu“*, o. s. frv.
Til manns á starfsárunum:
*„Að hugsa' ekki í árum, en öldum,*
*að alheimta ei daglaun á kvöldum“.* o. s. frv.

Til ellinnar í kvöldkyrrðinni:
*En þegar hinzt er allur dagur úti*
*og uppgerð skil,*
*og hvað sem kaupið veröld kann að virða*
*sem vann ég til:*
*í slíkri ró ég kysi mér að kveða*
*eins klökkvan brag,*
*og rétta heimi að síðstu sáttarhendi*
*um sólarlag.*

Í prósaisku máli:

Aflaðu þér sjálfur sannfæringar, og segðu hana einarðlega. — Lifðu til að gjöra heiminn betri. — Og skildu sáttur við alla. —

Þetta er mín einfalda alþýðumannsskoðun á skáldskaparstefnu þinni. Ég veit ei, hvort okkur kemur hér saman. — Býst við okkur kæmi saman í mörgu, ef við sæjumst. Og býst við, að við höfum sundurleitar skoðanir á ýmsu.[1])

25. júlí 1916

Gott þótti mér þér féll það vel í geð, að ég sendi Gutta heim, vona hann sé nú kominn heim[2]). Um hann sem skáld sagði ég eitthvað á þessa leið:

---

1) Í svari sínu við þessu bréfi Jóns segir Stephan G. m. a. (7. júní 1914): Enginn hefir víst tekið fram lífsstefnuna í ljóðum mínum eins létt og glöggt og þú í bréfinu, enda hefir mér aldrei fundizt þurfa að þræla viti sínu nein ósköp út til að finna hana. Ég þykist hvorki hafa verið svo orðvar né dulur á henni. Hitt var til: Það kom sér eitt sinn hentuglega við aldar hátt að brýna inn í fólk, að ég væri einkis meðfæri í að botna, ef ekki vegna „bulls“, þá vegna „ofvizku“, hvaða munur sem á því kann að vera. Á hitt hefi ég samt rekið mig, að réttir og sléttir alþýðumenn hafa lært utan að og skilið hárrétt vísur, sem lærðir rýnendur um þá hluti hafa kvartað um torskilning á, og ég farið að halda, að nokkuð af nauðinu um það væri lygi eða látalæti. En satt að segja, ég hefi miklu meira gaman en áhyggjur út af því, hvernig um ruglið mitt er dæmt. Veit, að ég bauð það eitt, sem ég átti skást til.

---

2) Hér mun Jón eiga við grein: Guttormur J. Guttormsson skáld í Nýja Íslandi, er hann hafði sent til Íslands og kom í XIV. árg. Óðins (1918).

„G. er viðurkenndur eitt hið bezta hinna yngri skálda hér vestan hafs, og það tel ég mér óhætt að fullyrða, að hjá engu hinna yngri skálda hér sést meiri framför. Hann er jafnvígur á háð og alvöru. Er ekki skáld neinnar klikku hvorki andlegrar né veraldlegrar. Hann yrkir „fyrir eigin reikning“. Hann þótti fyrst nokkuð svæsinn í ádeilum sínum, en í seinni tíð gætir hann meira hófs. Svo nú mun mega segja um hann líkt og sagt var um J. Thoroddsen í form. fyrir kvæðum hans, að „hann er snarphæðinn, en þó græskulaus“. Montið og reigginginn og gróðabrallsspillinguna og fyrirlitning fyrir íslenzku máli strýkur hann vægðarlaust með háðsvipu sinni, þar sem honum finnst bóla á þessum þjóðlöstum. En aftur er hann fullur lotningar fyrir því, sem gott er og göfugt. Um frumbyggjana ísl. yrkir hann með lotningu, og óskalandinu sínu, Nýja Ísl., syngur hann lof með sonarlegri viðkvæmni. Hann dregur skýrar myndir, þegar hann lýsir náttúrufegurðinni, eða hamförum náttúruaflanna, sem laða hug lesarans á sömu sjónarhæðina, sem skáldið sér myndina frá.“

23. ágúst 1918

Ég get ei stillt mig um að ónáða þig enn, setjast hjá þér og rabba við þig um Ísland. „Tíminn“ er nú búinn að færa mér sambandslögin nýju. Ég er barnglaður yfir þeim, og þess geldur þú, ég hef hér engan, sem *finnur til* með mér um þetta mál. Ójú, þeir eru glaðir, að Ísland sé nú frjálst, glaðir svona á sama hátt og þeir hefðu fengið tvílembda á, sem liti út fyrir, að fæddi lömbin, einhver vestur-íslenzk kviðfyllisgleði, en ég krefst meira. Ég vil *eldheita gleði,* og hana veit ég þú átt og þeir fáu, sem vilja „deyja oní Dýrafjörð“ (kæra þökk fyrir það kvæði). — Ég geng út frá því, að við séum samdóma um þessi nýju sambandslög. Mín skoðun er þessi: Hér eftir er það *óhrekjanlegt,* að Ísland er fullveðja ríki og fáninn *sýnilegt* tákn þess. Allt þetta sameiginlega eru *samningsatriði,* milli tveggja *jafnrétthárra aðila.* Auðvitað eru í samningnum „fínar“ taugar frá Dana hálfu til þess að tryggja afstöðu Danm. til Íslands fjárhagslega. En þar er Ísl. lagt í hendur að nota sér sjálfstæðisrétt sinn til að varast yfirgang Dana. Gjöri þeir það ekki, innlimi þeir sig andlega og fjárhagslega við Dani, sýnir það, að þeir eru ekki frelsinu vaxnir. Það er „fín“ aðvörun frá Tryggva í grein í Tímanum: „Fjárhagsleg innlimun“. Mér líkar vel, að milljónin fór til háskólans íslenzka. Hin milljónin er auðvitað andleg gildra til að veiða Íslendinga andlega, en getur orðið samt til góðs, ef allrar varúðar er gætt. — Jæja, svona lít ég nú á málið í *aðaldráttum.* Ég er ekki ríkisréttarfróður og þori ekki ei að segja um, hvað þetta ráðgjafanefndir, aðstoðarerindrekar o. fl. kann að geta leitt til. En það er allt samningsmál, breytanlegt, ef illa reynist.

10. febrúar 1921

Og hvað svo? *Heim* ætla ég fyrst að sveima. Þaðan hef ég ekki fengið blöð síðan seint í nóv., veit því lítið. Er spenntur að heyra, hvernig Reykjav. kosningin þrífætta fór. Mér virðist eftir síðustu ráðagerðum um útnefning þm. efna eins og Tíminn og Lögr. væru aftur að fjar-

lægjast. Jón Þorl. og E. Hjörl. eru hygg ég ekki Tímans menn, með þeim mælti Lögr. Hún er blað J. Magn., skilst mér, og P. Gauti eitthvað milli þeirra. Býst við grein Jónasar frá Hriflu og árás hans á J. M. útaf Ísl.banka auki „gapið" milli þeirra. En réttan tel ég Jónas, ef nokkur úrræði yrðu að kaupa Ísl.banka. En það mun erfitt, eins og sakir standa nú á Ísl. — og í heiminum. Mér virðist þetta alþingi muni verða örlagaríkasta þingið ísl. annað en þjóðf. 1851. Þá var verið að leggja grundvöll stjórnarfarslegs sjálfstæðis Íslands. Nú verið að leggja grundvöll *fjárhagslegs* sjálfstæðis Íslands, því enginn efi er á því, að gegnum Ísl.banka hafa Danir tök á að ná tangarhaldi á Ísl. fjárhagslega. Og nú eigum við engan *Jón Sigurðsson*. Hver verður nú þversumflokkurinn? með Ben. Sv. í broddi fylkingar? Ég bíð með óþreyju fréttanna. En þær koma ei fyrr en með vorfuglum.

17. maí 1917[1])

„Ég kem því aðeins til að kveðja þig og óska þér fararheilla *af heilum hug*. Það gleður mig svo ósegjanlega, að þú fer heim, þín vegna og ísl. þjóðarinnar heima, og ísl. þjóðernis. Mér finnst heimboðið til þín vera einhver allra gleðilegasti vottur um, að íslenzk þjóðernistilfinning sé að vakna og íslenzkur menningarþróttur að aukast.

— — —

Þú kemur heim í vorgróandann. Óska og vona þú finnir sama gróandann í þjóðlífinu eins og í jörðinni íslenzku í hlýjum júní.

Njóttu sem bezt barnsgleðinnar íslenzku! — því þó þú sért ekkert „barn í leik", þá veit ég af bréflegu viðkynningunni, að þú ert *barn Íslands* í innstu hjartarótum.

Heilsaðu frá mér fjöllum og döllum, brekkum og blómum og fólkinu öllu heima. Þegar ég hrekk upp af klökkum lífsins, vona ég að „deyja í Fellið".

Þinn einl.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót*

1) Þetta bréf náði Stephani í New York, á heimleið til Íslands.

---

# Úr Íslandsferð sumarið 1953

**Í Fnjóskadal**

Fljótsins róm og fossa nið
fugla óm og kliðinn
í árdags ljóma uni ég við
angan blóma og friðinn.

Man ég blíðan bjarkarsal,
blóm þar víða undu.
Man ég fríðan Fnjóskadal,
fjallahlíð og grundu.

Það er mér gleði þúsundföld —
þurfti lengi að bíða,
heilsa eftir hálfa öld
Hnjóskadalnum fríða.

**Síðasta kvöldið í Reykjavík**

Degi hallar, dvína ljós,
dvergahallir blána,
skuggar falla á fjöll og ós,
flesjur allar grána.

**Ásgeir Gíslason**

GÍSLI JÓNSSON:

# Fokdreifar úr ferðinni

sumarið 1952

## AÐ HEIMAN HEIM

*Enn var mér leyft að líta ið fagra vor*
*með laufguð tré og glaðan fuglasöng.*
*Enn var mér leyft að leika um*
*Huldu göng*
*og líta í anda gengin æskuspor.*
*Enn var það leyft — en óðum*
*styttir dag,*
*og áður varir komið sólarlag.*

Og svo var það einn bjartan og hlýjan vormorgun, að ég var sestur innan rifja eins afarmikils flugdreka, eins og Jónas í maga hvalsins forðum daga. Drekinn rumdi og stundi, jörðin skalf og titraði, þaut aftur á bak, reistist á rönd og hvarf niður, niður undan vængjum drekans. Húsin urðu eins og lítil brúðuhús, sem syfjuð börn skilja eftir á grænum gólfdúk að kvöldi. Árnar lágu mógráar og hreyfingarlausar líkt og hlykkjóttir höggormar í grasi. Jörðin sökk dýpra og dýpra, og bráðum sáust brúnir klettar með óteljandi pollum, tjörnum og vötnum á milli. Skýjað loft, en alt í einu voru öll skýin fyrir neðan og sólin skínandi í heiði. Ofan frá séð í sólskini eru skýin ógurlega hvít, eins og hvítfyssandi hafrót hefði frosið og stirðnað á augnabliki. Skýjabakkarnir urðu nú brátt aftur úr lestinni og fyrir neðan blasa við anga-lítil býli, grænir akrar, plægð jörð og skógarbelti, sem skiftast eins og reitir á taflborði. Vegirnir sýndust mjórri en skóþvengir og bílarnir smærri en kóngulær, trítlandi á þeim í ýmsar áttir. Nokkru síðar óbotnandi þokuhaf, og að afhallandi degi yfir New York borg. Þar uppi var þetta kveðið:

*Rísa úr hafi hamratröll*
*hjúpuð þokuböndum.*
*Það eru ramgjör risafjöll*
*reist af manna höndum.*

Næsta dag um hádegi aftur upp í háloftin og útnorður í haf. Stansað í Ný-fundna-landi í ljósaskiftunum um stund. Og eftir að nóttin hafði gleypt okkur þarna á eyðileiðum loftsins, fimtán þúsund fet fyrir ofan hafflötinn, sátu menn og skeggræddu yfir amerískum „cocktail" og kvöldverði. Brátt heyrðust engin hljóð nema hinn voldugi hjartsláttur flugdrekans, sem vaggaði okkur í blund. Ekki veit ég hve lengi var sofið, áður en ég hrökk upp við það, að undarlegum bjarma sló inn um vesturgluggann.

Júní-nóttin hafði kveikt varðelda sína í norðrinu.

Við vorum í nálægð við Ísland.

Draumurinn var að rætast.

Og innan stundar steyptist drekinn niður úr þokumekki og spúði okkur út á Keflavíkurflugvelli. Klukkan var tvö um nóttina. Sólin skein í gegnum skýjarofin, en kaldur gustur blés af hafinu. Inni í gildaskálanum, þar sem tollskoðun fór að nafni til fram, var alt á ferð og flugi. Meðan ég beið, varð mér litið um

öxl. Sá ég þá hinumegin við glervegg hlæjandi andlit þeirra Eggerts læknis Steinþórssonar og frú Gerðar konu hans. Þau höfðu keyrt um nóttina út á Reykjanes-tá til að taka á móti mér. Var það mér óvæntur fagnaðarfundur. Þau fluttu mig svo heim til sín í glaða sólskini um nóttina.

## HEIMA

Hér ætla ég þá að á um stund með Ísland undir fótum. Ekki er til þess stofnað, að þetta verði samfeld ferðasaga. Aðeins langar mig til að rifja upp ýmislegt, sem fyrir augu og eyru bar og reyna að sýna það í því ljósi, er ég sá það. Verður því stiklað á steinum. Af því stafar það, að nöfn fólks, er ég fann og kyntist, verða fæst talin. Kann það að skoðast vanþakklæti, þótt svo sé ekki. Þessu til skýringar vil ég geta, að ég á tvo bræður á Íslandi, seytján bræðrabörn og frændalið enn fleira, auk gamals og nýs vinafólks þar og héðan að vestan. „Það þýðir ekki að þylja nöfnin tóm“. Hlýjar minningar endast lengur en jafnvel nöfnin. Þær vara beint eða óbeint til daganna enda. Ef til vill er það líka ein aðalástæðan fyrir því, að svona ferðapistlar eru yfirleitt þurrir og leiðinlegir, að ekki er hægt að setja á pappír það sem oft varðar mestu — einlæga velvild, gleðibros í auga, heitt handtak, hnyttin svör. Já, jafnvel þögnin, þeirra sem eru manni einhuga, getur veitt huganum fögnuð og hjartanu fró, en verður þó aldrei í orðum skýrð.

Mín lífstíð er á fleygiferð, segir sálmaskáldið. Það er í rauninni varla í frásögur færandi, þótt menn fari úr einum stað í annan. Fólk ferðast í ýmsum tilgangi eða fyrir breytilegar ástæður; og ef menn verða ekki fyrir vonbrigðum, er vel að verið.

Síðan ég hætti að vera nokkurri sál að liði, hefi ég verið að flækjast af og til um þetta mikla meginland. Ég hefi farið yfir sléttur, stórvötn og fjöll Austur-Kanada og Bandaríkjanna — undra fagurt og víðfaðma land — ég hefi séð öldur Atlantshafsins velta sér voldugar og hvítfextar upp að austurströndinni, en snúið þaðan kaldur í hjarta. Ég hefi farið á járnbrautum vestur yfir sléttuna miklu, gegnum dali og hamragöng Klettafjallanna, ég hefi einnig flogið yfir hæstu brúnir þeirra í litilli tinkrús og undrast víðáttuna og hrikafegurðina, en samt altaf fundist eitthvað á vanta, eitthvað, sem ég þó gat ekki gjört mér fulla grein fyrir. Í sumar fann ég það — í sumar varð það mér ljóst. *Á Íslandi er maður aldrei einn.* Þar fer maður aldrei svo um, að ekki þyrpist í kringum mann ósýnilegar herfylkingar liðinna alda — alla leið frá fyrstu landnámsmönnum og söguhetjum, sem settu svip sinn á landið, gáfu bygðum og bæjum, ám og vötnum, fjörðum og fjöllum nöfn og landamerki, sem mótuðu hugsunarhátt fólksins niður aldirnar, gáfu þeim, sem flestra veraldlegra gæða fóru á mis, heim ævintýra og glæstra hugsjóna, fyltu hvern forsæludal fjölbreyttum lifandi myndum, hvern hamar og klett ósýnilegum verum. Og þá eru það ekki síst skáldin, sem standa manni við hlið, þegar hættast er við, að hugurinn dotti og auganu slóvgist sýn.

Mig langar til að taka ykkur með

mér í smáferðir út um landið í fylgd þessara ósýnilegu leiðsögumanna. En fyrst verð ég þó að hinkra við í Reykjavík og kynna mér borgina.

INGÓLFSBÆR

*Hér lét hann byggja, Íslands fyrsti faðir,*
*á frjálsri tíð með heimild eigin valds.*
*Nú skiptast ættmenn Ingólfs þétt í raðir*
*á ysta, síðsta þremi tjóns og falls.*
*Hér verður haldið hæsta landsins merki*
*og hér skal falla utanstraumsins hrönn.*
*Vor fremsti bær skal fremstur standa í verki,*
*með Fróni er Víkin dygg og trygg og sönn.*

og að lokum

*Þar stendur fólkið fast sem bjarg í öldum*
*og fremsta vörðinn heldur Ingólfsbær.*

Svo nefnir Einar Reykjavík í kvæði þessu samnefndu. Borgin goðborna! datt mér í hug. Engin borg á jarðríki á samskonar uppruna né sögu. Guðirnir vísa fyrsta landnámsmanni þar á bústað og geyma hann svo í minni sögunnar þangað til 19. öldin gjörir hann að höfuðstað og tuttugasta öldin tekur hann í fang sér og breytir honum í stórborg, á íslenzkan mælikvarða, með meira en þriðjungi allra íbúa landsins.

Þegar ég kom fyrst til Reykjavíkur vorið 1897, ísrekinn og sjóhrakinn á dönsku skipi, voru þar um 5000 manns. Helst man ég eftir Dómkirkjunni og Alþingishúsinu, sem bæði eru með sömu ummerkjum enn og sýndust þá stórbyggingar. Á Austurvelli stóð Thorvaldsen og var völlurinn nýtaddur og angaði af áburðinum, eins og stendur í Alþingisrímunum. Að tjörninni lágu mýrasund og úr henni rann lækur til sjávar. Yfir hann lá lítil plankabrú upp að Latínuskólanum. Bryggjan, sem við lentum við, hallaðist út í sjóinn og vatnaði yfir sporðinn við flóð. Helsta strætið, sem ég man eftir, var Austurstræti, Bankastræti og Laugavegur, sem mér þótti kynlegt, að bæri þrjú nöfn, þar sem þau eru eitt áframhaldandi stræti. Þar var opið ræsi fram með húsunum fult af skólpi og ýmsu rusli.

Þegar blaðamenn voru að spyrja í sumar um álit mitt á landi og þjóð og breytingum síðasta aldarhelmings, svaraði ég víst sjaldan af miklu viti. En það virtist ekki gera neinn mismun. Þeir bjuggu til fyrir mig vinsamleg svör og klöppuðu mér allir á vangann í orðum og atlotum. En það, sem hvorki ég né aðrir mintust á, var undrið mikla, kraftaverkið, að á síðustu fimmtíu árum reis Reykjavík úr rústum lítils vanrækts sjávarþorps upp í þrifalegan nýtískubæ, með holræsi, vatnsleiðslu, rafurmagn og hitun húsa frá kyngimögnum undirheima — og höfn, sem miklu mannfleiri borgir gætu verið stoltar af. Öll hin nýrri stræti eru breið og vel lögð, þótt, vegna hins öra vaxtar, mikið vanti á með gangstéttir og malbik. Lækurinn er fyrir löngu kominn í lokræsi og í stað hans breitt stræti — Lækjargata og Lækjartorg. Tjarnarbakkarnir hafa verið hlaðnir upp og hólmar bygðir. Þar synda svanir og endur. Yfir tjörnina sunnanverða er brú —

framhald af einu strætinu. Suður með tjörninni austanverðri er hljómskálagarðurinn, svonefndi. Þar er standmynd Jónasar Hallgrímssonar og stytta Thorvaldsens, sem áður stóð á Austurvelli, en í litlum hólma suður í mýrinni er Þorfinnur Karlsefni og hvergi gengt að honum. Í garðinum eru birkihríslur og blómabeðir. Þar hlyntu að blómunum fallegar, ljóshærðar, buxnaklæddar stúlkur á skólaaldri, og hlýnaði manni um hjartaræturnar að sjá börnin og blómin í samræmi. Á Austurvelli miðjum er nú standmynd Jóns Sigurðssonar. Er völlurinn blómum skreyttur umhverfis styttuna og fram með gangstígum, og er mjög snyrtilegur, þó lítill sé. Uppi á Arnarhóli er mynd Ingólfs Arnarsonar. Þar nálægt mun bær Ingólfs hafa staðið og hóllinn hlotið nafn föður hans. Nær Lækjartorginu standa Kristján konungur IX. og Hannes Hafstein. En lengst austur á Skólavörðuhæð stendur Leifur hepni í stafni.

Reykjavík hefir þanið sig út um öll andnes, hæðir og dældir, svo í fljótu bragði mætti ætla, að hún væri helmingi fólksfleiri. Húsin eru traustlega bygð, en þó fremur þunglamaleg útlits, sem kann að stafa af því, að þau eru nú öll eða flest gerð úr sandsteypu. Tígulsteinn sést þar ekki, og ætti þó að vera hægt að baka hann úr hinum rauðbrúna leir, sem landið er fult af. Stílhreinustu byggingarnar eru þjóðleikhúsið og háskólinn. Gæti það með nauðsynlegum tilbreytingum orðið framtíðar byggingar stíll þjóðarinnar, engu síður en burstirnar og þaksundin. Sannfærðist ég betur um það, eftir að ég hafði litið Dyrfjöllin og Herðubreið að nýu, og básana í Grímsey, Ásbyrgi og gljúfrin að sumum jökulánum í landinu. Mætti það þá með réttu kallast stuðlabergsstíll.

Við hafnarbakkann leggjast daglega innlend og útlend skip, með farþega og varning; á höfninni byggist verslun og fiskiveiðar landsins, og að nokkru leyti iðnaðurinn. Ekki veit ég hve stór fiskiflotinn er, sem leitar þar hafnar, né heldur verslunin, en megn atvinnunnar hlýtur að standa þar eða falla. Ótrúlega margir atvinnuvegir hafa þó risið þar upp. Var mér sagt að yfir 50 iðnaðargreinir væru reknar þar. Skömmu áður en ég flaug vestur var opnuð iðnaðarsýning í geysistóru nýbygðu skólahúsi. Dvaldi ég þar eina kvöldstund og hefði komið þangað oftar, ef tími hefði leyft. Yfir 200 þátttakendur voru taldir í sýningunni. Sérstakur salur sýndi „Innréttingar“ Skúla Magnússonar, í 200 ára minningu þeirra. Yfir dyrum margra sýningarskálanna voru einkunnarorð úr kvæðum skáldanna, og fanst mér það kynleg mótsetning við það, sem svo margir voru að koma mér í trú um, að enginn læsi né kærði sig lengur um ljóð á Íslandi.

Á sólheiðum síð-júní nóttum er yndislegt um að litast í Reykjavík. Eina slíka nótt var ég á ferð ofan úr Öskjuhlíð og niður á Tjarnarbrú, og undraðist litafegurðina. Sjaldan hefi ég saknað þess meira, hversu orðfá íslenskan er um liti og litbrigði. Það stoðar lítið að tauta fyrir munni sér: „gulur, rauður, grænn og blár“, þegar maður stendur í „musteri allrar dýrðar“, baðaður í ljósflóði þeirra lita, sem ekki verða

skýrðir nema helst með samlíkingu við gimsteina, páfuglafjaðrir og sólvakin suðurlanda blóm, sem engin íslensk nöfn eiga. Handan við sundið stóð „náttklædd Esjan ofanlút" í fölvum fjólustakki, lengra til norðurs reis sólin hálf í eldskýi, sem kastaði gullbryddingum á brúnir Akrafjalls. Fyrir fótum mér lá Tjörnin eins og glóandi eldhaf. Svanirnir höfðu gengið til sængur í hólmunum, en fáeinar endur syntu í hring í sefinu með nef undir væng. Lengst í vestri rís Snæfellsjökull eins og fágaður gullskjöldur handan við hinn breiða Faxaflóa. En hann er eins og stórar hugsjónir — hann situr tíðast undir huliðshjálmi og birtist sjaldan sjónum manna.

Fyrsta sunnudagsmorguninn í Reykjavík gekk ég einn í borgina hljóðu, þar sem íbúarnir sofa draumlaust svefninum langa — og steinarnir tala. Mig langaði til að heilsa í anda þeim mörgu, sem þar dvelja og leitt hafa mig ósýnilega við hönd í gegnum lífið — kennarana, stjórnmálamennina, rithöfundana, skáldin, listamennina — menn, sem orpið hafa ljóma yfir þjóðlífið, lýst inn í myrkraskot mannsandans og varnað því, að þjóðin hyrfi í gleymskuhaf ómenningarinnar. Í dauðanum verða allir jafnir, segir gamalt máltæki. En fyrir augum lifandi fólks er nú mismunurinn samt býsna áberandi. Stærð steinanna virðist ekki ávalt fara eftir stærð og verðleikum þeirra, sem undir liggja. Sumir, sem dýpst spor hafa markað í þjóðlífinu, eiga þar nafnlausa gröf. Til dæmis labbaði ég fram og aftur um grafreitinn til að leita að gröf Sveinbjörns tónskálds, sem ég hafði lært að dást að fyrir verk hans og þykja vænt um af persónulegri viðkynningu, en fann hana hvergi.* Ég hefði samt að líkindum gengið oftar í grafreitinn, ef ekki hefði komið fyrir atvik, sem ég var einn sjónarvottur að. Ég stóð hjá leiði Þorsteins Erlingssonar og var að hugleiða hversu örlagarík áhrif kvæði hans hin fyrstu höfðu haft á hugsanalíf mitt og íslenskrar æsku í heild sinni fyrir og um síðustu aldamót, þegar stór maður og gervilegur, klæddur á ameríska vísu, gekk fram hjá á leið út úr garðinum. Hann leiddi dálítinn ljóshærðan hrokkinkoll við hönd. Alt í einu stansaði litli stúfur, greip utan um hné föður síns og sagði eitthvað, sem ég heyrði ekki. Svarið heyrði ég: „Ó, langar litla karl að pissa upp við steininn". Þegar þeir voru farnir gekk ég þangað og sá, að dreypifórnina hafði fengið Sigurður Breiðfjörð. „Á feðranna moldir er mígið", sagði sá góði biskup.

Skemtanir og félagsstörf voru að mestu á þrotum, þegar ég kom heim, fólk var óðum að flytja úr borginni út í sveitir og sumarbústaði. Svo voru líka forsetakosningar í aðsigi og um fátt annað hugsað eða talað. Samt stóð nú fullveldisdagurinn, 17. júní, fyrir dyrum. Hann reis úr ægi bjartur og fagur. Byrjuðu hátíðahöldin með skrúðgöngu um bæinn og inn á Austurvöll. Ræður voru haldnar yfir hátalara af svölum Alþingishússins og blómsveigar lagðir að fótstalli Jóns Sigurðssonar. Múgurinn fylti völlinn og öll nærliggj-

---

*) Löngu eftir að þetta var skrifað kemur nú sú fregn í blöðum að heiman, að ríkisstjórnin hafi reist stein á gröf Sveinbjarnar — stuðlabergsstólpa, með eirmynd tónskáldsins greypta inn í bergið.

andi stræti. Seinna fór ég í boði vinar míns í Þjóðleikhúsið og hlustaði og horfði á frumsýningu af Leðurblöðkunni eftir Johan Strauss í íslenskri þýðingu, sungna af íslensku söngfólki. Var það hin besta skemtun. Seinna um kvöldið hófst söngur og dans á strætunum í niðurbænum og stóð langt fram á nótt. Virtust allir fara glaðir heim í sólskininu undir morguninn. Var óneitanlega gaman að sjá þúsundir manna og kvenna sleppa fram úr sér beislinu og gleðjast svona óþvingað í minningu endurheimts sjálfstæðis. Nokkru seinna sendi félag íslenskra organleikara mér aðgangsleyfi að fimmta móti norrænna kirkjutónlistarmanna, sem fór fram í dómkirkjunni 3.—10. júlí. Voru þátttakendurnir, auk Íslendinga, frá Danmörku, Noregi, Finnlandi, Svíþjóð og Færeyjum. Fór þar alt mjög virðulega fram og sumt beinlínis af list.

Samkvæmi og vinaboð verða ekki talin hér. Samt verð ég að geta þess, að Austfirðingafélagið hélt mér kveðjusamsæti kvöldinu áður en ég flaug, og í vikunni áður sat ég að miðdagsverði með forsetahjónunum á Bessastöðum. Sóttu þau mig persónulega, ásamt gestgjafa mínum, og skiluðu mér til baka. Voru þau bæði hin ástúðlegustu. Taldi ég það sérstakan vináttuvott til Vestur-Íslendinga, því mig þektu þau varla frá fuglunum, sem koma og fara á hverju sumri.

Hér verður nú aftur tekinn upp þráðurinn, og skygnst um víðsvegar út um landið.

KRÍSUVÍK — HAFNARFJÖRÐUR

„Til ills fórum vér um góð héruð, er vér skulum byggja útnes þetta", sagði Karli þræll Ingólfs landnámsmanns, þegar þeir fundu öndvegissúlurnar í víkinni undir Arnarhól, þar sem nú stendur Reykjavík. Þeir höfðu ferðast um hið breiða og frjósama Suðurlandsundirlendi og námu staðar þarna skamt frá vesturjaðri Reykjaness hraunsins. Karli hafði vitanlega á réttu að standa frá búmannlegu sjónarmiði. En Ingólfur var trúmaður mikill og hugsjónamaður. Hann sá réttilega, að bygð í nýu landi gat ekki þróast, ef menningargrundvöllur ættstofnsins og ættarerfðir væru bornar fyrir borð; og grundvöllur hins norræna kyns hefir ávalt verið heimilið, heimilismenningin, og öndvegissúlurnar ímynd þess.

Samt langaði mig nú að hallast að skoðun Karla, þegar þrjár bróðurdætur mínar og bændur þeirra fóru með mig þvert yfir Reykjaneshraunið á leið til Krísuvíkur. Ekkert getur verið ömurlegra á jarðríki en íslensk brunahraun. Síðar átti það fyrir mér að liggja að leggja leið yfir og í kringum fleiri af þeim — svo sem Mývatnsöræfin, Mývatnssveitina, Bárðardalinn út undir sjó, í Borgarfirði syðra, er komið er ofan af Holtavörðuheiði, og víðar, að maður ekki gleymi Þingvöllum. Á Reykjanesinu eru engar ár eða lækir — öll vötn renna þar neðan jarðar. Eitt lítið stöðuvatn sá ég þar í dalhvos. Kann það að hafa verið eldgígur, sem seinna fyltist vatni. Í Krísuvík eru sjóðandi leirpyttir, viðbjóðslegir grautarpottar, sem sterka fýlu leggur af. Boraðar hafa verið þar tvær eða fleiri holur til að kanna jarðhitann. Senda þær gufustróka hátt í loft upp, og heyrist ekki mannsins mál fyrir hávaðanum.

Er ráðgert að nytja gufuaflið á einhvern hátt.

Hafnarfjörður er umkringdur hrauninu. Þar er nú allstór bær. Þar er sjaldgæfur skemtigarður, djúp hraunhvos, kölluð Hellisgerði, í botni þess er lítill pollur með gosbrunni, í hraunsprungunum eru ræktuð blóm og skrautjurtir. Í bænum var og er hinn gamli Flensborgarskóli. Þar er og hin stærsta og ef til vill eina raftækjaverksmiðja landsins. Einnig er þar allmikill útvegur. Ég kom oft í Hafnarfjörð eftir þetta, og átti þar óvæntum vinafagnaði að mæta.

## HERDÍSARVÍK — STRANDARKIRKJA

*Örlög þegar ýfast myrk*
*og að oss baki snúa,*
*þá er eina stoðin styrk*
*á Strandarkirkju að trúa.*

Þessari vísu slepti Grímur úr kvæðinu um Strandarkirkju, þegar kvæðabók hans var prentuð — hefir líklega þótt hún stinga í stúf við önnur erindi kvæðisins. Hér er ég nú með Sigurjóni bróður mínum, tveim sonum hans og tengdadóttur á ferð austur um sveitir. Er þá fyrst áð í Herdísarvík, þar sem skáldið Einar Benediktsson eyddi síðustu árum ævinnar. Síðan hann leið hefir öldruð kona, sem annaðist hann, verið þar einsetukona. Hún segir sér leiðist ekki, því andi Einars sé þar í kringum sig. Hún þverneitaði því, að sálarkraftar Einars hafi nokkurn tíma þornað — aðeins líkaminn hrörnað. Hún var nýlega búin að senda bókasafn hans og handrit til háskóla Íslands, og sýndi háskólabókavörður mér sumt af því sjaldgæfasta nokkru síðar. Eftir voru skrifborð hans, óríkmannlegt, og stóll, gamall og slitinn, sem þó hafði einhverntíma séð fífil sinn fegri. Konan heitir Hlín og er dóttir Jóns og Þórdísar Eldon, sem áttu heima hér vestra — gáfuð kona og orðheppin, eins og hún átti kyn til.

Næst var áð við Strandarkirkju. Hún er einhver auðugasta kirkja landsins og dafnar á hjátrú fólksins — áheitunum. Þjóðsagan segir, að engill hafi haldið á ljósi og vísað Gissuri hvíta og föruneyti hans á höfn í sjávarháska, eftir að hann hafi heitið að reisa kirkju guði til dýrðar í bjarglaun. Kirkjan var reist, því eins og Grímur komst að orði:

*Þá var tíska orð og eið*
*allan vel að halda.*

Stytta hefir verið reist þar nýlega, sem tákna á engilinn. Er það steinstólpi með konuandliti, en engan hafði hún þó kyndil á lofti. Hún minti mig því meira á konu Lots.

## SELFOSS — SOGIÐ

*Þunga sigursöngva*
*söng hér elfan löngum,*
*köld í voðaveldi*
*vegu sleit hún sveita.*

Við Ölfusá er fremur laglegt sveitaþorp, sem heitir Selfoss, en hefði betur átt að heita Ölfoss í samræmi við árheitið. Stærstu byggingar þar tilheyra samvinnufélögunum, sem virðast vera að gleypa alla fjársýslu og verslun landsins. Þar er Ölfusárbrúin hin nýa, falleg brú og traust, en mun styttri en ég hafði ímyndað mér. Er hún ein af þremur brúm landsins, sem ég fór um og ekki minnir á hestagötur og kotbúskap. Hinar

tvær eru á Þjórsá og Jökulsá á Fjöllum. Til hliðar, litlu neðar, sjást vegsummerki gömlu brúarinnar, sem Tryggvi Gunnarsson reisti seint á nítjándu öldinni og gaf Hannesi Hafstein tilefni kvæðisins. Minning Tryggva er enn græn á Selfossi. Þar er Tryggvagata og þar við brúarsporðinn er hressingarskáli, sem heitir Tryggvaskáli. Hann er skreyttur listaverkum eftir íslenska málara. Starsýnst varð mér á töfradraum Kjarvals í Almannagjá.

Þaðan lá leið undir Ingólfsfelli vestan ár, eins og Landnáma kemst að orði. Bætir hún við: „Þar sem sumir segja hann sé heygður". Þjóðsagan hefir nú lagað þetta svo, að Ingólfur sé heygður uppi á fjallinu. Kemur maður nú brátt upp að Soginu. Það á upptök sín í Þingvallavatni og er ein hin fegursta og vatnsmesta bergvatnsá á landinu, en um leið einhver hin styttsta. Þingvallavatn er talið stærsta stöðuvatn landsins, og þó ekki stórt. Í það renna engar ár eða lækir, nema ef telja skyldi Öxará á Þingvelli. Vatnsmagn Sogsins hlýtur því að berast til vatnsins neðan jarðar, enda gjörir Jónas glögga grein fyrir því í kvæðinu Skjaldbreið:

*Vötnin öll, sem áður féllu*
*undan hárri fjallaþröng,*
*skelfast, dimri hulin hellu,*
*hrekjast fram um undirgöng.*

Í Soginu eru stærstu rafvirkjanir landsins, þegar það er fullvirkjað. Verkfræðingur, sænskur, fylgdi okkur niður í undirgöng stöðvarinnar, sem var í smíðum. Var þar blautt og dimt um að litast; en þaðan eiga að berast straumar þeir, sem lýsa skulu landið.

## ÞINGVELLIR

*Hátt á eldhrauni upp,*
*þar sem ennþá Öxará rennur*
*ofan í Almannagjá,*
*alþingið feðranna stóð.*

Engan blett á jarðríki hafði ég meira þráð að sjá en Þingvöll. Íslendingabók Ara getur um ástæðuna fyrir vali þingstaðarins þar. Frá blautu barnsbeini hafði maður drukkið í sig þá kafla sagnanna, sem fram fóru á Alþingi. Segja má, að þúsund ára saga þjóðarinnar snúist um þann stað. Þá riðu hetjur um héruð, þar stóð hann Þorgeir á þingi og svo fjölmargir aðrir spakir forfeður okkar. En saga Þingvalla er ekki altaf glæsileg. Þar gengu höfðingjar landsins útlendum konungi á hönd. Þar voru ómildir dómar dæmdir að ráði útlendra harðstjóra, galdrabrennur, drekkingar kvenna fyrir skírlífisbrot o. s. frv. En þar var líka barist fyrir lögum og rétti, þótt lítt stoðaði oftast, svo þó saga Þingvalla sé tíðum raunasaga, þá er hún þó í eðli sínu sigursaga, því við staðinn var bundin sjálfstæðismeðvitundin. En þegar Jónas kemur á Þingvöll er „fólksstjórnarþingið fræga" afnumið af útlendu einveldi, og um leið er

*þar þrotin þyrping tjalda,*
*þögult og dapurt hraunið kalda,*

og Snorrabúð orðin að stekk. En Jónas gjörði meira en sakna hins liðna á Þingvöllum. Hann orti sköpunarsögu staðarins svo meistaralega, að enginn einn staður á aðra þvílíka. Ég gekk í kringum kirkjuna og gægðist inn. Hún er fremur óásjáleg eins og flestar sveitakirkjur heima, og að mér fanst hálfgerð vanhelgun á staðnum.

Kristni var að vísu lögleidd á Þingvelli, svo ekki er í alla staði óviðeigandi að þar sé kirkja. En stíllinn er óþolandi á slíkum stað. Þar ætti að vera hof, þó kristið sé. Auk þess eru turnspírur og skemmuþak að hverfa úr byggingarstíl nýrri kirkna eða guðshúsa. Ég leit á leiði Jónasar og Einars og gat einhvern veginn ekki orðið snortinn. Í huga mér hljómuðu orðin, sem eiga svo vel við alla snillinga og velgjörðarmenn mannkynsins: „Hví leitið þér hins lifanda meðal hinna dauðu? Hann er ekki hér". Sagan og ljóðin og landslagið þrengdu svo fast að mér, að ég hefði helst óskað að verða þar aleinn eftir; en ekkert þvílíkt er mögulegt, þegar maður er umkringdur af ungu og glöðu og elskulegu frænda og vina liði.

Í bakaleið fórum við um í Hveragerði. Þar er talsvert sveitaþorp. Þar eiga ýmsir íbúar höfuðstaðarins sumarbústaði, og þar búa sumir yngri rithöfundar þjóðarinnar. Þar eru gufumekkir altaf í lofti og þar sýður og bullar jörðin af hverahita. Kváðu stundum opnast nýir leirhverir undir húsgólfum manna. Þar er mikil gróðurhúsarækt.

Af Kambabrún á austurvarpi Hellisheiðar er einhver hin fegursta útsýn landsins. Blasir þar við Suðurlandsundirlendið með hinum víða fjallahring, og lengst í útsuðri blánar fyrir Vestmannaeyjum í hafinu eins og skipaflota á siglingu.

HVALFJÖRÐUR

*Ó, fjörður væni sæll að sýn*
*í sumarsólar loga.*
*Hve framnes, björg og flóðvik þín*
*í faðm sér hug minn toga.*
*Hvar stenst öll prýðin eins vel á*
*við insta botn og fremst við sjá?*
*Hvar sé ég fleiri fjöllin blá*
*og fegri mararvoga?*

Þegar ég var drengur í heimahúsum fyrir meira en sextíu árum komst ég yfir Iðunni hina eldri. Þar las ég þetta fagra kvæði Steingríms um Hvalfjörðinn. Í því er fléttað saman á hinn yndislegasta hátt náttúrufegurðin, landslagið með örnefnunum, og merkustu atburðir sögunnar og fornsagnanna. Við Hvalfjörðinn eru tengdar minningarnar um mesta skáldið á miðöldum Íslands, Hallgrím Pétursson, sem lifði þar við örbirgð og ólæknandi sjúkdóm, en lét þrátt fyrir það eftir sig liggja stærsta skáldverk, sem ort var um öll Norðurlönd á sama tímabili. Ég hafði þá lesið ævisögu hans eftir Hálfdán skólameistara Einarsson. Skömmu síðar komst ég yfir sögu Harðar og Hólmverja, og las hana upphátt á kvöldvöku — þennan blóðuga og hrikalega sorgarleik, þar sem mætur og ættgöfgur maður er dæmdur í útlegð fyrir afsakanlegt víg, og verður svo fyrir brýnustu lífsnauðsyn vargur í véum heils bygðarlags og að síðustu svikinn og veginn fyrir eðlilegar ástæður.

Ég hlakkaði til ferðarinnar, en ekki átti ég von á eins torfærum vegi eða þvílíkri vegalengd. Vegurinn liggur í ótal hlykkjum í snarbröttum brekkum vestan fjarðarins, og varð mér stundum ekki um sel í mjóstu sniðunum, enda var ég líka svo óheppinn að vera sárlasinn mestan hluta dagsins. Sagt var mér þó, að Ameríkumenn hefðu stórbætt veginn, þegar þeir tóku Hvalfjörðinn fyrir setulið sitt. Fyrir botni fjarðarins er hvalveiðastöð, svo enn

ber hann nafn með rentu. Lítið eitt austar og utar eru skálar setuliðsins. Innarlega á firðinum rís Geirshólmi úr hafi, þar sem þeir fóstbræður Hörður og Geir eyddu útlegðarárunum ásamt óþjóðarlýð þeim, er að þeim þyrptist. Hólmurinn sýnist of lítill til þess að geta rúmað allan þann manngrúa, er sagan segir, en kann að hafa minkað í þúsund ára brimróti. Óefað hafa Hólmverjar lifað að nokkru af fiskiveiðum, þó sagan geti þess ekki. En vatn urðu þeir að sækja til lands og önnur matvæli, sem þeir að sjálfsögðu urðu að ræna og stela. Man ég það enn vel, að þröngt gerðist lesaranum um andardrátt, þegar þar var komið sögunni, að Helga jarlsdóttir, kona Harðar, synti til lands með sonu sína tvo og komst nauðuglega upp í kleifina á bak við Þyrilinn og slapp þannig. Heitir þar enn Helguskarð. Þyrillinn er einkennilegt fjall og fagurt, snarbrattar skriður og stuðlaberg efst til toppsins. Nokkru utar á ströndinni er Saurbær, þar sem Hallgrímur orti Passíusálmana, og nokkru norðar enn er Ferstikla, þar sem hann dó á heimili Eyólfs sonar síns. Er nafnið *Ferstikla* málað stórum stöfum á hlið bæjarins, sem að veginum snýr. Væri þörf á fleiri þesskonar merkjum um landið, þar sem leið liggur um merka sögustaði.

BORGARFJÖRÐUR

*Héraðsins ásýnd er hrein og mild,*
*í háblóma er lífið á völlum og*
*sléttum,*
*og úi og grúi af grænum blettum*
*hjá gráum sólbrendum klettum.*
*Náttúran sjálf er hér góð og gild;*
*sem glitborð, dúkað með himneskri*
*snild,*
*breiðir sig engið. Alt býðst eftir vild.*
*Borðið er þakið með sumarsins*
*réttum.*

Úr Hvalfirðinum héldum við áfram yfir eiði það hið mikla, norðan Akrafjalls, yfir í Borgarfjörðinn. Í fylgd með mér, auk ökumannsins, var örnefnasafnari og ættfræðingur, ágætur drengur þar úr héraðinu, sem þuldi óspart bæjarnöfn og örnefni. Ætlaði ég að drukna í því flóði. Var fyrst áð í Höfn. Þar varð ég að hvílast vegna lasleikans. Þar er stórt og fagurt heimili. Bóndi var að fé, en gestrisni eigi að síður hjá fallegri og alúðlegri ráðskonu. Talaði ég þar um stund við gáfaða og fallega gamla konu, sem lá rúmföst. Talaði hún ýmist á íslensku eða fallegri ensku; sagðist gjöra það að gamni sínu, því svo fáir kæmu nú að sjá sig, sem talað gæti það mál. Var nú haldið áfram viðstöðulítið yfir Hvítá og inn í landnám Skallagríms. Enginn þeirra Borgarbænda stóð á hlaði úti, Skallagrímur, Egill, sonur hans, né Þorsteinn, sonarsonur. Egil hefði ég helst viljað sjá — stærsta skáld aldarinnar, víkinginn, ofurhugann, stórbóndann. Svo er enn mikil kyngi í kvæðum hans, að jafnvel Vestur-Íslendingar sækja til hans styrk, þegar þeir yrkja best. Þorsteini hefi ég aldrei getað fyrirgefið það tvent, að skipa fyrir um útburð dóttur sinnar nýfæddrar vegna drauma sinna, né heldur það, að leggja fæð á Austmanninn fyrir ráðningu draumsins. Annars skal ekki farið út í hinn ömurlega sorgarleik Hrafns, Gunnlaugs og Helgu, sem aldrei sá glaðan dag vegna ofurmagns æskuástar sinnar á skáldinu og ofstopamanninum. — Sólin skein

í heiði og sveitin fangbreið, fögur og ljómandi sópaði burtu tíu alda skuggamyndum sögunnar.

REYKHOLT

*Þyngdi í lofti þögult kvöld,*
*það var á grimmri Sturluöld*
*snemma hausts. Frá himna sal*
*horfðu niður í Reykholtsdal*
*sjónarvottar sögugeims,*
*sannleiksrúnir Urðarheims,*
*helgar stjörnur; stirndi á svell,*
*stafaði á vötn og jökulfell.*

Það eru nú meira en sjö aldir síðan Gissur jarl Þorvaldsson myrti tengdaföður sinn, Snorra Sturluson, á náttarþeli í Reykholti. Og þó Gissur væri glæsimenni og höfðingi mikill, þá mundu þó fáir kannast við hann, nema vegna níðingsverksins. En um Snorra má segja það, er hann sjálfur kvað um konunginn:

*Falli fyrr*
*fold í ægi*
*steini studd*
*en stillis lof.*

Og nú er ég hér á óðali Snorra, krjúpandi að fótskör hans, eins og ég hafði svo oft gjört í anda, þegar ég las Eddu hans eða Heimskringlu. Standmynd sú af Snorra, sem Norðmenn gáfu í sjö alda minningu, stendur sunnan undir skólahúsinu. Hann er höfðinglegur og nokkuð harður á svip — líkari norskum skipstjóra en Íslendingi. Ekki urðum við manna varir nema eins húskarls, og féll mér það eins vel. Ég gekk einn ofan fyrir hólinn og að lauginni, dýfði báðum höndum í glóðheitt vatnið og jós yfir höfuð mér. Undirgöngin fram undan hólnum, þar sem Snorri gekk til laugar, eru vel sýnileg, en enginn hefir viljað spilla svo túninu, að grafa fyrir hinn endann, og mætti þó að líkindum finna menjar jarðhússins, og skála eða bæjargrunninn frá dögum Snorra. Mér varð reikað upp í grafreitinn og fann þar þrjá snotra legsteina á gröfum vina frá æskuárunum austan af Jökuldal, sem flutst höfðu þangað með jökuldælskum presti, sem nú er líka dáinn.

Degi var farið að halla og mál til heimferðar. En einn stað átti ég eftir að heimsækja, sem mér og samtíðinni heyrði til. Á Þingnesi, sunnar og austar, að ég held, býr enn ein bróðurdóttir mín, myndarkona. Þangað klungruðumst við af þjóðveginum, í gegn um keldur og móa, og dvöldum þar fram yfir háttatíma. Svo var farið sömu leið til baka í þoku og súld um nóttina.

LAUGARDALUR

*Við riðum und kvöldsól í Laugardals*
*lönd.*
*Hún ljómaði af rauðbrúnu felli*
*um engjanna grasflæmi geysivítt*
*þönd*
*um glampandi silfurskær vatnanna*
*bönd*
*og bláfell við blómgaða velli.*
*Á logbjörtu kvöldi við lóunnar söng*
*vér líðum á vegbrautum fríðum*
*í lífgandi skógblæ um laufrunna*
*göng*
*með Laugardals algrænu hlíðum.*

Snemma í júlí var ég staddur í Laugardalnum. Þar er fagurt um að litast. Steingrímur er víst fyrsta skáldið, sem kemur auga á rauðbrún fell engu síður en bláfellin. Sannleikurinn er sá, að hvergi, þar sem

ég hefi farið um, er meira af rauða litnum í jarðveginum en á Íslandi. Mýrarnar, skurðgröfturinn nýi, hólar og fjöll, svo sem Hólabyrða fyrir norðan, Rauðamelur, Rauðukambar, minnir alt á rauðbrúna litinn.

Prentarafélag Íslands er víst, eins og nú standa sakir, eitt efnaðasta iðnfélag landsins og skipað mörgum ágætum, listhæfum og vel mentuðum meðlimum. Ég átti einn eða fleiri fornkunningja enn á lífi í því félagi, auk þess hafði ég gjört félaginu smágreiða áður, svo ég var boðinn í skemtiferð þeirra. Félagið hafði keypt stærstu jörðina í dalnum, jörðina Miðdal austan vatnsins. Jörðina hafa þeir selt á leigu og látið gjöra þar miklar jarðabætur. Norðaustur hlíðarnar eru vaxnar lágu birkikjarri, og þar hafa margir prentarar bygt sér sumarbústaði. Á leiðinni var glatt og fjörugt, skemtilegar samræður, glens og hópsöngur. Eftir góða hressingu í hlíðinni, stálumst þrír af okkur inn í ferðabílinn, meðan aðrir fóru til kvenna sinna, og keyrðum niður að Laugarvatnsskóla, sem er vestan vatnsins. Þar eru byggingar miklar, en dreifðar. Efri hæð aðalskólahússins hafði brunnið, og svo verið sett bráðabirgða þak á neðri hæðina. Þar er leikskáli, stór og fallegur, og innisundlaug. Sáum við ofan af annari hæð ungt fólk þar á sundi. Í kringum laugarnar, niður við fjöruborð vatnsins, eru gróðurhús með mannhæðarháum tómötujurtum og öðrum gróðri. Svo að segja áfast við vatnið er heit laug. Þar kváðu Norðlendingar hafa þvegið líkami Jóns biskups Arasonar og sona hans, er þeir sóttu í Skálholt, eftir aftöku feðganna árið 1550. Á laugarbarminum var stóreflis mykjuhaugur til skrauts eða tilbreytingar.

## GEYSIR — GULLFOSS

*Um nótt hjá Geysi á verði ég var.*
*Í votu grasi ég lá,*
*og gufusvækjuna golan bar*
*um grundirnar hvernum frá;*
*og stráin dottuðu drungaleit,*
*því döggin varð tvöföld við*
*gufunnar yl.*
*Í tjaldi blundaði samferðasveit,*
*er segja skyldi ég til,*
*ef Geysi litist þá loksins*
*að leika sitt nafnfræga spil.*

Í þessu kvæði sér skáldið samlíkingu með Geysi og þjóðinni. „Hún kemur, hún brýst fram, hún byltir sér — hin bundna framtíðarsál", og hún gýs, en eins og eftir Geysis gos, „hver bunan annari hratt, uns máttlaust, sífrandi soðvatn í sömu holuna datt." Þetta langaði mig nú að sjá, og gafst tækifæri fyr en varði. Póstliúslið borgarinnar bauð mér með sér í Þingvalla, Geysis og Gullfoss för. Veðrið var sæmilegt að morgni, en kólnaði, þegar upp í Haukadalinn kom. Við Geysi biðum við margar klukkustundir. Kaldur norðanstormur blés ofan úr öræfunum með mógulu sandroki. Vatninu var hleypt úr skál hversins, og hún fylt með sápu. Brátt fyltist skálin af sjóðandi vatni, en alt, sem okkur auðnaðist að sjá, var máttlaust sífrandi soðvatn.

Var nú haldið niður að Gullfossi. Man ég lítið frá þeirri ferð, því allir sungu og skröfuðu, ungu stúlkurnar hniptust á við piltana sína, og svo var sopið á í laumi, en enginn þó ölvaður, nema einn aldraður maður, sem kom þannig á sig kominn inn í

vagninn. Hann var samt meinlaus og dálítið spaugsamur. Svo var stansað áður en varði, og blasti þá við hin undursamlegasta sýn, Gullfoss, sem með skáldsins orðum

*Hvessir svipinn heiða,*
*horfir sólu móti,*
*þenur brjóstið breiða*
*bert úr hvítu róti.*

Sólin gægðist einhvers staðar í gegnum skýaglufu, vindurinn stóð af fossinum og feykti vatnsaganum yfir í hvamminn, regnbogi ljómaði í úðanum, en drunur fossins kæfðu allar raddir. Það er kannske þýðingarlaus fullyrðing að segja, að Gullfoss sé fegursti foss landsins. Hann fellur fyrst af breiðri skáhallri rim til austurs, þá er eins og hann átti sig og snúi við og kastist svo í einum sterkum flaum fram af bergbrúninni í vesturátt. Mér varð að orði við frænda minn, sem hjá mér stóð: Hann er eins og þjóðin, hann virðist ætla að tvístrast í allar áttir fyrst, en þegar á herðir, fellur hann í einn voldugan streng. Þegar kallað var til heimferðar leit ég um öxl til fossins og hafði yfir í huga mínum síðustu línurnar úr kvæðinu:

*Höfuð mitt ég helga í þínum úða,*
*hjarta mitt ég lauga í þínum skrúða.*
*Sálu minni sökkvi ég í fossinn —*
*seilist upp í friðarboga kossinn.*

RANGÁRVELLIR — FLJÓTSHLÍÐ

*Skein yfir landi sól á sumarvegi*
*og silfurbláan Eyafjallatind*
*gullrauðum loga glæsti seint á degi.*

Seinustu ferð mína um landið fór ég með mínu elskulega frændfólki í september byrjun. Ferðinni var heitið í bygðarlög Njáls og Gunnars. Fyrst var farið sömu brautir og áður austur fyrir Ölfusá. Er skamt þaðan yfir Skeiðin að Þjórsárbrú hinni nýu, sem er vel bygð og nógu breið til umferðar. Á eystri bökkum Rangár, sem líklega gaf sýslunni nafn, er lítið sveitaþorp, sem nefnist Hella. Á öllu þessu svæði er víðsýni mikið og flatt land. Sagt var mér, að Bergþórshvoll væri langt út úr leið, svo ekki var viðlit að heilsa upp á Njál. Frá barnæsku hafði ég eins og aðrir dáðst að kvæðinu Gunnarshólmi. Sérstaklega var það þó fegurð forms og ríms ásamt undiröldu sögunnar, sem hafði heillað mig. En hér í umhverfi kvæðisins sá ég fyrst, að það er líka hreint og fagurt málverk í sterkum litum. Í austri skín á silfurbláan Eyafjallatind. Lengra út með Eyafjöllunum beljandi foss við hamrabúann hjalar. Það er Skógafoss, sem er eins og kembt silfurhár. En hinu megin föstum standa fótum blásvörtum feldi búin Tindafjöll. Hvílíkir litir! Við norður rísa Heklutindar háu, svell er á gnípu — og við rætur hennar hrafntinnuþökin. Samt var nú ekkert svell á gnípu, en aðeins fölar gufuslæður um toppinn. Helgi sonur minn var þar eystra í versta hríðarbylnum, sem komið hafði í mörg ár. Þegar upp stytti, var fjallið klætt hvítri heklu niður á tær, en eftir þrjá daga var hún afklædd. Svo er þar mikill jarðhitinn enn eftir gosið 1947. Brátt er komið austur í Fljótshlíðina, þar sem Markarfljót í fögrum skógardal dunar á eyrum. Enginn er þar samt skógurinn sjáanlegur. Snarbratta brekku urðum við að klífa upp að Hlíðarenda. Þaðan er víðsýni mikið. Var

mér þó sagt að bær Gunnars muni hafa staðið enn ofar í hlíðinni. Þaðan sést út til eya, og hvítfyssandi öldurnar, sem voldug reisir Rán á Eyasandi. Þar sér maður líka eyðilegginguna niður frá:

*Þar sem að áður akrar huldu völl*
*ólgandi Þverá veltur yfir sanda.*
*Sólroðin líta enn hin öldnu fjöll*
*árstrauminn harða fögrum dali*
*granda.*

Nú hefir samt verið hafist handa með að reyna að skapa ánni ákveðinn farveg, og er ekki fyrirséð, hversu vítt land má nema á ný með hinni nýu sandgræðslu og öðrum landbótum. Á Hlíðarenda er nýleg kirkja, öll veggskreytt innan með myndum, líklega trúarlegs eðlis. Mér varð dimt fyrir augum utan úr sólskininu og sýndist þetta í fljótu bragði vera léttklæddar dansmeyar. En svo greip ein bróðurdóttir mín í orgelið og við sungum öll einum rómi: Sannleikans andi. — Ég leit svo betur í kring, og sá þá, að þetta voru alt skikkanlegir englar. Lengst var farið að Múlakoti. Þar býr Guðbjörg, á níræðis aldri. Hefir hún hinn fegursta blóma og trjágarð á Suðurlandi. Þar eru yfir 20 feta há reynitré. En vaxa hvergi í heimi mikið yfir 25 fet. Sonur Guðbjargar, er einn með bestu landslagsmálurum heima. Í bakaleið var ég að hugsa um æskuheimili Þorsteins Erlingssonar, en enginn í hópnum var nógu kunnugur til að vísa mér á það. Síðan ókum við úr leið upp að Gunnarsholti á Rangárvöllum. Þar er mikil sandgræðsla. Vellirnir hafa auðsjáanlega legið við algjörðri auðn af landbrotum. Nú eru þar mílna löng og breið svæði grasi gróin, þar sem áður voru sandar og melauðn. Bræður tveir standa fyrir græðslunni. Þó það snerti ekki sandgræðsluna, þá ætla ég í þessu sambandi að geta annara jarðabóta, sem eru miklu víðar á landinu. Þegar ég fyrst fór um Borgarfjörðinn, tók ég eftir löngum röðum af smáþúfum, sem helst líktust móhraukum tilsýndar. Þegar við þeystum fram hjá, sá ég að þetta var uppgröftur eftir skurðgröfurnar, þar sem verið var að þurka upp mýrlendið. Eftir eitt eða tvö ár er hægt að plægja landið og rækta. Seinna sá ég þetta víðar um landið. Þar sem það er gjört í stórum stíl, er ætlast til að nýbýli verði reist, svo sem til að bæta upp með meiri rækt og þéttbýli í grösugri sveitunum fyrir útskagajarðirnar sem óhjákvæmilega hafa lagst eða eru í þann veginn að leggjast í eyði vegna erfiðra aðfanga eða vegleysa. Sandgræðslumennirnir segja, að gallinn á framræslunni sé samt sá, að eftir fá ár sígi skurðirnir saman, og myndist þá aftur mýrlendi. En aftur halda framræslumennirnir því fram, að sandgræðslan geti naumast enst, því til að byrja með, vanti alla frjómold og jarðveg á melana og sandflögin. Vonandi er, að hvorugir hafi mikið til síns máls.

## AUSTURLAND

*„Til austurheims vil ég halda."*

Ég hafði af ásettu ráði hlaupið hér yfir sögu. Vorið var með afbrigðum kalt, einkum norðan og austan lands. Þegar loks ferðaskrifstofan skýrði mér frá, að heiðavegir væru færir eystra, var kominn 15. júlí og ég búinn að flækjast í heilan mánuð í Reykjavík og grendinni. Ég flaug

samstundis með Katalínu flugbát til Seyðisfjarðar. Aldrei hefi ég á ævinni flogið yfir aðra eins ísbreiðu. Skildist mér þá, að *ÍSLAND* er ekki að öllu leyti rangnefni. Sást hvergi, að kalla mátti, á dökkan díl frá því að Suðurlandsundirlendinu slepti og þangað til við steyptumst ofan í fjörðinn. Seyðisfjörður var eins vingjarnlegur og mig hafði mint, en í stað hefir hann staðið að mannfjölda. Þar hitti ég meðal annara tvo áttræða Möðruvellinga, sem tóku mér með austfirskri gestrisni. Þar gekk ég og á gröf Þórarins bróður míns, sem hvílir skamt innan við þorpið. Á öðrum degi tók ég mér far upp yfir Fjarðarheiði. Höfðu þá mannhæðar háir skaflar verið mokaðir af brautinni, og hún naumast slarkfær. Af heiðarbrúninni er undra fagurt útsýni yfir Fljótsdalshérað fjalla á milli utan frá héraðssöndum og inst inn til dala með Löginn eins og misbreitt silfurband eftir endilöngu héraðinu. Komst ég að Kirkjubæ til Sigurjóns bróður míns um kvöldið. Næstu daga fórum við um héraðið. — Á Egilsstöðum, sem verið hefir fyrirmyndar heimili eins langt og ég man, er nú að rísa upp sveitaþorp. Þar eru verslanir, talsímastöð, læknir og nýlagður flugvöllur ásamt mjólkurbúi og fleiru. Út og niður frá bænum er Lagarfljótsbrúin, mörg hundruð fet á lengd, en mjó og skjálfandi og komin að falli. Má eins vel búast við, að einhvern góðan veðurdag falli hún ofan í fljótið með fullan umferðabíl í fangi.

## Á HALLORMSSTAÐ

*Sit ég og sé, hvernig sólin sindrar,*
*sit hér í skóginum á Hallormsstað.*
*Ljómandi fegurð! Í ljósi tindrar*
*limið á kvistunum, er skelfur blað.*
*Op nið'r að Leginum þarna — þarna,*
*þar fann ég lund, sem mér geðjast að.*
*Sit því og sé, hvernig sólin sindrar*
*sit hér í skóginum við Hallormsstað.*

Presturinn í Vallanesi hafði verið svo elskulegur, að bjóða okkur bræðrunum heim. Mætti hann okkur í einkabíl sínum á Egilsstöðum og flutti okkur heim til sín. Næsta dag í sólskinsblíðu fór hann með okkur að Hallormsstað. Þar er fagurt um að litast. Þar hefir skógræktin komist á besta rekspöl. Auk innlendu bjarkarinnar eru þar mörg útlend tré, einkum þó barrtré, og sýnist Sitkagrenið frá Alaska ætla að þrífast þar best. Þar er stærðar hlíð alþakin Sitkagreni, sem er orðið 15 feta hátt og betur á jafnmörgum árum. Íslenska birkið virðist vera að úrættast, og hefir fjölda ára verið eytt í ræktun þess með litlum og seinum árangri. Á Hallormsstað eru samt nokkur allhá birkitré, og svo kvað vera á einstöku öðrum stöðum. Það sem þeir kalla skóg, t. d. í Laugardalnum og víðar, er bara lágt kjarr, minna en mannhæð víðast hvar. Nú virðist reynirinn ætla að verða aðal innlenda tréð. Í ungdæmi mínu var reynir sjaldséður. Nú fyllir hann alla garða, sunnan, austan og norðan lands og vex vel, blómgast og ber fræ árlega. Ég heyrði skemtilega þjóðsögu um kjarrið, sem auðvitað á sér engan vísindalegan flugufót til styrktar. Í skógi vaxinni hlíð einni voru allmörg stórvaxin tré, sem voru svo drembilát, að þau létust ekki sjá almúgann — smærri trén. Við það urðu minni trén svo óánægð, að þau fóru að taka fram hjá með fjalldrapanum. Stóru bjark-

irnar þornuðu upp eins og hverjar aðrar piparmeyar og dóu, en lausaleiksbörnin, sem urðu enn smávaxnari, klæddu alla hlíðina.

Næsta dag fórum við inn í Fljótsdalinn vestan fljóts, og áðum á Skriðuklaustri og skoðuðum kastalann mikla, sem Gunnar Gunnarsson skáld reisti þar og gaf síðar íslenska ríkinu. Þaðan að Valþjófsstað. Þar er kirkja svo hrörleg, að hún er bundin saman með vírstrengjum, og hæluð við jörð. Á úthéraði og Jökuldal á ég enn allstórt frændalið. Bróðursynir mínir búa á Fossvöllum, og í Hofteigi — þar hvíla bein móður minnar og næst elsta bróður, og í Hofteigssókn var ég skírður og fermdur. Þessir bræður og fleiri frændur gjörðu okkur kleift að heimsækja uppeldis og fæðingarstað okkar, sem seinna verður frá sagt. En með því að biskup Íslands hafði boðað Sigurjón til Reykjavíkur til að lýsa prestsvígslu sonar síns og annara prestsefna, þá kvaddi ég Austurland og slóst í ferð með honum landveg norður um land og varð eftir á Akureyri.

## AKUREYRI

*Heil og blessuð Akureyri,*
*Eyfirðinga höfuðból.*
*Fáar betri friðarstöðvar*
*fann ég undir skýastól.*
*Hýran bauðstu börnum mínum*
*blíðufaðm og líknarskjól.*

Þetta kvæði sungum við ungir menn á Akureyri fyrir meira en 50 árum. Þá voru þar aðeins tólf hundruð íbúar eða rúmlega það. Nú eru þar um átta þúsundir, að minsta kosti að vetrinum, því Akureyri er það sem við mundum kalla hér „College town“ — skólabær. Þar eru barnaskólar, gagnfræðaskóli, kvennaskóli og mentaskóli, sem býr stúdenta undir háskólanám, og enn aðrir skólar — flestir víst fullir. Fyrmeir var gamli bærinn allur í fjörunni neðan brekkunnar og svo á Oddeyrinni sunnanverðri. Meiri hluti hennar var þá tún. Nú er hin aukna bygð í kringum Torfunefið gamla og á Oddeyrinni allri, og svo uppi á brekkunni lengst vestur, þar sem flestar opinberar byggingar nú standa. Gilskoran hefir verið stækkuð að mun og eru mörg stórhýsi þar nú. En framburðurinn við niðurrif gilsins og brekkunnar verið fluttur fram í sjó í kringum hafnarbryggjuna og fyrir aukna húsgrunna. Á Akureyri virðist mikið andlegt líf. Þar eru sum bestu skáldin, tónskáld og listamenn, og bókabúðir og forleggjarar. Þar er lystigarður með mynd sr. Matthíasar á stalli, vel hirtur hjá Þuru í Garði, sem best yrkir tvíræðar vísur á Íslandi. Þar er og gróðrarstöð, sundlaug og andapollur, og mikil og fögur blóma og trjárækt umhverfis hús manna. Á Akureyri var ég í vinahöndum, gamalla og þó einkum nýrra, sem bókstaflega tóku mig upp á arma sína.

Margar smáferðir fór ég frá Akureyri: Fyrst um Svalbarðsströnd og að Laufási. Þar hafa margir merkisprestar setið, og þar sló ég í túni fyrir 55 árum. Næst fór ég að Möðruvöllum í Hörgárdal. Þar hafði ég hlotið þá litlu mentun, sem mér auðnaðist að fá utan föðurhúsanna. Skólinn brann, svo nú er þar aðeins prestsetur. Ég bað prestinn um leyfi að sjá kirkjuna og kirkjugarðinn, og veitti hann það, þegar hann heyrði,

að ég var gamall Möðruvellingur. Kirkjan er enn með sömu ummerkjum — blá hvelfing með látúnsstjörnum. Í garðinum reyndi ég að finna leiði Bjarna Thorarsensen, Gríms og fleiri sem ég mundi eftir frá gamalli tíð. En grasið var klofhátt og hafði auðsjáanlega ekki verið slegið í mörg ár. Presturinn kvartaði undan, að nú fengist enginn til slíkra verka lengur, og sjálfur hefir hann líklega hvorki átt orf eða ljá. Á Hörgá er brú, sem hriktir og skelfur, þegar um hana er keyrt. Þar hafa orðið slys, eins og við fleiri eldri brýr landsins, þar sem vegirnir eru sjaldnast lagðir beint að brúarsporðinum. Enn aðra ferð fór ég inn í Eyafjarðardalina. Þar eru fjöll skuggaleg en þó fögur, eins og í svo mörgum öðrum inndölum landsins. Í bakaleiðinni stansaði ég á Möðruvöllum hinum innri. Þar bjó Guðmundur hinn ríki í fornöld, sem sagan segir, að haft hafi hundrað hjúa og hundrað kúa. Þar er hinn mesti myndarbúskapur enn. Aðeins einn fjósamann sá ég samt, en sextíu eru kýrnar mjólkandi. Þær voru að streyma úr haga. Ég fékk að sjá fjósið — alt úr sementssteypu og þvegið og fágað, en mjólkurvélarnar á sínum stað. Þar er vanaleg sveitakirkja, en í henni er altaristafla aftan úr kaþólskri tíð, með útskornum helgimyndum og hin mesta gersemi. Sunnudaginn 10. ágúst tók sig saman alt frændaliðið og keyrði út á Árskógsströnd og þaðan á bát í Hrísey. Tilefnið, að hlýða fyrstu messu Fjalars bróðursonar míns við innsetningu í hina nýu sókn hans í Hrísey. Eftir athöfnina gengum við um eyna, sem er falleg og grösug víðasthvar.

GRÍMSEY

Grímsey er fyrst nefnd í sögu Ólafs konungs hins helga. Konunginum stóð hugur til Íslands, eins og fleiri Noregskonungum. Sendimaður hans bar vináttuboð til Íslendinga og bað um leið, að sér væri gefin „ey eðr útsker, er liggur fyrir Eyafirði ok menn kalla Grímsey“. Vildu margir veita þetta lítilræði og þeirra á meðal Guðmundur hinn ríki á Möðruvöllum. En Einar bróðir hans Þveræingur sýndi fram á, að konungur gæti haldið þar her manna, sem veitt gæti þungar búsifjar. Var þá beiðninni synjað. Í mínu ungdæmi var Grímsey markverðust fyrir þrent: Þar voru bestir taflmenn og þar voru tvö sálmaskáld og rithöfundar samtímis. Séra Pétur Guðmundsson, sem gaf út sálma og ritaði á efri árum Annál 19. aldar, og Árni Þorkelsson í Sandvík, sem orti kvæði og sálma og skrifaði auk þess skáldsögu og ættartölur. Grímsey liggur á miðjum heimskautsbaug nyrðra, og er þó í Eyafjarðarsýslu. Hún er lágkúruleg, séð úr hafi, en landsýn er mjög fögur þaðan. Íslenska ríkið á varðskip það, er Ægir heitir og gætir landhelgi norðan lands. Skip þetta sendir stjórnin einu sinni á ári til Grímseyar með sýslumann, tollheimtumann, lækni og prófast. Auk þeirra voru með vísindamenn, kennarar og fleiri. Mér var boðið að fljóta með. Hafði ég ekki á reglulegan sjó komið í 25 ár. Veður var sæmilegt, en talsverð ylgja í sjó á bakaleið. Ég lenti þar í töðuhirðingu með Sandvíkurbóndanum, því regn var í lofti, en þegar síst varði komu þar að myndasmiðir. Í næstu viku kom svo mynd af mér með hrífuna í Morgunblað-

inu. Eyarskeggjum fækkar óðum, og hafa þeir þó útvarpstæki og loftskeytatæki, ef um bráða læknishjálp er að ræða, og flugvöllur er í aðsigi. Þar er enginn ríkur maður, en almenn afkoma þó engu síðri en víðast hvar í landi. Bjargsig og fuglatekja var fyrir eina tíð einn aðalatvinnuvegurinn, en er þó að hverfa. Var mér sagt, að aðeins tveir sigmenn væru þar nú. Fór hinn yngri þeirra í bjargið þá um vorið og meiddist af grjóthruni. Gráa loppan, sem fyr á tímum seildist út úr bjarginu og skar á vaðinn, lætur sér nú nægja að kasta grjóti. Ýmisleg hjátrú hefir þó haldist þar til skamms tíma. Til dæmis áttu kýr ekki að geta haldist þar við fyrir sænautum. En nú eru þar þó kýr og góður töðufengur.

## ÁSBYRGI — DETTIFOSS

*Öll verður viskan að æskubreki,*
*einfeldnin guðdómleg speki.*

Snemma næsta morgun fór vinahópur í þremur bílum yfir Vaðlaheiði, stansaði við Fnjóskárbrú og þar bættist í hópinn. Vaglaskógur er þar í austurhlíð dalsins niður að ánni; ég þekti hann að fornu fari, en gafst ekki tími til að fara um hann nú. Vegurinn liggur um Ljósavatnsskarð, þetta einkennilega grösuga dalverpi, sem klýfur fjallgarðinn í milli Fnjóskadals og Bárðardals. Kaldakinn. „Hér liggur, kjólakeyrir, Kaldakinn of aldur“. Ekki er nafnið að ósynju, því enn var snjór þar niður í fjöll (16. ágúst). Yfir Laxá hjá Laxamýri. Þar hefir löngum verið stórbú, og þar var mesta leikritaskáld Íslands fætt. Áð var á Húsavík um stund. Bent var mér í áttina til Sands, þar sem mesta skáldakyn Þingeyinga er fætt og uppalið. Var nú lagt á Reykjaheiði. Þaðan er útsýn góð — sést alla leið til Grímseyar, og á hinum víða Skjálfandaflóa er Flatey, sem vatna sýnist yfir, og eyan, sem um var kveðið: „Ég uni mér ekki út í Máney“. Annars er heiðin einhver ljótasti fjallvegur og torfærasti á landinu. Loks Kelduhverfi. Er vítt land, breitt og sendið að sjá út til Axarfjarðar. Þá Ásbyrgi. Fegursta og leyndardómsfylsta náttúrufyrirbrigði landsins og ekki að undra þó skáldin gæfust upp við það. Einar grípur til goðsögunnar um Óðin og Sleipni, „sem sporaði byrgið í svörðinn“. Það var aldrei neitt smátt hjá Einari. Byrgið er á að giska fjórðungur mílu á breidd og hálfu lengra eða betur. Hefði ég átt að kjósa útivöll fyrir alsherjarþing Íslendinga, mundi ég hafa valið Ásbyrgi. Þar inni mundi hæglega rúmast öll þjóðin, og kletturinn mikli í miðju, „höftungan“, yrði þá hið sanna og tignarlega Lögberg, sem allra raddir gætu heyrst frá, því klettahringurinn, ‚skeifan“, bergmálar öll hljóð. Þaðan er skamt að Dettifossi. Árgljúfrin að fossinum og öll spildan upp og niður með ánni er auðsjáanlega orðin til á sama tíma og Byrgið. Fjögur stórskáld þjóðarinnar hafa ort um fossinn og komist að ýmsum niðurstöðum, en enginn dirfist að leita að furðuverkinu sjálfu. Enginn foss landsins er eins átakanleg mynd hins ótakmarkaða og óbundna kyngikrafts kaldra og hlutlausra náttúruaflanna, og á því hafa öll skáldin sprungið. Næst var haldið upp Hólssand að Grímsstöðum á Fjöllum í heiðríkju, og varpaði sólin gullslit á allan fjallahringinn. Herðu-

breið, fegursta einstakt fjall landsins, blasti við fögur og tignarleg í suðri. Næst á Mývatnsöræfi, yfir og í kringum hinar ömurlegu hraunbreiður, sem þar hafa runnið á ýmsum öldum. Stansað í brennisteinsþefnum hjá Námaskarði, og svo í Reykjahlíð. Ég skaust snöggvast í kirkjuna, sem máttarvöldin hlífðu við eyðileggingu, þegar hraunið rann í skeifu utan um hana á þrjá vegu. Hún er bygð úr hraungrýti og sementi, og er ekki ósnotur. Að Mývatni hafði ég komið nokkrum sinnum áður, og hefði áð þar í ferð þessari, ef ekki hefði það viljað til árinu áður, að bróðursonur minn, hinn ungi prestur þar, fórst í hörmulegu slysi. Mývatnið og öll sveitin virðist hafa orðið til í eldsumbrotum. Í vatnið renna engar ár, en úr því fellur hin fagra og kristalstæra Laxá, sem nú lýsir upp Akureyri og mikinn hluta sýslunnar í kring. Austan vatnsins í hrauninu eru hinar svonefndu Dimmuborgir. Fáránlegar og margbreyttar hraunmyndir. Held ég að Einar hafi fengið þar innblásturinn að Skútahrauni, þessari litsterku háðmynd af steinrunnu mannfélagi. Stutt viðdvöl í hressingarskála austan Goðafoss í Skjálfanda. Goðafoss líkist mest Niagara í lögun, er mjög fagur, en hvorki nógu hár né vatnsmikill. Vatnsmagnið mætti þó auka með því að stífla vesturkvíslina, sem rennur í kringum hólmann, og veita því vatni til fossins. Svo var haldið viðstöðulaust til Akureyrar í myrkrinu.

## Á HEIMLEIÐ

Í lok ágústmánaðar kvaddi ég frændur og vini á Akureyri og hélt boðleið með ferðavagninum til Reykjavíkur. Út Kræklingahlíðina, yfir Þelamörkina, framhjá Bægisá, þar sem séra Jón orti, og þýddi Milton og Klopstock, inn í Öxnadalinn, framhjá Hrauni — „þar til fjalla frammi fæddist Jónas áður" — yfir heiðina út Norðurárdalinn. Um hann orti Símon:

*Norðurárdalur næsta er svalur*
*fremra.*
*Engar jómfrúr una þar —*
*alt eru tómar kerlingar.*

Svo út Blönduhlíðina fyrir neðan Bólu, sem Hjálmar er kendur við, „yfir Hólminn hestasæla" og upp að Varmahlíð neðan við Vatnsskarð. Þar var áð. Mér varð litið yfir hið fagra hérað, Hegranesið út við sjó, þar sem Hafur sagði upp grið fyrir Gretti, sem allir virtu og héldu. Til hliðar að austan blasa við dyr Hjaltadalsins — þar liggja allar leiðir „heim að Hólum". Út á firðinum „rís Drangey úr djúpi", þar sem „Illugi Bjargi frá dapur situr daga langa dauðvona bróður hjá". Uppi á brún Vatnsskarðsins er mér sýndur dálítill melhóll, sem minnisvarði St. G. skyldi reistur á. Hafði listamaðurinn Ríkharður Jónsson áður sýnt mér líkan sitt af honum. Var nú ekið þindarlaust alla leið til Blönduóss. Á leiðinni þaðan var mér bent á ýmsa sögustaði Húnvetninga, svo sem Vatnsdalinn, heimabygð Ingimundar gamla og sona hans, Bjarg í Miðfirði, fæðingarbæ Grettis, o. s. frv. Seinna var lagt á Holtavörðuheiði og um hinn langa Norðurárdal. Var áð í nýum hressingarskála nálægt Hreðavatni. Síðan haldið viðstöðulaust til Reykjavíkur.

Nokkrum dögum síðar var flogið vestur í haf.

Á HÁREKSSTÖÐUM

*Hér leit ég fyrsta lífs míns dag*
*við lítinn kost og skarðan hag.*
*Í vosi og snjó og veðragný*
*ég velktist tíðum upp frá því.*

*En þess á milli sumarsól*
*þó sendi yl þeim gróðri, er kól.*
*Svo lífið sýndist létt og bjart,*
*er landið klæddi sumars skart.*

*En æskumannsins insta þrá*
*er út og burt — að prófa og sjá:*
*Að stórborg urðu hin fögru fjöll*
*og fjárhúskofinn sumarhöll.*

*En bygðin hvarf — og breytt er öld,*
*og bráðum komið hinsta kvöld;*
*og draumur, löngu dreymdur, er*
*við dægurlokin týndur hér.*

*Hér ríkir eilíf auðn og tóm,*
*og ímyndanna fegurst blóm*
*nú eru visnuð öll og dauð,*
*en eftir skilið stormsins gnauð.*

*Nú eytt er og blásið mitt æsku-*
*draumaland,*
*og enginn þar reikar um beran sand.*

Í Örvar-Odds sögu er þess getið, að þegar Oddur var orðinn gamall maður og ríkur konungur austur í Garðaríki, þá ásótti hann sú löngun að vitja fornra heimkynna og æskustöðva. Hann sigldi því með föruneyti sínu norður í Hrafnistu. Á heimleið stansaði hann í Berurjóðri, þar sem hann fæddist og ólst upp með fóstra sínum. „Voru þar þá tóftir vallgrónar“, þar sem bærinn hafði staðið. Og þar sem þeir fóstbræður höfðu leikið sér og æft skotfimi í æsku, „var nú hvarvetna blásin jörð, er þá var blómguð vel.“

Áður en ég kvaddi Austurland í hinsta sinn, fórum við þrír karlarnir, Gunnar, Gísli og Sigurjón, upp að Háreksstöðum. Í Jökuldalsheiðinni vorum við allir bornir og aldir til fullorðins ára, og þar bjó faðir okkar lengst ævinnar og öllum sínum búskap. Háreksstaðir voru vafalaust fornbýli, sem lagst hafði í eyði einhvern tíma á miðöldum Íslands — sumir sögðu í Svartadauða. Þó finst hvergi stafur fyrir því. Fyrir miðja 19. öldina bygðist staðurinn aftur upp, og svo hvað af hverju aðrir bæir í heiðinni, 16 talsins. Heiðarbygðin stóð í rúma öld, en er nú öll komin í auðn. Breyttir lifnaðarhættir og mannfækkun sveitanna hafa orðið orsök hins sama um alt land. Heilar útskagasveitir hafa lagst í eyði og kirkjur og bæir rifnir til grunna. Á Háreksstöðum voru nú aðeins vallgrónar tóftir, og hvammarnir og holtin, þar sem við lékum okkur og eltumst við ærnar og lömbin í æsku, hvarvetna blásin jörð. Við höfðum vitjað okkar Berurjóðurs í hinsta sinn, eins og Oddur, og kvöddum það dálítið daprir í huga. En unga kynslóðin, fallega og frjálsborna, sem gjörði okkur ferðina auðvelda og ánægjulega, var rödd hins nýrri og betri tíma, sem leiddi okkur aftur út úr fortíðinni og inn í nýa tímann — út úr eyðimörkinni inn á land bjarsýnnar starfandi æsku.

DR. STEFÁN EINARSSON:

# SIR WILLIAM A. CRAIGIE

## og rímurnar

Fyrir framan mig á borðinu liggja þrjú bindi af bók, eða réttara, þriggja binda bók, sem telja má fyrir margra hluta sakir einhverja hina merkilegustu, sem komið hefur út á þessum mannsaldri í íslenzkum fræðum. Það er **Sýnisbók íslenzkra rímna** (Specimens of the Icelandic Metrical Romances), valið hefur Sir William A. Craigie, Thomas Nelson and Sons Ltd., Edinburgh, London, H.f. Leiftur, Reykjavík, I.—III. bindi.

Með því ótrúlegasta um þessa bók er það, að hún skuli saman tekin af útlendingi, 85 ára öldungi, sem aldrei hefur dvalið langdvölum á Íslandi, þótt hann hafi komið þar nokkrum sinnum. Hitt er ekki heiglum hent, að ráðast í að safna úrvali rímna, þar sem mikill meiri hluti þeirra, a. m. k. eftir 1550 er óútgefinn og jafnvel lítt skráður eða ekki. Það hefði að vísu síður komið manni á óvart, ef Björn Karel Þórólfsson, mestur núlifandi íslenzkur fræðimaður um rímur, einkum fyrir 1600, hefði ráðist í það að gefa út úrval þetta. En þótt hann hefði gert það af sinni vanalegu vandvirkni og ef til vill sneitt hjá smærri villum, sem Sir William kann að hafa gert sökum ókunnugleika og fjarveru frá heimildum, þá má fullyrða að hvorki hann né neinn annar en Sir William hefði haft þá yfirsýn um erlendar bókmenntir enskar og franskar (**metrical romances, chansons de geste**) sem ein gerir hann færan um að meta rímurnar réttilega og skipa þessu einstaka íslenzka fyrirbæri á réttan stað í heimsbókmenntunum. Og ekki aðeins í heimsbókmenntunum, heldur einnig í íslenzkri bókmenntasögu, þar sem rímurnar hafa oft átt í vök að verjast, stundum fyrir árásir frá kirkjunnar mönnum, stundum frá þeim mönnum er í broddi fylkingar stóðu fyrir veraldlegum andlegum áhrifum, eins og þeir Magnús Stephensen og Jónas Hallgrímsson, þótt Jónas yrði rímunum skeinuhættastur, af því að hann hafði upp á jafngóða eða betri list að bjóða.

Þetta er raunar ekki í fyrsta sinn, að Sir William hefur verið við rímur kenndur um æfina. Fyrstu kynni sín hafði hann af þeim þegar hann var stúdent í Kaupmannahöfn og lærði íslenzku af þeim Valtý Guðmundssyni, Finni Jónssyni, Jóni Stefánssyni og Þorsteini Erlingssyni. Þá rakst hann í Árnasafni á **Skotlands rímur** eftir sr. Einar Guðmundsson (1619—40) að Stað á Reykjanesi; fann hann að þær voru ortar út af Gowrie-samsærinu skozka, mjög óvenjulegt yrkisefni þótt ekki vissi hann það þá. Skrifaði hann grein um rímurnar í Rit fornfræðingafélags Skotlands (1894—5). Skömmu síðar (1897) var hann ráðinn meðritstjóri að hinni miklu sögulegu orðabók ensku í Oxford og vann að henni unz hún var fullger (1928), en þá var hann þegar farinn að vinna að öðrum sögulegum orðabókum, svo sem hinni amerísku, er út kom 1936—44, og forn-skozku orðabókinni, er byrjaði að koma út 1931 og mun nú langt komin, en skozkan er móðurmál Sir Williams. Og nú er hann að vinna að annari útgáfu hinnar íslenzku orðabókar, sem kennd var við Cleasby og Guðbrand Vigfússon. Með allt þetta og margt fleira á sinni könnu skyldi maður hafa ætlað að Sir William hefði ekki haft tíma afgangs til að sinna íslenzkum rímum, ekki ótímafrekari en þær máttu virðast að vera, en það var öðru nær. Hann fylgdist með útgáfu rímna og öllu sem um þær var ritað og 1908 gaf hann sjálfur út **Skotlands rímur** og lét prenta í Oxford. Var sú útgáfa til fyrirmyndar að mörgu leyti, með inngang um rímurnar og bragarhætti þeirra eftir útgefanda sjálfan, með æfi rímnaskáldsins eftir Sighvat Bjarnason Borgfirðing (úr Prestaæfum hans), með lista af heitum og kenningum í rímunum ásamt skýringum á einstökum atriðum og loks með danska textanum sem rímnaskáldið hafði fyrir sér. Má fullyrða að fáar rímur höfðu þá verið sendar úr hlaði með svo rækilegum útbúnaði, enda má sjá að í rímum þeim sem rímnafélagið hefur gefið út nú, hefur það tekið þessa útgáfu til fyrirmyndar.

En þó að nú liði nokkur tími svo að Sir William sendi ekki frá sér fleiri rímur, þá vissu vinir hans á Íslandi af því að áhugi hans á þeim var samur og jafn. Því var það, að þegar hann varð sjötugur þá gengust þessir sömu vinir hans á Íslandi, einkum Snæbjörn Jónsson og Sigurður Nordal, fyrir því að senda honum í afmælisgjöf **Númarímur** Sigurðar Breiðfjörðs í skrautlegri útgáfu, með inngangi um rímurnar eftir Sveinbjörn Sigurjónsson, sérfræðing í æfi og ritum Sigurðar (sem nú hefur gefið út fyrsta bindið af **Ritum** Sigurðar Breiðfjörðs, 1952). Var valið ekki af handahófi gert, því að það er mál þeirra sem til þekkja og vit hafa á, að þetta séu ekki aðeins beztu rímur Sigurðar Breiðfjörðs, heldur beztu rímur sem ortar hafa verið á íslenzka tungu.

Tíu árum síðar, þegar Sir William var

áttræður 1947, heiðruðu Íslendingar hann enn með útgáfu af **Olgeirsrímum danska**, eftir Guðmund Bergþórsson, merkasta rímnaskáld 18. aldar. Björn K. Þórólfsson og Finnur Sigmundsson gáfu bókina út: Finnur ritaði æfi Guðmundar, en Björn Karel um rímurnar og sá um útgáfuna.

En á þessum áratug hafði Sir William aftur tekið til óspilltra málanna við rímurnar. Árið sem hann varð sjötugur hélt hann ræðu í Oxford er hann kallaði **The Art of Poetry in Iceland** (The Tailorian Lecture at Oxford, 1937). Veik hann þar að rímum og mikilvægu hlutverki þeirra í íslenzkri bókmenntasögu. Ári síðar kom út inngangur hans **Early Icelandic Rímur** í handrita útgáfu Munksgaards: Corpus Codicum Islandicorum Medii Ævi XI. (1938).

Á áttræðisaldri brá Sir William sér enn til Íslands (1947). Stuðlaði hann þá að því, að stofnað væri rímnafélag á Íslandi til útgáfu rímna með tilstyrk rímnavina, einkum Snæbjörns Jónssonar. Þá hélt hann fyrirlestur um rímur í hátíðasal Íslenzka háskólans: **Nokkrar athuganir um rímur** (30. júní). Var fyrirlesturinn síðan prentaður sem Aukarit Rímnafélagsins I., 1949. Sjálfur tókst hann þá á hendur að áeggjan Íslendinga, einkum Snæbjarnar Jónssonar, að velja í sýnisbók þá af rímum, sem nú er út komin í þrem bindum. En fyrst (1950) gaf hann út fyrirlestur um rímurnar á ensku: **The Romantic Poetry of Iceland**, sem hann hafði haldið í háskólanum í Glasgow 1949.

Sýnisbókin er, sem sagt, í þrem bindum, tekur hið fyrsta yfir elztu rímur fram að 1550, annað frá 1550 til 1800, þriðja frá 1800 til 1900, þ. e. yfir nítjándu öldina.

Fyrsta bindið var að því leyti auðveldast að taka saman, að tiltölulega margt af þeim rímum hefur verið gefið út (með orðabók) af Finni Jónssyni; mun tæplega annað óprentað en handrit það er Sir William sjálfur ljósprentaði og reit inngang að í safni Einars Munksgaards. Auk þess hefur Björn Karel fjallað svo um tímabilið fram að 1600 að þar við mun litlu einu að bæta. Þessu bindi, og raunar hinum líka, er svo fyrir komið að fyrst er inngangur ítarlegur á íslenzku, þá sýnishorn af rímunum sjálfum og mansöngvunum, sitt í hvoru lagi, og loks styttur inngangur á ensku. Þetta gerir safnið aðgengilegt enskum fræðimönnum og Vestur Íslendingum, sem týnt hafa tungu sinni. Þýðinguna á hinum ítarlega íslenzka inngangi hefur Snæbjörn Jónsson gert. Inngangur fyrsta bindis er um uppruna og einkenni rímna, um mansönginn, um rímnabragfræði og um rímnamálið. Menn hafa oft furðað sig á því af hve miklum skilningi og lærdómi Sir William hefur ritað um rímnahættina (og það þegar í **Skotlandsrímum**), en sannleikurinn mun vera sá, að hann mun geta kastað fram stöku, þótt ekki sé hann kannske eins lipurt rímnaskáld og Snæbjörn Jónsson vinur hans (sbr. **Skáldaflota** Snæbjörns).

Í öðru bindi vandast málið með valið á rímunum, því þar er mikill meiri hluti rímna óútgefinn, enda hefur Sir William ekki látið staðar numið við þær prentuðu eingöngu. Á þessu tímabili hætta mansöngvarnir gömlu að vera ásta- eða kvennakvæði, og það svo að menn gleyma merkingu orðsins og halda að það merki **mann-söngur** eða jafnvel **manna söngur.** Þessi merkingabreyting var mér ný og ókunnug, þótt ég vissi það að **man-söngvarnir** eftir 1600 höfðu mjög sundurleit yrkisefni gat stundum verið í þeim rímnaskálda tal auk annars sem skáldinu gat dottið í hug. Allt þetta efni rekur útgefandi ljósar en nokkuru sinni hefur verið gert. Bragarháttum, og þó einkum tilbrigðum þeirra, fjölgar nú mjög svo menn neyðast til að fara að gefa þeim heiti og telja þá í rímnaháttatölum, eða háttalyklum.

Þó að sum rímnaskáld 19. aldar gætu fengið rímur sínar prentaðar, þá mun, hlutfallslega, vera næstum eins mikið af óprentuðum rímum frá þeirri öld. En þótt margir yrðu til að yrkja rímur á því tímabili og fleiri en margir myndu hyggja, þá virðist tala Sir Williams 240 vera helzt til há, að því er Finnur Sigmundsson segir mér. Hann hyggur nær lagi að það sé tala rímnaskálda eftir 1700. Í inngangi þessa bindis prentar Sir William ekki upp hinn alræmda dóm Jónasar um **Rímurnar af Tristrani og Indiönu** (sem hann birtir útdrátt úr í textanum) heldur ýmsa dóma síðari manna hlynntari rímunum, eins og eftir Hans Natansson (1881), Þorstein Erlingsson (1892), Dr. Jón Þorkelsson (forna) (1907), Özzur Özzurarson (1910) og Einar Benediktsson (1913). Í þróun mansöngs og bragarhátta gerðist lítið á 19. öld; helzta nýjungin var nýlanghenda Sigurðar Breiðfjörðs, þótt reyndar væri hún ekki ný.

Ekki má skiljast svo við þetta mál að ekki sé vakin athygli á hinni traustu vináttu þeirra Sir Williams og Snæbjörns Jónssonar, því hún gengur eins og rauður þráður gegnum sögu þeirra og vandséð, hvort nokkuð hefði gerzt um útgáfu rímnanna án hennar. Hvenær þessi vinátta hefur tekizt með þeim veit ég ekki með vissu, en er samt kunnugt um, að þeir hafa þekkzt síðan veturinn 1917—18, því þá lagði Snæbjörn fyrir Sir William uppkast að kennslubók sinni í íslenzku **(A Primer of Modern Icelandic)** sem síðar (1927) var prentuð í Oxford University Press að áeggjan Sir Williams. Hver sem les formála Snæbjarnar þarf ekki að ganga í grafgötur um þakklæti Snæbjarnar fyrir þennan greiða, en vinátta hans virðist

vera af því tagi sem heldur bæri að kalla tröllatryggð, og væri betur að fleiri væri svo skapi farnir. En þótt Snæbjörn sé prýðilega ritfær maður, rímnavinur og rímnaskáld, þá er hann engu minni athafnamaður og hefur lengi haft bókaútgáfu á hendi prýðilega rekna, og víst oftar valið bækur eftir því sem honum féll við höfundana, heldur en til þess að græða fé á útgáfunni. Því var það, að þegar til þess kom að senda Sir William **Númarímur** í sjötugsafmælisgjöf, þá gaf Snæbjörn þær út á sínu forlagi sem eina hina „íburðarmestu bók sem prentuð hefur verið á Íslandi, en þó í hvívetna gætt smekkvísi". Þetta eru ekki tóm orð heldur sönn lýsing á bókinni, ekkert minna gat nægt höfðingsskap Snæbjarnar og var þetta þó á kreppuárunum og ekki beinlínis líklegt að þá myndi bók seljast sem af voru prentuð aðeins 200 eintök á £1 : 11 : 6 eintakið. Ekki veit ég hvernig bókin hefur selzt, en hitt er víst að íburðarmestu skrautútgáfur eftirstríðsáranna munu tæplega standa henni á sporði.

Svo kemur Sir William heim og hjálpar til að stofna Rímnafélagið, en í því mun Snæbjörn líka vera lífið og sálin, a. m. k. á bak við tjöldin. Sir William gaf því það sem eftir var af upplaginu á **Skotlandsrímum**. Rímnafélagið hefur nú þegar gefið út fimm bindi af rímum*) auk tveggja aukarita, annað eftir Sir William hitt um hann.

Að lokum fær Snæbjörn Sir William til að taka saman Sýnisbókina, höfuðrit í sinni grein. Hér eru tveir atorkumiklir höfðingjar, sem magna hvor annan til góðra verka og stórra fyrir vináttu sakir og ástar á íslenzkum fræðum. Slíkir menn eru salt jarðar og verður seint fullþakkað. Þeir minna mann á fóstbræður til forna og ættu það skilið að eftirminnileg hómilía væri saman tekin um vináttu þeirra. Því miður er ég lítill prédikari og kenni mig ófæran til þeirra hluta. En þeim sjálfum til skemmtunar (og almenningi) vil ég vísa þeim á ræðuna, sem Gröndal lætur Marmier halda til heiðurs fóstbræðrunum Lord Dufferin og Nikander nálægt lokum **Heljarslóðarorustu**. Vona ég að ræðan geti stytt þeim eina stund í ellinni, auk þess sem hún biður þeim langra lífdaga, en tryggðinni og atorkunni hygg ég að þessir góðu menn muni halda á meðan þeir geta tuggið smérið, einnig án vorrar bænar.

---

*) **Rímurnar eru:**

1. Sveins rímur Múkssonar, eftir Kolbein Grímsson (sem St. G. St. kvað um).
2. Persíus rímur, eftir Guðmund Andrésson.
3. Hyndlu rímur og Snækongs rímur, eftir Steinunni Finnsdóttur.
4. Hrólfsrímur kraka, eftir Eirík Hallsson og Þorvald Magnússon.
5. Ambáles rímur, eftir Pál Bjarnason.

**Aukaritin eru:**

I. Nokkrar athuganir um rímur, eftir Sir William A. Craigie.

II. Sir William A. Craigie og íslenzkar rímur, eftir B. K. Þórólfsson.

Öll ritin fást fyrir 216.00 krónur hjá Gísla Gestssyni, Þjóðminjasafninu, Reykjavík. Væri óskandi að sem flestir Vestur-Íslendingar gætu gerzt félagar, því margir þeirra eldri standa nær rímnaskáldskapnum en sumir frændur þeirra á Íslandi. Þeir ungu geta alltaf áttað sig í **Sýnisbók** Craigie's.

---

**Snæbjörn Jónsson:**
**VÍSNAKVER, Rvík, 1953.**

Þegar hver smuga Tímaritsins var fullsett barst mér þessi fallega ljóðabók. Vísnakver nefnir höf. bókina, sem bendir á hans alþekkta yfirlætisleysi. Megum við, sem gefum bæklingum okkar glaummeiri nöfn, blygðast okkar við samanburðinn. — Mest eru þetta lengri eða styttri kvæði, sum mjög persónulegs eðlis, önnur algengara efnis, með þægilegri undiröldu þunglyndis, en án æðru eða írafárs. Svona kvæði kveikja hugsun og þurfa því ekki að vera til skemtilesturs. En samt er það nú svona með mig nærri áttræðan karlinn, að finni ég hvergi sólskin, blómilm eða söng æskuáranna í heilli bók, finst mér ávalt eitthvað á vanta. Með þessu er ég ekki að kasta skugga á kvæðin. Ég held að þau séu öll góð, og a. m. k. ekkert lélegt. Þau eru í þeim stíl, sem við, aldraða fólkið, könnumst best við — fast form, gott rím, víða reglulega hrynjandi, og orð sem allir skilja. Að lesa heila kvæðabók í einum fleng er ekki háskalaust. Huganum hættir oft við að slóvgast svo á leiðinni, að þar sem maður dró ekki bein úr sjó við fyrstu tilraun, rekst maður á uppgripaafla í öðrum eða þriðja drætti. Ég hefi hvorki rúm né löngun til að nefna nein sérstök kvæði, enda er höfundunum oftast gerður bjarnargreiði með því; a. m. k. þykist ég hafa rekist á það löngum, að ýmislegt hefir hlotið lof, er síst skyldi, en aftur að vettugi virt það sem manni tók sárast til.

**G. J.**

# Þrítugasta og fjórða ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

hófst 23. febrúar 1953; setti forseti þingið um 10 leytið, og var þá sunginn sálmurinn nr. 38 í íslenzku sálmabókinni „Þín miskunn, ó Guð, er sem himininn há“. Því næst flutti séra Eiríkur Brynjólfsson frá Vancouver undurfagra bæn, og síðan var sunginn sálmurinn „Faðir andanna“.

Forseti, séra Valdimar J. Eylands, flutti ársskýrslu sína og gerði Dr. Richard Beck tillögu um, að hún yrði samþykkt með smávægilegum breytingum, og þakkaði forseta skýrsluna.

Séra Egill Fáfnis lagði og til, að menn risu úr sætum og vottuðu forseta sérstakar þakkir fyrir glögga og góða skýrslu.

**Ársskýrsla forseta Þjóðræknisfélagsins**

Það er staðhæft í gömlum bókum að ekkert sé nýtt undir sólunni. Sjálfsagt er það rétt, en hitt er þó jafnvíst, að margt kemur okkur kynlega fyrir, vegna þess að það er nýtt hvað snertir reynslu okkar sjálfra. Þannig var það nýtt í sögu þessa félags, að síðasta ársþing þess var haldið í júnímánuði síðastliðið sumar. Var það þing haldið þá í tilraunaskyni til að skera úr margra ára ágreiningsefni meðal þingfulltrúa um það, hver árstíðin væri heppilegri til þinghalds, veturinn eða sumarið. Ekki þótti þó þetta sumarþing takast betur en svo, hvað aðsókn snerti, að í þetta sinn var aftur horfið að því ráði að halda nú þing á venjulegum tíma. Breyting hefir þó verið gerð á lögum félagsins, þannig, að á hverju þingi verður að ákveða, hvenær næsta þing skuli haldið. Því ákvæði verðum við að fylgja nú, og jafnan, meðan öðruvísi er ekki gengið frá því máli að lögum.

Af þessari nýbreytni frá fyrra ári leiðir svo annað nýtt, og það er, að engin stjórnarnefnd hefir áður í sögu félagsins verið til þess kvödd að leggja fram skýrslu sína, og skila af sér til þings, eftir aðeins níu mánaða starf. Mætti því ætla, að í staðinn fyrir ársskýrslu forseta, komi nú aðeins níu mánaða skýrsla, sem ætti að réttu lagi að vera þriðjungi styttri en venjulega. Um það, að svo verði, skal þó engu fögru lofað.

Hvað sem þessum nýmælum líður, erum við nú samankomin í dag til að hefja 34. ársþing Þjóðræknisfélagsins, og býð ég ykkur öll, þingfulltrúa og gesti, velkomin til starfs, ráðagerða og samfélags. Hvaða þýðingu hefir það annars að starfrækja þetta félag, og halda þessi þing? Til eru þeir, sem myndu svara og segja: Það hefir bókstaflega enga þýðingu, nema sem skammdegisskemmtun og dægradvöl fyrir nokkra öldunga í Winnipeg og nærliggjandi sveitum, fólk sem aldrei hefir unað hlutskipti sínu í kjörlöndum sínum, en lifir og hrærist daglega í hugsunum sínum, austur í blámóðu íslenzkra fjalla. Þá eru þeir einnig, sem myndu kveða enn sterkara að og segja, að þetta, og öll önnur félög af sama tagi, með hvaða þjóðarbroti sem er, sé blátt áfram Þrándur í Götu eðlilegrar og sjálfsagðrar þjóðfélagsþróunar í þessari heimsálfu. Félagið hefir það takmark, segja þeir, að blása í gamlar glæður, sem ættu að vera kulnaðar út fyrir löngu, sem sé, tungu og menningarerfðir smáþjóða, sem einskis mega sín á mælikvarða heimsmálanna. Væri þá nær að kynna þessu fólki engilsaxneska menningu, svo að það gæti þeim mun betur, og þeim mun fyrr samlagað sig hinu vestræna þjóðlífi, og hætt að mæna tárvotum saknaðaraugum til hins hrafnfundna lands norður í höfum.

Við deilum ekki á þá bræður, sem þannig tala eða hugsa, en engu að síður höldum við stefnunni að settu marki, og biðjum engan mann afsökunar á því að við erum til sem þjóðræknisfélag, eða á þeirri starfsemi, sem við höfum rekið og munum reka. Rúmlega 30 ára saga þessa félags hefir sýnt og sannað, svo að ekki verður á móti mælt, að við, sem erum í Þjóðræknisfélaginu, og fjölmargir aðrir, sem, þótt

ekki séu þeir meðlimir félagsins, vinna bæði beint og óbeint að áhugamálum þess, eru sízt lakari borgarar hinna vestrænu þjóðlanda en hinir, sem hafa flýtt sér að því að fela sig og gleyma sjálfum sér, uppruna sínum og erfðum. Hvaða verðleiki getur verið í því fólginn að kasta á glæ, um stundir fram, öllu því gamla og góða, sem okkur hefir fallið í erfðahlut sem íslenzkum mönnum, eða fólki íslenzkrar ættar? Í þessu sambandi er þess að gæta, að íslenzki arfurinn er tvöfaldur, að því er þá okkar snertir, sem fæddir erum á Íslandi. Annars vegar er **föðurarfurinn**, landið sjálft. Þann hluta arfsins skildum við eftir, er við hurfum úr landi feðra okkar og gerðumst borgarar hinna vestrænu þjóðlanda. Hins vegar er **móðurarfurinn**, málið, og þau bókmenntalegu menningarverðmæti, sem það hefir skapað, fyrr og síðar. Þessi móðurarfur var okkur gefinn í vöggugjöf, og hann varð snemma óaðskiljanlegur þáttur í sálarlífi okkar. Þennan arfshluta viljum við efla og fá hann börnum okkar og barnabörnum í hendur, svo að þau, á sínum tíma, megi leggja hann í byggingu þess menningarmusteris, sem hér er í smíðum. Og ekkert er okkur meira gleðiefni en það, að sjá þess vott, að hin unga kynslóð, sem á að erfa landið, er þess reiðubúin að taka á móti þessari dýrmætustu gjöf, sem við, hinir eldri, getum að henni rétt: móðurarfinn íslenzka.

Þetta félag hefir frá öndverðu, þrátt fyrir þær undantekningar, sem að framan greinir, átt miklum vinsældum að fagna, og stefna þess hlotið viðurkenningu margra mætra manna af ýmsum þjóðflokkum. Félagið hefir notið þeirrar sæmdar, að hafa átt að heiðursverndurum nokkra þjóðhöfðingja, bæði landstjóra Canada og forseta Íslands. Fyrir nokkru fór stjórnarnefndin fram á það við Herra Ásgeir Ásgeirsson, hinn nýja forseta Íslands, að hann gerðist heiðursverndari félagsins, eins og fyrirrennari hans, hinn ástsæli Herra Sveinn Björnsson, hafði verið. Sendi forseti Íslands jákvætt skeyti um hæl, og er okkur mikil ánægja að því að mega telja hann vin og verndara þessa félags. Þá var hitt okkur ekki síður gleðiefni, er His Excellency, Vincent Massey, landstjóri Canada, brást á sama hátt við samskonar málaleitan af okkar hálfu, og gerðist heiðursverndari okkar hér vestan hafs. Erum við þakklát þessum tignu mönnum fyrir góðvild þeirra gagnvart félaginu, og munum við jafnan kappkosta að haga svo störfum okkar og stefnu félagsins, að í engu kasti skugga á nöfn þeirra.

Í þetta sinn, eins og á fyrri þingum, hljótum við að minnast þeirra, sem horfið hafa af starfssviðinu fyrir fullt og allt. Við þökkum þeim vel unnin störf, geymum minningu þeirra með hlýhug og biðjum ástvinum þeirra allrar blessunar. Meðlimir félagsins og nánir samstarfsmenn, sem látist hafa frá því er þjóðræknisþing var haldið síðast, eru:

Árni Pálsson, prófessor, Reykjavík, (heiðursfélagi), Mrs. Aðalbjörg Thordarson, Selkirk; Hrólfur Sigurdson, Gimli; Dr. Baldur Olson, Winnipeg; Ármann Björnsson, Vancouver; Eiríkur Sigurðsson, Winnipeg; Mrs. Anna Thordarson, Seattle; Björn Hinriksson, Churchbridge; Sigurður Finnson, Árborg; Ástvaldur Hall, Wynyard; Sigurður Þorvaldur Kristjánsson, Gimli; Jón Einarsson, Winnipeg; Jóhannes Pétursson, Winnipeg; Lilja Oliver, Winnipeg; Thorlákur Nelson, Lundar, Man.; Elías Ólafsson, Gimli.

„Ekki skal gráta Björn bónda, heldur safna liði", var sagt forðum, og svo segjum við enn. Minningu þessara og annara látinna meðlima félagsins, er beztur og mestur sómi sýndur þannig, að við, sem enn erum ofan moldu, grípum merkið, sem fallið hefir úr höndum þeirra, höldum því hátt á loft og berum það fram til sigurs.

Er telja skal greinar starfsmála okkar, vil ég fyrst nefna **Samvinnumál við Ísland.** Hvað Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi snertir, hlýtur samvinnan við Ísland að vera og verða ein af meginstoðunum, sem félagið stendur á. Á því stutta tímabili, sem hér um ræðir, hafa þó verið nokkur samskipti milli stofnþjóðarinnar og okkar hér. Allmargir gestir hafa farið fram og aftur milli landanna, og borið bróðurorð og góðvild yfir hafið. Skömmu eftir að síðasta þjóðræknisþing var haldið, komu hingað til borgarinnar þau Guðmundur bóndi Jónsson frá Litlu-Brekku í Borgarfirði, kona hans og tengdasynir þeirra, Hilmar Skagfield, Þórólfur Smith og konur þeirra. Skrifaði Smith síðan ferðasögu þeirra í íslenzk blöð, og minntist þá mjög hlýlega á heimsókn þeirra til Winnipeg. Þá kom hingað Gylfi Þ. Gíslason, alþingismaður og prófessor í viðskiptafræði við Háskóla Íslands, og all-löngu síðar bróðir hans, Vilhjálmur Þ. Gíslason, þjóðkunnur menntamaður og rithöfundur, nú forstöðumaður Ríkisútvarpsins. Flutti hann opinbert erindi hér í borginni fyrir áeggjan Þjóðræknisfélagsins, er hann nefndi: „Athafnir og andlegt líf". Þá kom hingað í heimsókn til ættingja sinna í Argyle-byggð Jónas Kristjánsson, kaupsýslumaður frá Akureyri, og sömuleiðis frú Anna Ásmundsdóttir Torfason frá Reykjavík; sýndi hún listmuni, einkum ullarvörur, víðsvegar um Bandaríkin og Canada. — Sumir þessara gesta, og aðrir sem komu, en ég kann ekki að nefna,

fóru svo hratt yfir og áttu svo skamma viðdvöl, að þeirra gætti ekki á opinberum vettvangi. Heim til Íslands fóru á þessu tímabili, að því sem mér er kunnugt, þeir Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Grettir Eggertson, vara-féhirðir félagsins, Páll Hallson, Benedikt Ólafsson, Guðmundur F. Jónasson og frú, og frú Guðrún Blöndal. Valdimar kennari Lárusson, dvaldi einnig á Íslandi um þessar mundir. Þeir Gísli, Páll og Valdimar, og sömuleiðis frú Blöndal, hafa flutt fróðleg og skemmtileg erindi um Íslandsferð sína og ágæt umsögn um sama efni birtist á prenti eftir Guðmund F. Jónasson. Ég tel það rétt að geta um þetta ferðafólk vegna þess, að gagnkvæmar heimsóknir af þessu tagi hafa mjög mikið gildi til fróðleiks og kynningar á báða bóga. Slíkar heimsóknir þyrftu að fara mjög í vöxt, og er athugunarvert, hvað hægt er að gera þeim til örvunar. Ef til vill gætu hópferðir fólks með flugvélum, fram og til baka, komið til greina. Nýlega er fram komið tilboð frá íslenzku flugfélagi um beina ferð í júnímánuði n.k. frá Winnipeg til Reykjavíkur, og svo beina ferð aftur hingað vestur, eftir sjö vikna dvöl á Íslandi. Fargjaldið er óvenjulega lágt, þar sem um slíka langferð er að ræða, en fyrirtækið annars bundið því skilyrði að fimmtíu manns gefi sig fram til ferðarinnar. Nánari upplýsingar um þetta mun prófessor Finnbogi Guðmundsson gefa þeim, er þess óska. Vonandi er, að fólk noti sér þetta óvenjulega tækifæri, og að hér geti orðið um að ræða upphaf tíðari og stórfelldari samgangna milli landanna en áður hafa tíðkast.

Erindi, sem menn á Íslandi hafa talað á stálþræði og segulbönd, hafa verið flutt hér vestra, en vegna ófullkominna tækja hér hjá okkur, hefir flutningur þeirra ekki gengið að óskum. Aftur á móti hafa erindi, sem á þennan hátt hafa verið send héðan, verið flutt með ágætum árangri í Ríkisútvarpi Íslands. Erindi af þessu tagi, eru ágætur kynningarmiðill, þegar vel tekst. Væri gott, ef þingið vildi athuga möguleikana á frekari gagnkvæmum viðskiptum á fróðlegum erindum og skemmtiskrám með þessum hætti.

Þá eru bókaviðskiptin og blaðasendingarnar nokkuð, sem athuga ber í samvinnumálunum við Ísland. Hvað bókaviðskiptin snertir, þá eru þau einhliða og óhæfilega treg. Bókaútgáfa okkar er naumast teljandi, að undanteknu Tímaritinu, sem ég mun minnast á síðar. En okkur er það mjög nauðsynlegt að fá meira úrval af íslenzkum bókum hingað vestur, og að fá þær með hagkvæmari kjörum en verið hefir, ef þess er nokkur kostur. Hvort mögulegt er að útbreiða vesturíslenzku vikublöðin meira á Íslandi en orðið er, er annað mál, sem athuga mætti, og sömuleiðis útbreiðslu íslenzkra viku- eða dagblaða hér vestra. Hljómplötur með íslenzkum lögum eru nú framleiddar á Íslandi. Mun með engu móti betur unnt að kynna íslenzka hljómlist en þannig að fá þessar hljómplötur í stórum stíl hingað vestur. Reynslan sannar, að þær seljast hér vel. Enda þótt útgáfan á Sögu Íslendinga í Vesturheimi sé ekki lengur á vegum Þjóðræknisfélagsins, þykir ástæða til að geta þess, í þessu sambandi, að það fyrirtæki er nú í höndum Menningarsjóðs og Þjóðvinafélagsins í Reykjavík. Hafa þeir látið prenta fjórða bindi þessa verks og mun hið fimmta, og væntanlega hið síðasta, nú vera í undirbúningi. Sem kunnugt er, hefir dr. Tryggvi Oleson, vara-forseti Þjóðræknisfélagsins, verið ráðinn til að ljúka þessu verki. Þá er enn eitt, sem hér ber að nefna, en það eru fréttaþættir þeir, sem íslenzka Ríkisútvarpið sendir vikulega til blaða okkar hér. Er það Íslendingum hér vestra gleðiefni að fá þannig stöðugar fréttir austan um haf; vottar félagið Ríkisútvarpinu þakkir fyrir að senda þessar fréttir, og sömuleiðis vikublöðum okkar hér þakkir fyrir að birta þær.

**Útbreiðslumál — Fræðslumál**

Meðlimir stjórnarnefndar hafa unnið að útbreiðslumálum félagsins á þessu tímabili, eftir því sem tími og ástæður þeirra hafa leyft. Hefir félaginu og nefndinni bætzt óvenjulega athafnamikill maður á þessu sviði, þar sem prófessor Finnbogi Guðmundsson er. Hefir hann sett nýtt met í ferðalögum og fræðsluerindum, sem hann hefir flutt á þessu tímabili. Hefir hann haldið eða sótt samkomur á eftirgreindum stöðum: Baldur, Glenboro, Lundar, Vogar, Gimli (tvisvar), Árborg, Geysir, Riverton, Brown, Mountain, Leslie, Wynyard, Blaine, Silver Lake, Wash., og Hecla. Á fjórum stöðum talaði hann í tilefni af Íslendingadeginum. Þá komu þeir prófessorarnir, Finnbogi og dr. Tryggvi Oleson, ásamt Heimi Thorgrímssyni, fram á samkomu á Lundar og í Árborg; fluttu þeir erindi á þessum stöðum og sýndu kvikmynd, „The Northern Story", sem Sendiráðsskrifstofan í Washington, D.C., lánaði. Var mynd þessi einnig sýnd í Vancouver, B.C., vegna milligöngu séra Eiríks Brynjólfssonar þar í borg, og sömuleiðis var hún sýnd hér í Winnipeg. Ennfremur átti prófessor Finnbogi tal við menn um þjóðræknismál í Saskatoon, Sask. Markerville, Alberta, Calgary, Alberta, Vancouver, B.C., og Bellingham, Wash. Þá hefir dr. Áskell Löve prófessor, flutt fróðleg erindi og sýnt fallegar myndir frá Íslandi hér í Winnipeg, í Brown, Man., og ef til vill víðar.

Þá hefir dr. Richard Beck, prófessor í Grand Forks, og fyrrverandi forseti félagsins, ekki setið aðgerðarlaus um útbreiðslu- og fræðslumál okkar á þessu tímabili. Dugnaður hans, áhugi og atorka, er, sem kunnugt er, með fádæmum. Mun þetta vera tuttugasta þjóðræknisþingið, sem hann hefir sótt og setið. Afstöðu sinnar vegna hefir hann getað unnið sín kynningarstörf á víðari vettvangi en okkur hinum er unnt. Síðan þing var haldið síðast hefir hann flutt kveðjur félagsins, meðal annars á umdæmisþingi Sambands norskra bræðralags- og þjóðræknisfélaga í Fargo, N.D., og á fjölmennu allsherjarþingi sama félagsskapar (Supreme Lodge, Sons of Norway) í Minneapolis. Hann var einn ræðumanna á lýðveldis hátíðardeginum að Mountain, N.D., aðalræðumaður á landnámshátíð Norður Nýja Íslands að Hnausum, og flutti minni Íslands í ljóði á Íslendingadeginum á Gimli. Hann hefir einnig, á umræddu tímabili, haldið ræður um norræn efni á fjölsóttum samkomum norskra byggðarlagafélaga í Norður-Dakota og Minnesota; ennfremur útvarpaði hann frá útvarpsstöð Ríkisháskólans í Grand Forks ræðu um Leif Eiríksson; var aðalræðumaður á 10 ára afmælishátíð Víkingafélagsins hér í borginni (The Viking Club), flutti fyrirlestur um Ísland á fundi menningarfélagsins „Fortnightly Club", Grand Forks, og fyrir nokkrum dögum fyrirlestur um íslenzk blöð og blaðamennsku á allsherjar samkomu kennara og nemenda í Blaðamennskudeild Ríkisháskólans í Norður-Dakota. Ennfremur hefir dr. Beck, á umræddu tímabili, birt fjölda af greinum og ritdómum um íslenzkar bókmenntir og menningarmál í íslenzkum blöðum og tímaritum beggja megin hafsins og ritað um norræn efni í ýms blöð og tímarit í Bandaríkjunum.

Forseti hefir talað máli félagsins og flutt erindi um íslenzk efni á nokkrum stöðum á þessu tímabili. Í október í haust átti hann tal við stjórnarnefnlir deildanna á Kyrrahafsströndinni, í Vancouver, Blaine og Seattle. Í Seattle flutti hann erindi að tilhlutan deildarinnar þar. Einnig flutti hann erindi á mjög fjölsóttri og glæsilegri Leifs Eiríkssonar hátíð Norðmanna þar í borginni. Í Minnesota átti hann einnig tal við menn um málefni Þjóðræknisfélagsins, og seldi þar nokkur eintök af Tímaritinu, með aðstoð Valdimars Björnssonar, ríkisféhirðis í Minnesota, sem þá var staddur í heimahögum sínum. Einnig hefir forseti komið fram á nokkrum öðrum stöðum, og á samkomum og samsætum hér heima fyrir í nafni félagsins.

Ritari félagsins, frú Ingibjörg Jónsson, hefir unnið mikið og gott starf á árinu, bæði sem skrifari félagsins, en einkum þó sem ritstjóri hinna vinsælu kvennadálka í Lögbergi. Í ritgerðum sínum hefir hún komið víða við, og nú nýlega ritaði hún allýtarlega grein um þjóðræknismál okkar, hin ýmsu félög okkar, samband þeirra sín á milli og sameiginleg áhugamál og takmark.

En þótt þeir, sem að ofan greinir, og margir aðrir, hafi unnið vel og dyggilega, hver eftir getu sinni og ástæðum, að útbreiðslu- og fræðslumálum í þágu hins íslenzka málstaðar, liggja mörg störf á þessu sviði óunnin að mestu, og sums staðar eru ónumin lönd, sem yrkja mætti. Í fyrravetur kom ungur íslenzkur læknir, Björn Jónsson, þá búsettur á Baldur, Man., með allnýstárlegar tillögur inn á Frónsfund hér í bænum. Vildi hann láta hefjast handa um enskar þýðingar á íslenzkum úrvalsbókmenntum, útgáfu nýs tímarits, sem helgað væri bókmenntalegum efnum, útgáfu Íslendingasagna hinna fornu í framhalds myndasögum; einnig taldi hann æskilegt, að íslenzku vikublöðin tækju upp þann hátt, að prenta úrvalsskáldsögur íslenzkar í stað hinna þýddu reyfara, sem löngum hafa birzt í dálkum þeirra. Var nefnd skipuð á Frónsfundi til að athuga tillögur læknisins og leggja fram álit sitt. Nefndin hefir átt tal um þetta mál, og komist að þeirri niðurstöðu, að hér væri um svo yfirgripsmikið mál að ræða, að heppilegast væri, að það kæmi fyrir þann eina mannfund, sem nálgast það að geta heitið allsherjarþing Íslendinga hér vestan hafs, fremur en fyrir eina deild félagsins. Nefndin vill taka það fram, að hún er framsögumanni sammála um, að hér sé um mikilsvarðandi mál að ræða, sem sé þess vert, að það sé athugað gaumgæfilega. Um leið skal á það bent, að vísir er nú þegar til að ýmsu af þessu, sem hér er bent á. Allmikið er þegar til af enskum þýðingum á íslenzkum ljóðum og sögum, en þetta lesmál er dreift, óaðgengilegt og í fárra manna höndum. Ef Þjóðræknisfélagið sæi sér fært, mætti ef til vill gefa út eins konar sýnisbók íslenzkra bókmennta á ensku. The Icelandic Canadian Club hefir um margra ára skeið gefið út mjög fróðlegt, vandað og vinsælt tímarit á ensku, sem er helgað íslenzkum málum. Virðist sem tímarit þetta fullnægi þörfinni um tímarit á ensku, eins og sakir standa. Annað íslenzka vikublaðið (Lögberg) er nú þegar tekið að prenta góða, íslenzka skáldsögu, sem tekur mjög fram að efni og orðfæri þýddum neðanmálssögum, og munu margir lesendur blaðsins þakklátir fyrir þessa nýbreytni. Þá er eftir hugmyndin um frekari þýðingar á íslenzkum bókmenntum, og framhaldsmyndasögurnar. Til hvors tveggja þarf verulega listamenn; fyrir hið fyrra listamenn máls og stíls á tveimur tungumálum,

og fyrir hið síðara hugsjónaauðugan og handlipran fagmann, sem er til þess fær að túlka anda og efni hinna fornu hetjusagna þannig að þær verði aðgengilegar fyrir listasmekk lesandans. Þegar svo þessir fagmenn eru fundnir og fengnir, þarf fjárráð ei lítil til að kosta þessi fyrirtæki. Ef til vill væri viturlegt, að þetta þing kysi nefnd til að athuga þetta mál frá öllum hliðum.

Þá er þess að geta, að á s.l. þingi flutti hinn víðkunni áhuga- og dugnaðarmaður dr. Th. Thorlakson mjög athyglisverða ræðu um viðhorf Vestur-Íslendinga til sameiginlegra áhugamála austan hafs og vestan, og benti í því efni á möguleika til víðtækra félagssamtaka þeim til eflingar. Benti hann t. d. á skógræktarmál Íslands, sem gjarnan gæti komið til greina sem sameiginlegt verkefni fyrir öll félagssamtök Íslendinga hér o. fl. Ræðan vakti mikla athygli, eins og við var að búast, og var prentuð í íslenzku blöðunum hér, og sömuleiðis í útdrætti í tímariti Icelandic Canadian Club. Því miður er dr. Thorlakson ekki staddur á þingi nú til að innleiða þetta mál á ný, en mun væntanlega leggja ákveðnar tillögur fram við stjórnarnefnd félagsins innan skamms.

Til fræðslumála má telja margt, sem unnið hefir verið, og unnið er í þessu félagi. Þar tilheyrir kennarastóllinn í íslenzku við fylkis-háskólann hér, þessi glæsilegi draumur, sem nú er orðinn að veruleika, sem æ meiri vonir standa þó til. Þá má einnig nefna lestrarflokka þá í íslenzku, sem prófessor Finnbogi skipulagði og veitir forstöðu, bæði í sambandi við kvöldnámskeið háskólans, og nokkru síðar á Gimli. Eru þessir lestrarflokkar vel sóttir á báðum stöðunum og veita fólki mikla ánægju og fræðslu. Þá má heldur ekki gleyma íslenzkukennslu barna, sem um margra ára skeið var veitt í svonefndum Laugardagsskóla. Á síðari árum varð það ljóst, að því fyrirkomulagi varð að breyta, því að þrátt fyrir góða kennslukrafta fór aðsóknin sífellt þverrandi. Nú í vetur hefir það tekist fyrir framtakssemi prófessor Finnboga, að koma þessu starfi í nýtt og betra horf. Er nú kennsla veitt í fundarsal Fyrstu lútersku kirkju, á milli kl. 11 og 12 á sunnudögum. Aðsókn að þessum barnaskóla hefir verið langt um vonir fram, nálega 50 börn hafa komið suma dagana. Búist er við að svipuð starfsemi hefjist í kirkju Sambandssafnaðar innan skamms. Góðir kennslukraftar hafa fengizt, og má nú segja, að þetta mál sé vel á veg komið. Nokkur skortur mun þó enn vera á kennslutækjum, svo sem stafrófskverum og léttum lesbókum. Einhvern tíma koma væntanlega „linguephone" plöturnar á íslenzku, sem prófessor Stefán Einarsson er nú að semja textana að. Verða þær kærkomnar öllum þeim ungu, sem læra vilja íslenzka tungu.

**Útgáfumál**

Útgáfumál félagsins snúast nú einkum um Tímaritið og útbreiðslu þess. Þetta mál var mikið rætt á síðasta þingi, og loks samþykkt tillaga þess efnis, að meðlimagjald félagsmanna skuli hækkað úr einum dollar í tvo, að meðtöldu Tímaritinu. Ennfremur var samþykkt að 50 cent af þessum $2.00 skuli ganga til deilda — þannig fá menn Tímaritið og félagsréttindi í Þjóðræknisfélaginu fyrir $1.50 á ári. Er auðsætt, að tekjur félagsins af slíku útgáfufyrirtæki eru alls engar. Hins vegar mundi með öllu ókleift að gefa ritið út, ef því væri ekki fleytt með auglýsingum, sem í sjálfu sér eru bein gjöf. Þetta er vandræða búskapur og er félaginu með þessu bundinn fjötur um fót. Er tilgangslítið að gera samþykktir á þingum um fjárfrekar framkvæmdir, ef um leið er alltaf sunginn sálmurinn um það, hvað við séum fáir, fátækir og smáir, með undirspili galtómrar fjárhirzlu.

Var fyrr í þessari skýrslu vikið að útbreiðslu Tímaritsins á Íslandi. Hún hefir ávallt verið nokkur, en á síðari árum hefir hún farið minnkandi, vegna óreiðu, sem virðist hafa verið á útsending ritsins til kaupenda og á innköllun gjalda. Nú vildi svo vel til, að Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, brá sér til Íslands í fyrrasumar, og kom hann þá nýrri og góðri skipan á þessi mál, með aðstoð nokkurra áhugamanna í Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Reykjavík. Tók Sigurður Sigurgeirsson bankaritari, sonur Sigurgeirs biskups, að sér afgreiðslu ritsins á Íslandi. Er það mál þannig komið í góðs manns hendur. Á Gísli þakkir skilið fyrir framtakssemi sína og heppilegar ráðstafanir, sem hann gerði félagsins vegna í þessu máli.

**Afmæli skáldanna, Stephans G. Stephanssonar og Gests Pálssonar**

Á síðasta þingi var samþykkt áskorun til stjórnarnefndar félagsins um að beita sér fyrir því, að aldarafmælis Stephans G. Stephanssonar skyldi minnst með sem víðtækustum og virðulegustum hætti. Nefndin hefir fjallað um þetta mál, og mun það nú aftur koma fyrir þetta þing. Þess má geta, að ungmennafélög nokkur á Íslandi eru að beita sér fyrir því, að skáldinu verði reistur minnisvarði í fæðingarsveit sinni í Skagafirði, og er hugmyndin að minnisvarðanum verði komið upp á þessu ári. Í þessu skyni hafa verið mótuð minnismerki úr silfri, sem hafa verið seld víðsvegar á Íslandi, og einnig hér, þessu máli til stuðnings. Hefir dr. Richard Beck ritað um málið og haft umsjón með minnis-

merkjum þessum. Munu þessi merki nú til sölu hjá Davíð Björnssyni bóksala hér í bænum, og ef til vill fleirum.

Aldarafmælis Gests Pálssonar, skálds, verður minnst með samkomu, sem sérstaklega er helguð honum og áætlað er, að fari fram í lok þessa þings.

**Nýtt félag**

Eins og þegar er kunnugt, er nú myndað nýtt félag með æskulýð af íslenzkum ættum hér í borginni. Kennir félagið sig við Leif Eiríksson, og er skipað stórum hóp hins efnilegasta fólks. Var þessi hreyfing hafin undir forustu Walters J. Lindal dómara, sem nú er forseti Icelandic Canadian Club og einnig heiðursforseti þessa nýja félags. Enda þótt að þetta nýja félag sé formlega óháð hinum eldri félögum meðal Íslendinga, stendur það þó á sama grunni og þau og hefir hliðstæð áhugamál og stefnuskrá. Þjóðræknisfélagið óskar hinu nýja félagi velfarnaðar og hyggur gott til samvinnu við það í framtíðinni.

**Önnur mál**

Önnur mál, auk þeirra, sem hér hefir verið vikið að, koma vafalaust til umræðu á þessu þingi. Það er svo margt, ef að er gáð, sem gera þarf. Um fram allt: Það þarf að herða á sókninni á öllum sviðum starfsmála okkar. Meðlimatala félagsmanna þarf að aukast að miklum mun. Áhugamenn okkar deyja árlega sem aðrir menn eða hverfa frá störfum fyrir elli sakir eða hrumleika. Of fáir gefa sig fram til að fylla skörðin. Mörg hundruð Íslendinga á dreifingunni miklu um alla þessa heimsálfu myndu fagna því að fá Tímarit okkar í hendur, ef einhver benti þeim á, að það væri til, og að það er sama sem gefið. Mikill fjöldi íslenzkra kvenna eru giftar amerískum mönnum og búsettar út um alla Ameríku. Vísast hafa þær, margar hverjar, lítil sambönd við þjóðbræður sína. Hvers vegna ekki að reyna að ná sambandi við þessar konur og fá þær til að gerast áskrifendur að blöðum okkar og Tímariti félagsins?

Deildir félagsins, víðsvegar, þurfa að safna kröftum, og sums staðar þarf blátt áfram að vekja þær aftur til starfs og dáða. Það þarf að stuðla að því, að sú eina íslenzka bókaverzlun, sem er til hér vestan hafs, geti haldizt við sómasamlega. Það þarf að treysta betur menningartengslin við Ísland með ýmsum ráðum, og efna, ef unnt er, til mannaskipta í stórum stíl. Öll félög, a. m. k. hér í Winnipeg og nágrenni þurfa að gera sitt ýtrasta til eflingar kennarastólnum í íslenzku hér við háskólann, einkum með því að afla honum nemenda, og auka hróður hans á allan hátt. Hér þarf, á sínum tíma, að rísa samkomuhús og félagsheimili, samboðið sögu okkar og eðli Íslendinga. Það þarf að útvega hæfilegt húspláss fyrir ýmsa verðmæta muni félagsins, sem sumir liggja undir skemmdum í kjallara hússins, sem eitt sinn var kennt við Jón Bjarnason, en sumir eru í vörzlu minni, og nýlega afhentir mér af fyrirrennara mínum í forsetaembætti, séra Philip M. Péturssyni.

Við þurfum sjálfir að vakna til meðvitundar um þann regin-sannleika, að þetta félag getur því aðeins lifað og unnið að því marki, sem það hefir stefnt að og starfað fyrir í meira en þrjátíu ár, ef við, meðlimir þess og velunnarar, gerum okkur grein fyrir breyttum aðstæðum frá því sem áður var og leggjum fram verulegar fórnir í fé og kröftum því til framdráttar. Við höfum lyft Grettistökum áður; við eigum enn nóga dáð og drengskap til að gera slíkt hið sama nú.

Vil ég svo leyfa mér að enda þessa ræðu með því að tilfæra hin fögru orð, er hinn látni forseti Íslands, Herra Sveinn Björnsson, mælti til okkar á tuttugu og fimm ára afmæli félagsins. Ég vona, að þau séu enn í góðu gildi:

„Ég sé í huga mínum fjölda ágætra Vestur-Íslendinga streyma úr mörgum áttum, suma um langan veg til ársþings félagsins. Það eru hvorki vonir um glys, veraldarauð né eitthvað annað, sem í askana verður látið, sem draga ykkur til þessa fundar. Það er taug, sem er miklu dýrmætari. Hún er sprottin af sama toga, sem sú hin ramma taug, er „rekka dregur föðurtúna til". — Þið hafið gert Ísland stærra, og verið okkur Íslendingum hér heima til heilbrigðrar áminningar um skyldu okkar við þjóðleg verðmæti. Þetta hlýjar okkur um hjartarætur".

Göngum þá heil til starfa. Megi hjörtun verða hlý og viljinn stæltur til dáða á þessu þrítugasta og fjórða ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Sr. Jóhann Friðriksson gerði tillögu um, að forseta væri falið að skipa dagskrárnefnd og kjörbréfanefnd.

Var hún samþykkt og skipaði forseti í nefndirnar, sem hér segir:

Kjörbréfanefnd: Sr. Jóhann Friðriksson, Herdís Eiríksson, Jón Ásgeirsson.

Dagskrárnefnd: Dr. Richard Beck, Þorsteinn Gíslason, Sigurður Einarsson.

Nokkrar kveðjur höfðu borizt þingheimi, og flutti dr. Richard Beck fyrst skrifaða kveðju frá dr. J. C. West, forseta ríkisháskólans í Grand Forks, Norður Dakota. Fylgdi Richard Beck síðan kveðju háskólaforsetans eftir með stuttu, en fróðlegu erindi um sögu háskólans og þá einkum um aðsókn Íslendinga að háskól-

anum á liðnum áratugum, og taldist honum svo til, að nærri 300 námsmenn af íslenzkum ættum hafi sótt þangað nám fram til þessa.

Var gerður góður rómur að máli dr. Becks, og lagði sr. Egill Fáfnis til, að háskólaforsetanum, dr. West, yrði þegar (en háskólinn á 70 ára afmæli í dag) sent þakkarskeyti fyrir hinar hlýju kveðjur.

**Ríkisháskólinn í Norður Dakota og Íslendingar**

Að sjálfsögðu tel ég mér mikla sæmd að því, að verða við tilmælum dr. Johns C. West, forseta háskóla míns (University af North Dakota) og heiðursfélaga Þjóðræknisfélagsins, um að flytja fulltrúum og gestum, og félagsfólki öllu, kærar kveðjur og velfarnaðaróskir.

Og mér er það hlutverk enn kærkomnara, vegna þess, eins og West forseti tekur fram í bréfi sínu, að ríkisháskólinn í Norður Dakota heldur einmitt í dag hátíðlegt sjötíu ára afmæli sitt. Jafnframt er ég sérstaklega minnugur þess, að á þeim háskóla hafa stundað nám fleiri stúdentar af íslenzkum stofni en á nokkrum öðrum háskóla Bandaríkjanna. Er hann af þeirri ástæðu tengdur Íslendingum vestan hafs traustum böndum, og þá um leið landi voru og þjóð.

Merkileg um margt er saga ríkisháskólans í Norður Dakota, þó eigi verði hún hér rakin. Á það má samt minna, að hann er stofnaður 6 árum áður en Norður Dakota varð „ríki í ríkinu", og ber það sannarlega fagurt vitni þekkingarþrá og framsóknaranda brautryðjandanna, sem þar voru að verki. Og mættu þeir ágætu og framsýnu frumherjar líta upp úr gröf sinni, gæfi þeim á að líta, því að haustið 1884, er ríkisháskólinn hóf kennslu (árið eftir að hann var stofnsettur) voru kennarar fjórir og nemendur 79 talsins, en nú er tala kennara 170 og stúdentar 2300 talsins. Að sama skapi hefir háskólinn fært út kvíarnar um húsakynni og margbreytni námsgreina, enda nýtur hann mikils álits innan Bandaríkjanna og utan.

Saga Íslendinga á ríkisháskólanum í Norður Dakota er jafngömul starfssögu háskólans, því að í fyrsta námsfólkshópnum, sem innritaðist haustið 1884, voru tvær íslenzkar stúlkur úr íslenzku byggðinni í Pembinahéraði, en af þeim slóðum hafa flestir íslenzkir stúdentar háskólans eðlilega komið, vegna fjölmennis Íslendinga norður þar.

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, víðfrægasti Íslendingurinn, sem stundað hefir nám á ríkisháskólanum, og vafalaust jafnframt víðkunnasti maður, sem þar hefir verið við nám, fór þess á leit við mig fyrir allmörgum árum, að ég grennslaðist eftir því, hve margir Íslendingar hefðu stundað þar nám, og hvernig þeir hefðu í heild sinni staðið sig. Ég fékk góðvin minn og starfsbróðir á háskólanum, prófessor Thomas heitinn Thorleifson, í lið með mér, og athuguðum við í sameiningu gaumgæfilega stúdentaskrár og aðrar skýrslur háskólans þar að lútandi. Komumst við að þeirri niðurstöðu, að fram að þeim tíma hefðu 200—300 stúdentar af íslenzkum uppruna verið þar við nám. Síðan er liðinn heill tugur ára, og mun því óhætt mega fullyrða, þegar með eru teknir í reikninginn þeir stúdentar, sem síðan hafa bætzt í hópinn, að alls hafi kringum 300 stúdentar af íslenzkum stofni stundað nám á ríkisháskólanum í Norður Dakota, og mikill hluti þess hóps verið brautskráður þaðan. Rannsókn okkar Thomasar prófessors leiddi einnig í ljós, að íslenzku stúdentarnir höfðu yfirleitt getið sér hið bezta orð, og gildir hið sama um þá, sem verið hafa þar við nám síðasta áratuginn.

Staðfestir West forseti þann vitnisburð með ummælunum í bréfi sínu, og bendir jafnframt á það, sem honum má vera manna kunnugast, að í hópi þeirra Íslendinga, sem stundað hafa nám á ríkisháskólanum, eru ýmsir þeir, sem mestum ljóma hafa varpað á háskólann og þá jafnframt á þjóðstofn sinn. Það yrði lengra mál en þessu kveðjuávarpi er ætlað að vera, ef farið væri að telja upp þá landa vora, sem með þeim hætti hafa borið manndómsmerki vort fram til nýrra sigra sjálfum þeim og oss til sæmdarauka, enda eiga við um svo marga þeirra orð **Þorsteins Erlingssonar**:

„Það þýðir ekki að þylja nöfnin tóm,
og þjóðin mun þau annars staðar finna".

Nokkrir Íslendingar hafa einnig verið prófessorar eða fyrirlesarar á ríkisháskólanum, og eins og dr. West víkur að í bréfi sínu, hafa norræn fræði og íslenzk verið kennd þar í full 60 ár. Hvort tveggja eru þættir í þeim böndum, sem tengja háskólann oss Íslendingum og heimaþjóðinni.

En ég hefi sérstaklega á þessum merku tímamótum í sögu ríkisháskólans í Norður Dakota viljað draga athyglina að hlut íslenzkra stúdenta þar og að því, hversu vel þeir hafa reynzt á þeim vettvangi og síðar í lífsstarfinu; ekki til þess, að vér miklumst af því, heldur til áminningar og hvatningar til dáða. Dæmi þeirra landa vorra á ríkisháskólanum, sem þar hafa fagurlega haldið uppi merki voru og síðar með sæmd á mörgum starfssviðum, getur minnt oss á skylduna við fósturlandið annars vegar og skuldina við ættlandið hins vegar. En oss er, vegna afstöðu vorrar, „skipað mikið verk", eins og Stephan

G. Stephansson orðaði það réttilega og skilgreindi síðan á þessa leið:

„Við fósturlandsins frægðarstarf,
með föðurlandsins sæmd í arf,
af höndum inna æviþraut
með alþjóð fyrir keppinaut".

Ég er metnaðargjarn fyrir hönd vor Íslendinga í landi hér, ég vil sjá þá bera drengilega sigur af hólmi í alþjóðakapphlaupinu hér í álfu á sviði manndóms og mennta, og því vil ég, á hinn bóginn, ekki vita þá gerast lítilþæga menningarlega og skipa meðalmennskunni til hásætis. Í þeim anda eru þessi kveðjuorð flutt. Blessun fylgi starfi þessa þings og félags vors; það á enn hlutverk að vinna vor á meðal.

**Kveðja forseta ríkisháskólans í N. Dakota til þjóðræknisþingsins**

February 19th, 1953.

Dr. Richard Beck,
University of North Dakota,
Grand Forks, N.D.

Dear Dr. Beck:

It has come to my attention that you will be leaving for Winnipeg over the weekend to attend the annual convention of the Icelandic National League of America.

Deeply appreciating the cultural program and splendid work of the League and greatly cherishing my Honorary Membership in such a notable organization, I am herewith asking you to represent me at the convention and convey to officers, members, and others assembled, my heartiest personal greetings and good wishes as well as those of the University. In that connection, let me add that the University has taken pride in your longtime position of leadership within the League.

Further, I note that the convention will open on Monday, February 23rd, which happens to mark the 70th Anniversary of the founding of the University. From its very first year, students of Icelandic origin have been in attendance, often in considerable numbers, and have made such excellent record that among them are several of our most distinguished graduates whose names are well known to you all. They have brought honour not only to their University but to their nation as well.

The University is also duly proud of its more than 60-year-old Scandinavian Department, which has won international recognition, and where the study of Icelandic language and literature is properly included.

Mindful of all these things, I extend my most sincere greetings to the convention of the Icelandic National League and wish it much success.

Cordially yours,

JOHN C. WEST,
President.

Forseti gat þess, að kveðja hefði nýlega borizt bréflega til þingsins frá Sigurgeir Sigurðssyni biskupi, en hann er, sem kunnugt er, formaður Þjóðræknisfélagsins á Íslandi. Ennfremur hefði borizt kveðja frá próf. Ásmundi Guðmundssyni í Reykjavík.

Lesið var eftirfarandi skeyti frá dr. Helga P. Briem, sendiherra Íslands í Stokkhólmi:

Stokkhólmi, 21. febr. 1953

Til forseta Þjóðræknisfélagsins,
Valdimars J. Eylands,
776 Victor Street, Winnipeg

Góðar óskir og vinarkveðjur til þín, þingmanna og annara landa vestan hafs.

**Helgi P. Briem**

Ennfremur barst svohljóðandi skeyti frá Kvenfélaginu Hringnum í Reykjavík:

Reykjavík, 22. febr. 1953

Til ritara Þjóðræknisfélags Íslendinga,
Mrs. Ingibjargar Jónsson,
Ste. 12 Acadia Apts., Winnipeg, Man.

Stjórn Hringsins vottar Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Winnipeg beztu þakkir fyrir minningargjöf til Barnaspítalasjóðsins um fyrsta lýðveldisforseta Íslands, herra Svein Björnsson. Ber hún fagurt vitni um umhyggju félagsins fyrir heill ættlandsins. Megi félagið blómgast og starf þess bera ríkan ávöxt.

Með einlægri virðingu og þakklæti,

**Ingibjörg Claessen Þorláksson**
formaður Hringsins

**Guðrún Geirsdóttir Zoega**
varaformaður

Næsti liður á dagskrá voru skýrslur stjórnarnefndarmanna, fyrst skýrsla féhirðis og fjármálaritara. Lagði Grettir L. Jóhannsson fram prentaða Fjárhagsskýrslu fyrir árið 1952 og skýrði einstaka liði.

Gerði féhirðir loks tillögu um, að skýrslan yrði samþykkt og henni vísað til væntanlegrar fjármálanefndar.

Las féhirðir einnig skýrslu fjármálaritara, Guðmanns Levy, og greinargerð umsjónarmanns eignarinnar 652 Home Street, Hannesar Péturssonar. Lagði féhirðir til, að þessar skýrslur væru viðteknar og þeim vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Var tillagan samþykkt.

**Reikningur féhirðis**

Yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 11. marz 1952 til 18. febrúar 1953

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| Á Royal Bank of Canada, 11. marz 1952 | | $ 849.83 |
| Á Royal Bank of Canada, 11. marz 1952, Fyrningarsjóður á eign, 652 Home St. | | 600.00 |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld | $ 437.32 | |
| Fyrir auglýsingar, XXXIII. árg. Tímaritsins | 1,742.00 | |
| Fyrir auglýsingar, XXXIV. árg. Tímaritsins | 42.00 | |
| 652 Home Street | 1,600.00 | |
| Banka- og aðrir vextir | 39.00 | |
| Allar tekjur á árinu | | $3,861.00 |
| Samtals | | $5,310.83 |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Ársþingskostnaður 1952 | $ 413.61 | |
| Ágóði af samkomu | 49.50 | $ 364.11 |
| **Tímarit XXXIII. árg.:** | | |
| Ritstjórn og ritlaun | $ 283.75 | |
| Prentun og útsending (áður borgað $900.00) | 808.02 | |
| Auglýsingasöfnun | 419.00 | 1,510.00 |
| **Tímarit XXXIV. árg.:** | | |
| Prentun | $1,000.00 | |
| Auglýsingasöfnun | 10.50 | 1,010.50 |
| Til deildarinnar „Frón" bókasafnið | | 99.40 |
| Til móttöku gesta o. fl. | | 78.50 |
| Prentun | | 24.20 |
| Bankagjöld | | 7.07 |
| Símskeyti og frímerki | | 47.95 |
| Ríkis og lögfræðingsgjöld | | 14.00 |
| Blóm og ýmis kostnaður | | 37.43 |
| Þóknun fjármálaritara | | 47.81 |
| Allur kostnaður á árinu | | $3,241.74 |
| 652 Home St., 1952, Fyrning á eignum | | 600.00 |
| 18. febr. 1953, Á Royal Bank of Canada Innstæða | | 869.09 |
| 18. febr. 1953, Á Royal Bank of Canada Fyrningarsjóður á eign, 652 Home St. | | 600.00 |
| Samtals | | $5,310.83 |

**Fyrningarsjóður, 652 Home St., Winnipeg:**

| | |
|---|---|
| Dominion of Canada, Bonds, 3%, Oct. 1, 1963 | $ 600.00 |
| Innstæða á Royal Bank of Canada | 1,200.00 |
| Alls | $1,800.00 |

**Grettir Leo Johannsson**, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 18. febrúar 1953

**Steindór Jakobsson**
**J. Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara**

Yfir árið 1952

INNTEKTIR:

| | | |
|---|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 60.50 | |
| Frá sambandsfélögum | 9.18 | |
| Frá deildum | 408.50 | |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Póstgjöld undir Tímarit | | $ 40.86 |
| Afhent féhirði | | 437.32 |
| Alls | $478.18 | $478,18 |

**Guðmann Levy**, fjármálaritari

**STATEMENT**

**652 Home Street 1952**

RECEIPTS:

| | | |
|---|---|---|
| Credit Balance Jan. 1, 1952 | | $ 455.30 |
| Rents collected Jan. 1 to Dec. 31, 1952 | | 3,306.00 |
| Sundry | | 10.93 |

EXPENDITURES:

| | | |
|---|---|---|
| City of Winnipeg, Taxes | $ 527.80 | |
| Insurance | 5.22 | |
| Decorations, Repairs, Supplies | 645.65 | |
| Fuel | 521.43 | |
| Light and Power | 184.16 | |
| Water and Sewer Rates | 81.91 | |
| Management | 120.00 | |
| Sundry | 9.95 | |

| | | |
|---|---|---|
| Icelandic National League | 1,600.00 | |
| | $3,696.12 | |
| Credit Balance Dec. 31, 1952 | 76.11 | |
| | $3,772.23 | $3,772.23 |

The above statement has been audited and found correct.

**Jóhann Th. Beck, Steindór Jakobsson,**
Auditors

Formaður dagskrárnefndar lagði fram tillögur nefndar sinnar og voru þær studdar og samþykktar.

**Skýrsla dagskrárnefndar**

Dagskrárnefnd leggur til, að fylgt sé hinni prentuðu dagskrá þingsins, að því viðbættu, að fluttar verði kl. 11 f. h. á þriðjudaginn kveðjur frá Icelandic Canadian Club og Leifs Eiríkssonar félaginu. Verður dagskráin þá á þessa leið:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Skýrslur embættismanna
5. Skýrslur deilda
6. Sérstakar kveðjur
7. Skýrslur milliþinganefnda
8. Útbreiðslumál
9. Fjármál
10. Fræðslumál
11. Samvinnumál
12. Útgáfumál
13. Kosning embættismanna
14. Ný mál
15. Ólokin störf og þingslit.

Ennfremur leggur nefndin til, að bendingum forseta um samvinnumál við Ísland, útbreiðslu- og fræðslumál og um útgáfumál, verði vísað til hlutaðeigandi nefnda, sem skipaðar verða síðar á þinginu.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg,
23. febrúar 1953

**Richard Beck**
**S. Einarsson**
**T. J. Gíslason**

**Milliþinganefnd í Leifs Eiríkssonar minnisvarðamálinu**

Grettir L. Jóhannsson skýrði frá því, að föður hans, Ásmundi P. Jóhannssyni, er sæti ætti í nefndinni, hefði borizt bréf frá formanni hennar, Guðmundi Grímssyni dómara í Bismarck, þar sem hann skýrir frá mála vöxtum eins og nú standa sakir. Fylgdi greinargerð hans bréf frá Thor Thors sendiherra Íslands í Washington. Loks las Grettir grein eftir Grímsson dómara um málið, er birzt hafði í Nordmanden í Fargo 9. okt. 1952:

Feb. 19, 1953

Mr. A. P. Johannson,
910 Palmerston Ave.
Winnipeg, Manitoba,
Canada.

Dear Friend:

I note the approaching meeting of the Icelandic National League and presume a report should be given on behalf of the Leif Eiriksson Committee.

We have not much to report. The Congress of the United States has not acted on the Leif Eiriksson resolution. The reason is the amount of funds that the Fine Arts Commission now thinks necessary for the building of the base. The last estimate, I believe, was more than $20,000. Congress, under present conditions, is loth to appropriate money for anything except urgent defense needs and for support of the government. Senator Young reported that if we could raise some $5,000 he thought he might be able to persuade Congress to appropriate the balance but whether we could do that or should undertake that now has been a doubtful question. There was a movement started in the Bismarck lodge of the Sons of Norway to make a general solicitation through them. Minister Thor Thors was of the opinion, however, that the Icelanders themselves should raise what money was necessary in addition to the United States appropriation and advised that we wait until that could be done so the campaign for the funds by the Sons of Norway was abandoned for the present. That is about all I can report.

I wrote an article on the matter in the Normanden, a copy of which I enclose. Towards the end of that article is a report from the Mariners' Museum showing that the statue is spreading information on Leif Eiriksson and Vinland in its present temporary location. Some members of the committee, especially Vilhjalmur Stefansson think that it is doing more good where it is than it ever would in Washington. That, however, is a matter of opinion.

I shall be unable to attend the convention and hope you will make some report of the matter to the convention for us. We will abide by any decision of the convention in the matter. Extend my greetings and best wishes to the convention.

Sincerely yours,

G. GRIMSON.

Ref: 19. A.?
August 4, 1952.

Associate Justice,
Gudmundur Grimson,
Supreme Court,
Bismarck, N.D.

Dear Judge Grimson:

I just received your letter of August 4, regarding the statue of Leifur Eiriksson, and hasten to reply that I most definitely oppose the idea that the Sons of Norway should contribute for the removal of the statue from Newport News to Washington. We must not forget that we are concerned with the statue of Leifur Eiriksson, son of Iceland as is stated on the statue itself. I am convinced that the Icelandic people would most definitely object to Norwegian interference in this matter.

It is my opinion that the statue is well placed where it now stands in Newport News, and is seen by a great number of people from all over the world visiting the Mariners' Museum every year. I have no doubt the time will come when the statue could be moved to Washington at the expense of the United States Government, and in the meantime, Leifur should be allowed to remain peacefully where he now stands. I am even starting to doubt if anything would be gained by hiding the statue in some park here in Washington, as I feel that its present position serves a very useful purpose. This matter, however, we can discuss at a later date and, as stated, nothing can be lost if the statue remains where it is for some time longer.

With kindest personal regards,
Sincerely yours,
Thor Thors, Minister.

Lagði Grettir til, að skýrsla Grímsson dómara yrði viðtekin og nefndinni þakkað mikið starf og gott. Studdi dr. Beck tillöguna og skýrði málið nokkru frekar. Óskaði hann og, að nefndin væri hvött til að halda áfram að vinna að máli þessu.

Sr. Jóhann Friðriksson lagði þessu næst fram skýrslu kjörbréfanefndar og gerði þá tillögu, að hún yrði samþykkt. Var það gert samhljóða.

**Nöfn erindreka á þjóðræknisþingi í Winnipeg, 23., 24., 25. febr. 1953**

Deildin „Frón", Winnipeg
Mrs. Salome Backman ..............20 atk.
Mrs. María Sigurðsson ............20 —
Miss Elín Hall .........................20 —
Einar Sigurðsson .....................20 —
Sveinn Pálmason ......................20 —
Jón Jónsson ..............................20 —
Jón Ásgeirsson ..........................20 —
Lúðvík Kristjánsson ................20 —
Ragnar Stefánsson ....................20 —

Deildin „Esjan", Árborg, Man.
Sigurður Einarsson ...............12 atkv.
Jónína Einarsson .......................12 —
Herdís Eiríksson ........................12 —
Páll Stefánsson ..........................13 —
Kristveig Jóhannesson ............13 —
Páll Jónsson ...............................13 —

Deildin „Ströndin", Vancouver
Séra Eiríkur Brynjólfsson ........20 atk.

Deildin „Grund", Argylebyggð
Séra Jóhann Friðriksson ........10 atk.
Mrs. Margrét Jósefsson ............10 —

Deildin „Lundar", Lundar, Man.
Mrs. L. Sveinsson ....................19 atk.
G. Eyjólfsson ...........................15 —
Daníel Líndal ...........................15 —

Deildin „Gimli", Gimli, Man.
Mrs. W. J. Árnason ..................20 atk.
— J. B. Johnson .......................20 —
— H. G. Sigurðsson ..................20 —
— H. S. Sigmar ........................20 —

Deildin „Báran", Mountain
Haraldur Ólafsson ....................20 atk.
Dr. Richard Beck .......................20 —
Séra Egill H. Fáfnis .................20 —

Deildin „Ísland", Morden, Man.
Mr. T. J. Gíslason .....................12 atk.
Mrs. T. J. Gíslason ...................10 —

Deildin „Brúin", Selkirk, Man.
Mrs. Alice Gudbrandson ...........14 atk.
— Margrét Goodman ................15 —
— J. E. Eiríksson ......................15 —

**J. Fredriksson**
**Herdís Eiríksson**
**Jón Ásgeirsson**

Dr. Beck gerði tillögu um, að fundi væri frestað til kl. 1.30.

**Annar fundur**

Fundur hófst aftur kl. tæplega 2 e. h. Las vararitari fundargerð morgunfundarins og var hún samþykkt. Þá lásu fulltrúar skýrslur um störf deilda sinna.

**Skýrsla deildarinnar Báran, N.D.**
fyrir árið 1952

Ársfundur Báru var haldinn í skólahúsinu í Mountain, N.D., þann 7. febr. kl. 2 e. h. 16 meðlimir sóttu fundinn. Þrír nýir embættismenn voru kosnir. Þeir eru: Séra E. H. Fáfnis, forseti; G. J. Jónasson, varaformaður; Haraldur Ólafsson, féhirðir;

Steve Indriðason, varaféhirðir; hinir fimm voru endurkjörnir.

Báran hélt sex fundi á árinu, auk ársfundarins, sem voru heldur vel sóttir. Fjórir nýir meðlimir gengu í deildina á árinu.

Hér var haldið upp á 17. júní með ræðum og söng. Sr. Egill H. Fáfnis stjórnaði samkomunni og fórst það mjög vel. Aðalræðumenn voru próf. Finnbogi Guðmundsson og dr. Richard Beck; voru ræður þeirra bæði skemmtilegar og fróðlegar. Þá söng sr. E. H. Fáfnis einsöng og þótti afbragð. Ennfremur sungu Mrs. W. K. Halldórsson og Mrs. G. S. Goodman tvísöng og sungu þær mjög vel. Einnig var sameiginlegur söngur, og svo var Mrs. Bill Olgeirsson með barnahljómsveit. Þetta þótti afbragðs skemmtiskrá. Dansað var að kvöldinu. Þetta fór alt mjög vel fram.

Svo óskum við að alt gangi eftir óskum og biðjum að heilsa.

**O. G. Johnson,** varaskrifari

### Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar Gimli 1952

Deildin hefir haldið tvo fundi á árinu, og nefndarfundi þegar þörf gerðist.

Í stjórnarnefnd voru:
J. J. Johnson, forseti
Mrs. H. G. Sigurðsson, varaforseti
Ingólfur Bjarnason, ritari
W. J. Árnason, féhirðir.

Íslenzkukennsla 6 mánuði, aðsókn 35 börn, 5 kennarar. Börnin komu fram á fundi í maí með söng, upplestri og framsögn; einnig fóru þau með sömu skemmtiskrá til Betel s.l. maí.

S.l. ágúst stóð deildin fyrir miklu kveðjusamsæti, sem Mr. og Mrs. Óla Kárdal var haldið, sem þá voru á förum til Bandaríkjanna til framtíðardvalar.

Deildin tók þátt í grafreitsnefndarstarfi með 25.00 dala tillagi.

Í nóvember hafði deildin spilasamkomu, og lét fólkið leita að tveimur munum í lukkupottinum, varð arður af því 60.00 dalir.

| | | |
|---|---|---|
| Í sjóði í ársbyrjun 1952 | $ 22,19 | |
| Inntektir alls | 147,10 | |
| Samtals | | $169.29 |
| Útgjöld alls | | 93.00 |
| Nú í sjóði | | 76.29 |

Lestrarnefnd „Kvöldvökunnar“ tók aftur til starfa s.l. haust, og lagði grundvöll að víðtækara starfi á því sviði, með því að fá próf. Finnboga Guðmundsson til að koma til Gimli tvisvar í mánuði til þess að útskýra og láta lesa íslenzkar bókmenntir; fyrst eina klukkustund á ensku máli og síðan aðra klukkustund á okkar móðurmáli. Þessa lestrarfundi hafa sótt um og yfir 20 manns, en 30 manns eru innritaðir í þennan kennslubekk. Allir eru hrifnir af þessum skemmtilegu og fræðandi kvöldstundum, og er nefndinni það ljóst, að próf. Guðmundsson hefir meiri vekjandi áhrif á þjóðræknisstarfsemi í Gimlibæ, en við getum í fljótu bragði útskýrt; er nefndin honum því innilega þakklát fyrir hans miklu hjálp.

Ársfundurinn var haldinn 16. janúar 1953, og voru þessir kosnir fyrir það ár í stjórnarnefnd:

Mrs. Kristín Thorsteinsson, forseti
Mrs. H. G. Sigurðsson, varaforseti
Mr. Ingólfur N. Bjarnason, skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason, varaskrifari
Mr. W. J. Árnason, féhirðir
Mrs. W. J. Árnason, varaféhirðir
Mr. Hjálmur Thorsteinsson, fjármálaritari
Mr. Sigurjón Jóhannsson, varafjármálaritari
Mrs. H. S. Stevens, skjalavörður

Yfirskoðunarmenn:
Mr. N. K. Stevens
Mr. Sigurjón Jóhannsson.

Mrs. H. G. Sigurðsson varaforseti setti fundinn í fjarveru forseta, Mr. J. J. Johnson, sem hefir dvalið í Vancouver í vetur. Mrs. Sigurðsson greindi frá starfsemi deildarinnar á s.l. ári og hvatti til góðrar starfsemi á nýbyrjaða árinu.

Íslenzkukennsla byrjaði 17. febrúar með 32 börn og 4 kennara.

Kær kveðja til þingsins.

**Ingólfur N. Bjarnason,** ritari

### Skýrsla deildarinnar Brúin í Selkirk 1952

Deildin hefir haft ellefu fundi á árinu, með nokkuð góðri aðsókn. Einnig hafði félagið fjórar arðberandi samkomur. Ekki gat deildin séð sér fært að byrja á íslenzkukennslu, og ekkert getað starfað í þá átt. — En dálítið hefir verið keypt af nýjum íslenzkum bókum, og einnig hefir deildin látið binda þó nokkuð af bókum, sem voru í svo slæmu ástandi, að ekki var hægt að lána þær út. Einn félagsmeðlimur hefir fallið frá á árinu, Miss Halldóra Jóhannesson, og einn gengið í félagið. Meðlimatala deildarinnar er því enn fjörutíu og sjö.

**Einar Magnússon,** forseti
**Allie Goodbrandson,** skrifari

### Þjóðræknisdeildin Frón 1952

Ársskýrsla ritara

Síðasti ársfundur deildarinnar var haldinn í G. T.-húsinu 3. des. 1951. Á þeim fundi varð sú breyting á stjórnarnefnd,

að þeir Steindór Jakobsson og Davíð Björnsson gengu úr embætti, en í stað þeirra komu þeir Eric Ísfeld sem varaforseti og próf. Áskell Löve sem varaskrifari. Nefnd þessi hefir starfað að málum félagsins með alúð og samvizkusemi undanfarið ár.

Auk Íslendingamóts og þingsamkomu hafa 4 opnir fundir verið haldnir á árinu, og 8 nefndarfundir.

Á ársfundinum 3. des. flutti Björn Jónsson læknir skörulega ræðu og bar þar fram ýms nýmæli, er síðar voru tekin til umræðu á opnum fundi og síðar verður vikið að.

Íslendingamótið var að þessu sinni haldið á mánudagskvöldið 18. febr. 1952. Var nefndin ekki viss um hvernig það myndi takast, þar sem ekki var hægt að stuðla á aðsókn þjóðræknisþingsgesta. — Samkoman tókst þó vonum fremur og fékk góða dóma, nema hvað mörgum þótti nokkuð þröngt og loftlaust í G. T.-húsinu. Á móti þessu flutti próf. Finnbogi Guðmundsson aðalræðuna, en söngflokkur norrænna manna hér í borg skemti með kórsöng, en þær Thorvaldsons mæðgur sungu tvísöng, og Guttormur J. Guttormsson flutti kvæði.

Opinn fundur var haldinn 24. marz 1952 og var hann boðaður til þess að fólki gæfist kostur á að ræða tillögur Björns Jónssonar læknis, þær er hann bar fram á ársfundinum. Á fundi þessum tóku þessir til máls, auk Björns læknis: Séra V. J. Eylands, Einar Páll Jónsson ritstjóri og þeir prófessorarnir Finnbogi Guðmundsson og Tryggvi J. Oleson. Að umræðum loknum var skipuð nefnd til þess að athuga möguleika á því að íslenzk félög hér í borg beittu sér fyrir því að sjá um þýðingar íslenzkra listaverka á enska tungu sem helzt gætu orðið til þess að vekja athygli hérlendra manna á íslenzkum menningarerfðum. Nefndina skipa þeir séra. V. J. Eylands, Próf. Finnbogi Guðmundsson og Heimir Thorgrímsson.

Annar opinn fundur var haldinn 5. maí s.l. Aðalverkefni hans var að kjósa erindreka á þjóðræknisþingið, sem haldast átti dagana 2., 3. og 4. júní. Átta erindrekar voru kosnir og áttu þeir að fara með umboð fyrir 140 meðlimi deildarinnar. Að þessu sinni var til skemtunar ræða, sem séra Philip M. Pétursson hafði talað á segulþráð. Þessi tilraun heppnaðist hið bezta. Á þessum fundi flutti Lúðvík Kristjánsson frumort kvæði öllum til ánægju.

Í sambandi við þjóðræknisþingið hélt deildin stóra samkomu í G. T.-húsinu 2. júní s.l. Tókst samkoman vel en ágóði varð því sem næst enginn, enda var inngangur ekki nema 50c. Þetta kvöld flutti séra V. J. Eylands ræðu; Tímóteus Böðvarsson frá Árborg kvað rímur; Pearl Johnson söng einsöng, og Harold Jónasson lék á cello. Gestur frá Íslandi, séra Friðrik Friðriksson, ávarpaði einnig samkomugesti. Þessi skemmtiskrá fékk einróma lof.

Opinn fundur var næst haldinn 6. okt. s.l. Þar flutti ræðu Gísli Jónsson ritstjóri, sem þá var nýkominn úr Íslandsför; en brezka kvikmynd, sem tekin var á Íslandi, sýndi Snorri Jónasson, en Próf. F. Guðmundsson fylgdi henni úr garði með nokkrum orðum.

Loks má geta þess að á flestum fundum félagsins hafa verið spilaðar hljómplötur frá Íslandi. Hafa það ýmist verið söngplötur eða stutt erindi töluð á plötur heima og sérstaklega ætlaðar okkur hér vestra. Þetta hefir reynzt vinsælt.

Meðlimatala deildarinnar er nú um 220 og er það talsvert hærri tala, en verið hefir undanfarin ár.

Aðsókn að skemmtisamkomunum var mjög góð og aðsókn að opnum fundum hefir verið þetta frá 50 til 100 manns. Starf deildarinnar á síðastliðnu ári hefir yfirleitt tekizt vel og hefir ef til vill borið nokkurn þjóðræknislegan árangur.

**H. Thorgrímsson,** ritari

### Skýrsla bókavarðar Þjóðræknisdeildarinnar Frón í Winnipeg

frá 31 maí 1952 til 20. febrúar 1953

1. Bókasafnið er nú sem stendur í góðu ástandi að öllu leyti. Það hefir verið gjört við band á um 80 bókum á þessu áminsta tímabili, og hefir stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins verið svo góð að borga að mestu leyti fyrir þær aðgjörðir.

2. Deildin Frón hefir keypt 40 nýjar bækur frá Íslandi á þessu tímabili, eða sem svarar 4—5 bækur á hverjum mánuði. Mest af þessum bókum eru nýlega komnar út, og hafa þær verið keyptar jafn fljótt og að þær hafa komið á bókamarkað heima á Íslandi.

3. Þar fyrir utan hefur bókasafninu hlotnast talsvert af bókum, sem gefnar hafa verið í safnið, og hefir mest af þeim verið í góðu ástandi að öllu leyti. Hefir bókavörður þakkað fyrir allar þær gjafir í báðum íslenzku vikublöðunum hér í Winnipeg jafnfljótt og þeim hefir verið veitt móttaka, og enn einu sinni vill bókavörður þakka öllu því góða fólki, sem sýnt hefir deildinni Frón þá miklu vinsemd, sem nefndar bókagjafir bera vitni.

4. Aðsókn að bókasafninu þetta tímabil hefir verið góð, eftir því sem búast má við. Eru það 115 manns, sem bókasafnið hafa notað, á þessu tímabili. Og umfram allt sýnir það vott um að íslenzkur bókalestur er langt frá því að leggjast niður hér vestan hafs og gleður það bókavörð stór-

lega, að hafa ungt fólk, íslenzkt, að koma og biðja um bækur að láni. Á þessu umgetna tímabili hafa 5 ungir Vestur-Íslendingar fengið bækur; þetta umgetna fólk er fætt og uppalið í þessu landi. Útlán á bókum hefir verið til jafnaðar sem svarar 56 bækur á viku.

5. Fyrir nokkru síðan sýndi forseti Þjóðræknisfélagsins, séra Valdimar J. Eylands, bókasafninu þann heiður að heimsækja það; leit hann yfir safnið og sá bókavörð afhenda bækur til útláns, og þar sem háttvirtur forsetinn lét engar aðfinnslur í ljósi á einn eða annan hátt, tók bókavörður það sem merki þess, að safnið væri í þolanlegu ástandi; væri það vel ef að fleiri úr stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sýndu safninu þann heiður að heimsækja það og láta í ljósi hvað þeir héldu að betur mætti fara. Þeir eru ætíð velkomnir.

6. Að endingu vill bókavörður þakka stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, ásamt stjórnarnefnd deildarinnar Frón, fyrir ágæta samvinnu á hinu umgetna tímabili og sömuleiðis öllum þeim, sem koma og biðja um bækur til láns. Vonandi er það, að lestur íslenzkra bóka megi aukast, en ekki hnigna í komandi tíð.

**J. Johnson**, bókavörður

### Skýrsla deildarinnar Esjan, Árborg, Man.

Meðlimatala fyrir árið, sem leið, 75. Fáir almennir fundir hafa verið haldnir á árinu, en stjórnarnefnd haft fundi eftir þörfum.

Próf. Finnbogi Guðmundsson dvaldi hjá okkur í nokkra daga s.l. vor; ferðaðist hann nokkuð um byggðina og heimsótti fólk. Þann 25. maí hélt hann samkomu í Árborg. Var samkoman vel sótt af ungum sem gömlum. Þakkar deildin Próf. Finnboga kærlega komuna og góða viðkynning.

Önnur samkoma var haldin til arðs fyrir deildina þann 12. desember 1952. Sýndi Próf. Finnbogi Guðmundsson þar myndir frá Íslandi. Einnig töluðu þar Heimir Thorgrímsson og Próf. Tryggvi J. Oleson. Á báðum þessum samkomum skemmtu börn úr Árborg og nágrenni með al-íslenzkum söng. Þessi samkoma var einnig vel sótt og í alla staði hin ánægjulegasta. Þökkum við Þjóðræknisfélaginu fyrir aðstoð þeirra við þessa samkomu, og áðurnefndum vinum okkar fyrir komuna.

Seint í júlímánuði skipti bókasafn okkar um bústað. Núverandi bókavörður, Sesselja Böðvarsson, telur, að 430 bækur hafi verið lánaðar út á tímabilinu frá 1. ágúst til 1. febrúar. Bókasafnið mun lengst af verða eitt af okkar aðaláhugamálum.

Fjárhagsskýrsla:

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $ 66.08 |
| Inntektir á árinu | 148.50 |
| Samtals | $214.58 |
| Útgjöld á árinu | 98.80 |
| Í sjóði um áramót | $115.78 |

**Herdís Eiríksson**, ritari

### Ársskýrsla deildarinnar Ísland Morden, Manitoba

Aðeins 3 fundir voru haldnir á árinu liðna, sem voru fremur vel sóttir. Meðlimatala lík og að undanförnu.

Við áttum því láni að fagna að fá heimsókn þriggja skemmtilegra, ágætra gesta þann 16. júní síðastl., þeirra Próf. Finnboga Guðmundssonar, Dr. Áskels Löve og Dr. Stefáns Björnssonar, sem voru á fundi hjá okkur þá um kvöldið. — Próf. Finnbogi hélt ræður, bæði á ensku og íslenzku, sem voru ágætar, fróðlegar og skemmtilegar. — Dr. Áskell sýndi litmyndir frá Íslandi, sem voru mjög góðar og vel útskýrðar af honum.

Við erum öllum þessum góðu gestum verulega þakklát fyrir komuna, alúðina og skemmtunina og vonum, að þeir heimsæki okkur aftur, því það eru einmitt svona heimsóknir, sem við þurfum að fá endrum og eins, því róðurinn er alltaf að þyngjast hvað viðkemur íslenzkum félagsskap og viðhaldi okkar góða íslenzka máls.

Embættismenn deildarinnar Ísland eru:
Thomas Thomasson, forseti
Guðrún Thomasson, ritari
Thorsteinn J. Gíslason, féhirðir
Jonathan Thomasson, fjármálaritari.

Með beztu óskum til þingsins
Fyrir hönd deildarinnar Ísland,
**Thorsteinn J. Gíslason** (L. G.)

### Ársskýrsla deildarinnar Lundar fyrir árið 1952

Deildin hefir haldið þrjá fundi, einn af þeim ársfund, síðan við komum hér saman á síðasta þingi í júní. Fundirnir voru yfirleitt vel sóttir.

Ein samkoma var haldin, til arðs fyrir deildina, 24. okt. Nutum við þar aðstoðar stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins. Vara forseti, Próf. T. J. Oleson skemmti með ræðu. Íslenzkar myndir voru sýndar og útskýrðar af Próf. Finnboga Guðmundssyni. Við erum þeim innilega þakklát fyrir komuna.

Deildin lét flytja bókasafnshúsið og gera á því nauðsynlegar umbætur. Einnig

voru bækurnar númeraðar og flokkaðar eftir efni. Er það nú í ágætu standi. Bókaverðir eru Mr. og Mrs. August Eyjólfsson.

Embættismenn deildarinar fyrir árið 1953 eru sem hér fylgir:

Ólafur Hallson, forseti
Kári Byron, varaforseti
Mrs. L. Sveinsson, ritari
Mrs. M. Björnsson, vararitari
Daníel Líndal, féhirðir
Ásgeir Jörundsson, varaféhirðir.

Meðlimatala 49.

Með beztu kveðjum til þingsins

**Ólafur Hallson**, forseti
**L. Sveinsson**, ritari

**Ársskýrsla deildarinnar Ströndin Vancouver, B.C.**

Um 50 meðlimir.

Stjórnarnefnd skipa fyrir árið 1953:

B. E. Kolbeins, forseti
Stefán Eymundsson, varaforseti
G. Stefánsson, skrifari
G. Holm, varaskrifari
Chr. Ísfjörð, fjármálaritari
Óðinn Thornton, varafjármálaritari

Central Scandinavian Committee:
O. Thornton, Sigf. Gillies.

Þrír fundir voru haldnir á árinu, að meðtöldum ársfundi. Ástæða fyrir, að þeir urðu ekki fleiri, að forseti var í burtu úr borginni 2—3 mánuði á síðastliðnu hausti, og féllu þá fundir niður, og einnig hin árlega haustsamkoma.

Tvær samkomur voru haldnar. Önnur hin árlega sumardags fyrsta samkoma. Var góð skemmtiskrá. Samkoman tókst vel og aðsókn var góð. Hin samkoman var haldin í staðinn fyrir hina venjulegu 17. júní samkomu, sem venjulega var útisamkoma og íþróttir þá hafðar. Síðastliðið sumar var hún haldin í Swedish Hall, og var hinn vinsæli prófastur Friðrik Friðriksson gestur og aðalræðumaður. Flutti hann ágætt erindi um Ísland. Fleira var til skemmtunar. Aðsókn var góð.

Þá er Ströndin þátttakandi í skemmtunum þeim, sem allar skandinavisku þjóðirnar hafa. Aðra að sumrinu, en hina að vetrinum. Gengur arður af þeim félagsskap til að viðhalda stóru sumarheimili fyrir börn. Njóta nokkur íslenzk börn góðs af því á hverju sumri.

Nokkrar íslenzkar bækur og tímarit voru keypt á árinu í bókasafn Strandar, sem geymt er á elliheimilinu Höfn, til notkunar meðlimum Strandar, og einnig íslenzka gamla fólkinu á Höfn. Þá var á meðlimafundi stofnaður velferðarsjóður, er vera skal undir umsjá forstöðukonu „Hafnar", og skal veita úr honum smáupphæðir, eftir þörfum, til þeirra gamalmenna, er eigi hafa nægilegt fé til nauðsynjakaupa, eftir að meðlagið er greitt. Hafa ýmsir utanfélagsmenn lagt í sjóðinn, svo að hugmyndin virðist góð.

**Ársskýrsla deildarinnar Aldan Blaine, Wash.**

Árið 1952 hefir Þjóðræknisdeildin Aldan í Blaine, Wash., haldið í horfinu eins og áður að því undanteknu, að aðeins þrír almennir fundir voru haldnir og einn stjórnarnefndarfundur; í ágústmánuði var forseti fjarverandi og engin málefni, sem ekki þoldu bið lágu fyrir, svo þeim fundi var slept.

Tvær almennar skemtisamkomur voru haldnar á árinu, sú fyrri að kveldi hins 17. júní til minningar um frelsisdag Íslands, var hún fjölsótt og skemtiskráin einkar vel rómuð. Svo heppilega vildi til, að séra Friðrik A. Friðriksson, prófastur á Húsavík á Íslandi var á ferð hér vestra um þær mundir og sýndi Öldu þá velvild að verða við þeirri beiðni að flytja aðalræðuna við það tækifæri, og var það snjalt og áheyrilegt erindi.

Síðari samkoman var haldin í byrjun nóvember og hafði góðan árangur; fyrir henni stóð elliheimilisnefnd Öldunnar, sem hefir það hlutverk að hlynna að hagsmunum heimilisins og hefir deildin lagt því til $100.00 (eitt hundrað dali) á árinu; líka sér hún um skemtistundir fyrir vistfólkið þar ásamt fleiri félagssamtökum.

Um nálega öll áramót síðan Aldan hóf göngu sína, þegar litið er til baka yfir atburði hins hverfandi árs, minnist Aldan með hryggð og söknuði ásamt þakklæti meðlima og vina, sem fallið hafa frá; ein slík félagssystir var María Thordarson, sem kölluð var burt á árinu nýliðna, hún var vel starfandi meðlimur þar til heilsan þraut. Einn nýr meðlimur hefir deildinni bæzt nú fyrir áramótin.

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

Þjóðræknisdeildin Aldan í Blaine, Wash. sendir hinu þrítugasta og fjórða ársþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðarkveðjur og einlæga ósk um áframhaldandi velgengni í framtíðinni.

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

**Skýrsla deildarinnar Grund í Argylebyggð 1952**

Deildin Grund hafði aleins 25 meðlimi á árinu liðna, og beinlínis var hún aðgjörðarlaus. Tvisvar var boðað til fundar, og í báðum tilfellunum varð ekki fundarfært.

Er ákveðið að efna til fundar með vorinu, og reyna að fá nýtt blóð.

Óbeinlínis hefir deildin starfað þó nokkuð. Stjórnarnefndin lagði sig alla fram með að safna fé fyrir Stól í íslenzkum fræðum við Manitobaháskólann með þeim árangri, að nú eru í bankanum rúmir $2,000.00 og útistandandi nokkuð af loforðum. Auk þess sem nokkrir einstaklingar lögðu fram þúsund dali hver. Stjórnarnefndin beitti sér líka fyrir því að selja eða hjálpa til við útsölu Sögu V.-Íslendinga, IV. bindi, með góðum, eða all-góðum árangri.

Deildin á í sjóði $27.33. Hr. B. S. Johnson er forseti, en G. J. Oleson er skrifari og féhirðir.

**G. J. Oleson**, skrifari

Voru allar skýrslurnar samþykktar og þær og kveðjurnar þakkaðar. Séra Jóhann Friðriksson las kveðju frá G. J. Oleson, sem hér fylgir:

Glenboro, Man., 18. febr. 1953

**Háttvirta Þjóðræknisþing:**

Mig hefði langað til að koma á þingið, sem hefst þann 23. feb. 1953 í Winnipeg, en af gildum ástæðum getur það ekki látið sig gjörast; vil ég samt reyna að vera með í anda, og ég hér með sendi þinginu hugheilar hamingjuóskir, og vona ég að starf þingsins gangi greiðlega og árangurinn verði mikill, og til margfaldrar blessunar íslenzku þjóðræknisstarfi í Vesturheimi.

Með beztu kveðju til forseta þingsins, stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins og allra þjóðræknismanna og kvenna, sem á einhvern hátt leggja stein í vegginn.

Með virðingu,

**G. J. Oleson**

Forseti þakkaði kveðju G. J. Olesons og minntist um leið ýmissa meðlima félagsins, er líkt væri komið á fyrir, en væru samt með okkur í anda. Gat hann sérstaklega Ásmundar P. Jóhannssonar.

Dr. Beck lagði til, og Jón Ásgeirsson studdi, að þingið sendi Ásmundi Jóhannssyni kveðju á hvern þann hátt, sem tilhlýðilegastur þætti. (Var samþykkt að senda honum blóm).

Dr. Beck lagði til og Sveinn Pálmason studdi, að Jóni J. Bíldfell verði sent kveðjuskeyti frá þessu þingi.

Forseti ræddi nokkuð um skýrslur deildanna og saknaði að vonum margra. Væri þó sú bót í máli, að ýmsar deildir væru enn á dögun, þótt ekkert hefði heyrzt frá þeim að svo komnu. Skýrði hann t. d. frá starfsemi deildarinnar í Seattle, er hann kvað hafa staðið með góðum blóma á síðastliðnu ári.

Minntist Dr. Beck einnig nokkuð á starfsemi deildarinnar í Wynyard.

Forseti las bréf frá Margréti Pétursson, ritara íslenzku kennarastólsnefndarinnar, þar sem hún skýrir frá þeim áfanga, sem nú hefir náðst í því sameiginlega áhugamáli allra Vestur-Íslendinga. Var samþykkt tillaga frá Dr. Beck þess efnis, að ritara nefndarinnar væri skrifað og nefndinni óskað til hamingju og þakkað hið mikla starf hennar. Studdi Salome Backman tillöguna, og var hún samþykkt.

45 Home Street,
Winnipeg, Man., Feb. 21, 1953

Rev. V. J. Eylands,
President, Icelandic National League,
Winnipeg, Man.

**Dear Mr. Eylands:**

By this date, you will have received word that the Foundation Committee will not be presenting a report to the annual meeting of the Icelandic National League this year.

It was felt by members of the Committee that a report at this time would be for the most part a repetition of the report given at the convention in June, inasmuch as the main activity of the Committee has been a continuation of its efforts to organize local committees in the various Icelandic communities to assist with the collection of funds.

It is the wish of the Committee therefore to defer making any report until this phase of the campaign is concluded and final reports are at hand from all communities taking part.

Donations to the fund received to date and on deposit with the University of Manitoba amount to $193,546.16. In addition there is revenue accrued to the fund amounting to $9,945.98. In view of the excellent progress made the Committee is hopeful that the campaign for funds will be concluded before the next annual meeting of the Icelandic National League.

Wishing the executive and members of the Icelandic National League every success at its forthcoming convention, I remain,

Yours sincerely,

**Margrét Pétursson**

**Nefndarskipanir**

Egill Fáfnis og Richard Beck lögðu til, að forseta væri falið að skipa 5 menn í eftirfarandi nefndir. Var tillagan samþykkt.

**Samvinnumálanefnd við Ísland**

Dr. Richard Beck
Finnbogi Guðmundsson
Jóhann Frikriksson
Elín Hall
J. E. Eiríksson

**Útgáfumálanefnd**
Ólafur Hallsson
Sigurður Einarsson
Salome Backman
Philip M. Pétursson
Mrs. Margrét Goodman

**Útbreiðslumálanefnd**
Finnbogi Guðmundsson
Herdís Eiríksson
Eiríkur S. Brynjólfsson
Mrs. L. Sveinsson
Mrs. H. G. Sigurðsson

**Fjármálanefnd**
Grettir L. Jóhannsson
Daníel Líndal
Jón Ásgeirsson
Haraldur Ólafsson
Sveinn Pálmason

**Fræðslumálanefnd**
Egill Fáfnis
Mrs. J. B. Johnson
Ragnar Stefánsson
Mrs. T. J. Gíslason
Páll Stefánsson

Dr. Beck las bréf frá Sveini lækni Björnssyni og frú Marju, í Minniota, þar sem hann ræðir um frekari framkvæmdir í skógræktarmálinu. Hafði Ólafur Hallsson einnig bréf fram að færa í þessu máli frá þeim hjónum. Var samþykkt að vísa málinu til samvinnumálanefndar.

Eiríkur Brynjólfsson ræddi möguleika á því, að stofnaðar yrðu sambandsdeildir innan Þjóðræknisfélagsins, t. d. ein eða tvær deildir á Kyrrahafsströnd, er héldi sitt eigið ársþing, en sendi síðan fulltrúa á aðalþingið í Winnipeg. Ræddi dr. Beck nokkuð þetta mál, og var loks samþykkt að vísa því til útbreiðslumálanefndar.

Valdimar Björnsson var nú kominn á fundinn, og kallaði forseti nú á hann. Ávarpaði Valdimar síðan þingheim og var hressilegur að vanda.

Egill Fáfnis gerði tillögu um, að fundi yrði slitið og komið aftur saman kl 10 á þriðjudagsmorgni.

Um kveldið hélt Þjóðræknisdeildin Frón samkomu, er var mjög fjölsótt; var skemmtiskráin þessi:

O, Canada — Ó, Guð vors lands
ÁVARP FORSETA ............ Jón Ásgeirsson
QUARTETT: - { Pearl Johnson, Lilia Eylands, Albert Halldórsson, Alvin Blöndal }
Við hljóðfærið: — MRS. B. V. ÍSFELD
a) Bára blá ............... Sigfús Einarsson
b) Vængjum vildi ég berast ........Dolores
FRUMORT KVÆÐI Lúðvík Kristjánsson
RÆÐA OG KVIKMYNDASÝNING
Valdimar Björnsson
QUARTETT:
a) Fjallkonan ......................O. Lindblad
b) Vort ættarland með ís og glóð
J. Hartmann
FRUMORT KVÆÐI ....Páll Guðmundsson

**Þriðji fundur**

þjóðræknisþingsins var settur af forseta, V. J. Eylands, laust eftir kl. 10 á þriðjudagsmorgun 24. febrúar. Las próf. Finnbogi Guðmundsson fundargerning síðasta fundar, er var samþykktur án breytinga. Þá las ritari heillaóskaskeyti til þingsins, er forseta hafði borizt frá Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík, undirskrifað af forseta þess, hr. Sigurgeir Sigurðssyni biskup, og ritara, Ófeigi J. Ófeigssyni lækni. Var skeytinu tekið með fögnuði og lófataki af þingheimi.

Reykjavík, 23. febrúar 1953
Rev. Eylands,
686 Banning St., Winnipeg
Heill og blessun fylgi störfum þingsins og Þjóðræknisfélaginu í nútíð og framtíð.
Þjóðræknisfélag Íslendinga
**Sigurgeir Sigurðsson**
**Ófeigur J. Ófeigsson**

Dr. Beck gerði tillögu, er séra Philip M. Pétursson studdi, að forseta og ritara væri falið að senda Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík þakkar- og kveðjuskeyti, samþykkt.

Ritari las árnaðarsóskir til þingsins frá deildinni „Aldan" í Blaine Washington, er undirskrifaðar voru af forseta og ritara deildarinnar, séra Albert E. Kristjánssyni og frú Dagbjörtu Vopnfjörð; einnig las ritari ársskýrslu deildarinnar. Var bæði kveðjunni og skýrslunni veitt móttaka með þökkum, samkvæmt tillögu Ólafs Hallssonar og Philips M. Péturssonar.

**Álit samvinnumálanefndar**

1. Þingið færir Þjóðræknisfélagi Íslands þakkir fyrir góða samvinnu á liðnu starfsári og viðtökur þær, sem Vestur-Íslendingar hafa átt að fagna af hálfu félagsins.

2. Þingið lýsir ánægju sinni yfir komu ýmissa góðra gesta frá Íslandi, og hefur forseti getið nokkurra þeirra sérstaklega í skýrslu sinni.

3. Þinginu er það fagnaðarefni, hve margir Vestur-Íslendingar hafa lagt leið sína heim til ættlandsins á liðnu ári, og er það ekki síður mikilsvert en heimsóknir hingað frá Íslandi.

4. Forseti hefir þegar getið hópferðar þeirrar til Íslands, sem próf. Finnbogi Guðmundsson hefur nýlega auglýst í vikublöðunum íslenzku, og skorar nefndin á þingfulltrúa að fylgja þessu máli hver í

sínu bygðarlagi. Ríður á miklu, að þessi ferð takist vel, því að með henni fengist sú reynsla, er ómetanleg yrði, er komið verður á frekari ferðum í framtíðinni.

5. Þingið fer þess á leit við væntanlega stjórnarnefnd félagsins, að hún athugi möguleika á mannaskiptum milli Íslendinga austan hafs og vestan, með svipuðum hætti og verið hefur um prestaskipti á vegum kirkjufélaganna.

6. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að athuga vandlega, hvernig bókaviðskiptum við Ísland verði komið í betra horf og hvetur deildir og lestrarfélög til samvinnu í því efni.

7. Nefndin hvetur til, að haldið sé vakandi hugmyndinni um öflun útvarpsefnis austan hafs og vestan og gagnkvæm skipti á því.

8. Þingið víkur þeim tilmælum til væntanlegrar stjórnarnefndar, að hún rannsaki hvernig sakir standa um ræktun skógarbeltisins á Þingvöllum í nafni Vestur-Íslendinga, og hvetur til frekari framkvæmda í því máli á grundvelli þeirrar samþykktar, sem gerð var á þjóðræknisþinginu fyrir tveim árum síðan. Telur nefndin, að hér sé um að ræða mikið metnaðarmál hvað okkur snertir Vestur-Íslendinga.

9. Nefndin vill á ný mælast til þess við væntanlega stjórnarnefnd, að hún haldi áfram að leita fyrir sér um möguleika á frjálsum sendingum gjafaböggla til Íslands.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg,
24. febr. 1953

**Richard Beck** **J. Fredriksson**
**Elín Hall** **Ásta Erickson**
**Finnbogi Guðmundsson**

Dr. Richard Beck var framsögumaður þessarar nefndar; var álitið í 9 liðum og lagði hann til að það væri rætt lið fyrir lið; Miss E. Hall studdi, samþykkt.

1., 2. og 3. liður hlutu einróma samþykki þingsins. Þá var 4. liður, er fjallaði um hópferð til Íslands, tekinn til umræðu; próf. Finnbogi Guðmundsson, er átt hefur forgönguna í því máli, útskýrði allar aðstæður á þessu stigi málsins. Dr. Beck brýndi fyrir fulltrúum að hvetja fólk í sínum byggðarlögum til að notfæra sér þetta einstæða tækifæri til að heimsækja ættlandið, og í sama streng tók forseti. Var þessi liður síðan samþykktur.

Nú var umræðum um nefndarálitið frestað, því samkvæmt dagskrá voru nú komnir á þing forsetar Icelandic Canadian Club og Leifs Eiríkssonar félagsins, W. J. Líndal dómari og Gestur Kristjánsson, til að flytja þinginu kveðjur.

Flutti W. J. Líndal kveðju þá, er hér fer á eftir: —

Icelandic Canadian Club sendir hinu þrítugasta og fjórða ársþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðarkveðjur og einlægar óskir um vaxandi störf og yfirgripsmikla samvinnu á komandi árum.

Því næst flutti Líndal dómari ýtarlegt erindi um tildrögin að stofnun Leifs Eiríkssonar félagsins; ennfremur skýrði hann, frá sínu sjónarmiði, hinn sameiginlega tilgang hinna þriggja félaga, Þjóðræknisfélagsins, Icelandic Canadian Club og Leifs Eiríkssonar félagsins, og svo frá sérstökum tilgangi hvers félags fyrir sig. Að lokum lagði hann fram fyrir þingið þessa tillögu:

„Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi er sammála öðrum félögum, sem íslenzk þjóðræknismál hafa á stefnuskrá um það, að til þess að samvinna geti verið sem nánust, er nauðsynlegt að hún sé byggð á viðeigandi grundvelli og samþykkir að sá grundvöllur sé innifalinn á ensku í þessum orðum:

„Co-operation with representation in matters of mutual interest", en á íslenzku þannig:

„Samvinna með viðeigandi samtökum í öllum sameiginlegum málum".

Gestur Kristjánsson, forseti Leifs Eiríkssonar félagsins, studdi tillöguna, en lét þess um leið getið, að félagið, er hann veitti forstöðu, hefði notið samvinnu beggja félaganna, Icelandic Canadian Club og Þjóðræknisfélagsins, og væri þessi tillaga því aðeins formleg yfirlýsing þess, er þegar ætti sér stað. Var gerður hinn bezti rómur að máli beggja ræðumanna.

Dr. Beck kvaðst vilja endurtaka það heit Þjóðræknisfélagsins að eiga samvinnu við öll félög, er störfuðu að sama markmiði og það, og ætti sú samvinna að vera jafnan byggð á sameiginlegum skilningi, fullkomnum trúnaði og heilindum af hálfu allra aðilja.

Séra Eiríkur Brynjólfsson tók þá til máls og kvaðst hafa fagnað því, að frétta um stofnun félags ungra Íslendinga í Winnipeg — Leifs Eiríkssonar félagsins, úr því félagi myndi væntanlega dreifast út um íslenzku byggðirnar leiðtogar og forustumenn í íslenzkum þjóðræknismálum; árnaði hann félaginu heilla og einnig Icelandic Canadian Club. Var tillaga W. J. Líndals dómara síðan samþykkt.

Forseti beindi því til þingsins, hvort ekki væri ráðlegt að samstilla krafta þessara félaga með því að kjósa fulltrúa úr hverju félagi í samvinnunefnd. Dr. Beck lagði til að því máli væri vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar. Páll Johnson studdi, samþykkt. Þá var fundi frestað til kl. hálf tvö e. h.

**Fjórði fundur**

var settur af forseta kl. 2.40 e. h., 24. febrúar; var þá tekið til umræðu á ný nefndarálit samvinnunefndar, og var 5. liður samþykktur, samkvæmt tillögu Dr. Richards Becks og Ólafs Hallssonar. 6., 7., 8. og 9. liður voru einnig samþykktir, og svo nefndarálitið í heild sinni viðtekið og samþykkt samkvæmt tillögu framsögumanns og Ólafs Hallssonar.

**Nefndarálit í fræðslumálum**

1. Að próf. Finnboga Guðmundssyni sé þakkað hið ágæta fræðslustarf hans með ferðalögum og heimsóknum hans til hinna ýmsu deilda.

2. Nefndin leyfir sér að mæla með því, að lestrarfundum, sem gefist hafa svo vel, sé komið á fót sem víðast.

3. Að stjórnarnefndin beiti sér fyrir því, að maður, eða menn, séu fengnir til að ferðast til deilda til þess að efla íslenzku kennslu, og safna sögulegum fróðleik, og yfirleitt styrkja sem bezt alla þjóðræknisviðleitni.

Nefndin telur sjálfsagt, að deildir taki þátt í áföllnum kostnaði við þetta starf.

4. Nefndin leggur til að stjórn Þjóðræknisfélagsins útvegi íslenzkar myndir — (Filmslide Library), sem svo deildirnar gætu fengið lánaðar til eflingar starfinu heima fyrir.

Á þingi í Winnipeg, 24. febr. 1953

| | |
|---|---|
| **E. H. Fáfnis** | **Mrs. J. B. Johnson** |
| **Ragnar Stefánsson** | **Louise Gíslason** |
| | **Páll Stefánsson** |

Séra Egill Fáfnis lagði til, að fyrsti liður væri samþykktur með því að menn risu úr sætum, og lét þingheimur þannig fögnuð sinn í ljósi yfir hinu mikilvæga starfi próf. Finnboga Guðmundssonar og einnig með því að klappa honum óspart lof í lófa. Próf. Finnbogi þakkaði með nokkrum hlýjum orðum þessa viðurkenningu og einnig fyrir vinsamlegar móttökur, er hann hefði átt að fagna í byggðum Íslendinga.

2., 3. og 4. liður voru samþykktir eftir rækilegar útskýringar af hálfu framsögumanns, séra Egils Fáfnis; og var síðan nefndarálitið viðtekið og samþykkt í heild.

**Skýrsla útbreiðslumálanefndar**

1. Þingið þakkar öllum, sem unnið hafa að útbreiðslumálum á síðastliðnu tímabili.

2. Eins og kunnugt er, bauð stjórnarnefndin á seinasta ári deildum samvinnu um öflun dagskráratriða á samkomum. Hafa tvær deildir þegar notað sér tilboðið. Væntir þingið að tilboð þetta standi áfram.

3. Tillaga hefur oft komið fram um það á þingum, að félagið hefði sérstakan erindreka, er færi um byggðir, styrkti deildirnar í starfi þeirra, vekti upp deildir, er lítt eða ekki væru starfandi, stofnaði nýjar o. s. frv. En vegna kostnaðar hefur Þjóðræknisfélaginu ekki tekizt að halda úti til lengdar slíkum erindreka.

Nefndin leggur því til, að fenginn verði einn erindreki í hverju hinna stærri umdæma, t. d. einn í Manitoba, annar í Saskatchewan, þriðji í Dakota og Minnesota, fjórði í Alberta og einn eða fleiri á Kyrrahafsströnd. Fengu þessir erindrekar ferðakostnað sinn greiddan, og standi aðalfélagið og deildirnar sameiginlega straum af honum. Mundi þá sparast kostnaður af stórferðalögum.

4. Sr. Eiríkur Brynjólfsson hefur á þessu þingi vakið máls á því, að stofnuð yrðu deildasambönd í hinum fjarlægari byggðum og hafði þá sérstaklega Kyrrahafsströndina í huga. Ættu þær deildir saman árlegt þing, er kysi síðan fulltrúa á allsherjar þingið hér í Winnipeg. Mundi þannig verða tryggt, að þessar fjarlægari deildir slitnuðu ekki úr tengslum við aðalfélagið og Vestur-Íslendinga í hinum fjölmennari byggðarlögum.

Mælir nefndin hiklaust fram með þessari skipan við stjórnarnefndina.

5. Unnið hefur verið að því að afla kvikmynda frá Íslandi, utanríkisráðuneytinu verið skrifað í því skyni og fleiri aðilum. Eru horfur á, að úr þessu rætist nokkuð á næstunni.

| | |
|---|---|
| **E. S. Brynjólfsson** | **Sigurður Sigurðsson** |
| **L. Sveinsson** | **Herdís Eiríksson** |
| | **Finnbogi Guðmundsson** |

Framsögumaður, próf. Finnbogi Guðmundsson, lagði fram álitið í fimm liðum og var það rætt lið fyrir lið, samkvæmt tillögu hans og séra Egils Fáfnis. 1. liður samþykktur; um 2. lið spunnust allmiklar umræður, er Ólafur Hallsson, Dr. Beck, séra Eiríkur Brynjólfsson og séra Egill Fáfnis tóku þátt í, og var hann síðan samþykktur. 3., 4. og 5. liður voru og samþykktir, og skýrslan í heild viðtekin og samþykkt.

Nú var veitt 15 mínútna kaffihlé og fóru flestir þingmanna niður í neðri sal hússins og voru þar sungnir margir vinsælir íslenzkir söngvar undir forustu séra Eiríks Brynjólfssonar.

**Skýrsla útgáfumálanefndar**

Útgáfumálanefndin leggur til:

1. Að þingið votti ritstjóra Tímaritsins, Gísla Jónssyni, þakklæti fyrir ágætt starf á ritstjórn Tímaritsins og góða frammi-

stöðu á Íslandi s.l. sumar í sambandi við útbreiðslu ritsins þar.

2. Að þingið votti Mrs. Björgu Einarsson þakklæti fyrir hennar mikla dugnað við auglýsingasöfnun fyrir Tímaritið, og auglýsendum fyrir ágætan stuðning við ritið.

3. Að þingið þakki Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Reykjavík fyrir góðar undirtektir á bendingum og ráðleggingum ritstjóra ritsins, hr. Gísla Jónssonar, í sambandi við útbreiðslu ritsins á Íslandi.

4. Að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að sjá um útgáfu Tímaritsins á komandi ári og ráða ritstjóra.

5. Að þingið telji vel viðeigandi að prentun ritsins verði falin íslenzku prentsmiðjunum Viking Printers og Columbia Press sitt árið hvoru, eins og hefur verið gert undanfarin ár.

6. Að þingið leiti til stjórnarnefndarinnar að upplýsingum um frágang á tillögunni, sem samþykkt var á þinginu í fyrra í sambandi við hækkun á verði ritsins.

| | |
|---|---|
| **P. M. Pétursson** | **Margrét Goodman** |
| **Salome Backman** | **Sigurður Einarsson** |
| | **Ólafur Hallsson** |

Framsögumaður, Ólafur Hallsson, lagði til að skýrslan væri tekin lið fyrir lið. 1., 2., 3, og 4. liður voru samþykktir. Eftir nokkrar umræður var samþykkt, samkvæmt tillögu framsögumanns og Sigurðar Einarssonar að fella úr nefndarálitinu 5. og 6. lið, og var skýrslan síðan samþykkt með áorðnum breytingum, samkvæmt tillögu Ólafs Hallssonar og séra Eiríks Brynjólfssonar.

Páll Johnson gerði tillögu um að Gísla Jónssyni yrði þakkað ágætt starf hans í þágu Tímaritsins. er hann heimsótti Ísland í fyrra; var það samþykkt með því að menn risu úr sætum.

**Álit fjármálanefndar**

Fjármálanefnd þingsins hefur nú yfirfarið og athugað skýrslur féhirðis, fjármálaritara og eftirlitsmanns á eign félagsins að 652 Home Street, sem liggja fyrir í hinu prentaða formi, og áður voru yfirfarnar af endurskoðendum félagsins, og leggur til eftirfarandi:

1. Að fjárhagsskýrslur embættismanna Þjóðræknisfélagsins séu viðteknar og samþykktar eins og þær liggja fyrir í hinu prentaða formi.

2. Að framkvæmdanefndinni sé falið að athuga gaumgæfilega tekjulindir félagsins og auka þær, svo að hægt væri fyrir félagið, að minnsta kosti, að standa straum af hækkandi kostnaði í rekstri félagsmála.

3. Að félagsgjaldið sé hækkað 1. janúar 1954 upp í $2.00 og sé Tímaritið í því gjaldi. Þar sem um deildir er að ræða, þá haldi deildin eftir einum dollar af hverju fullborguðu fullorðins ársgjaldi.

a) Að ævifélagsgjaldið sé nú ákveðið $25.00.

b) Að gjöld fyrir ungmenni og börn haldist óbreytt samkvæmt fyrirmælum 19. gr. grundvallarlaga félagsins.

c) Að þingið feli framkvæmdastjórninni lausn þessa máls á þeim grundvelli, sem þingið og lög félagsins mæla fyrir.

4. Að umræður hefjist á þessu þingi, á hvern hátt bezt væri að hækka meðlimagjöld svo um munaði.

Á þjóðræknisþingi, 24. febrúar 1953

**Grettir Leo Johannson,** formaður
**Sveinn Pálmason**
**Haraldur Ólafsson**
**Jón Ásgeirsson**
**Daníel Líndal**

Grettir L. Jóhannsson lagði fram álit þeirrar nefndar í 5 liðum og lagði til að það væri tekið lið fyrir lið. Voru 1. og 2. liður samþykktir umræðulaust, en öðru máli var að gegna með 3. lið, því sumar deildir höfðu innheimtað 1 dollars meðlimagjöld fyrir árið 1953, en aðrar 2 dollara gjald fyrir sama ár; eftir allmiklar umræður var samþykkt að breyta félagsgjaldinu að fengnu samþykki ríkisritara Canada.

Samkvæmt tillögu Dr. Becks var umræðum frestað um 4. lið þar til kl. 10.30 á miðvikudagsmorguninn.

Grettir L. Jóhannsson ræðismaður kvað sér nú hljóðs og flutti þakklæti til þingsins frá föður sínum, Ásmundi P. Jóhannssyni, konu hans og sonum, fyrir hlýhug og blómagjafir og heimsókn forseta félagsins og Dr. Becks, er tjáðu honum þannig virðingu og þökk fyrir dyggilegt og langvarandi starf í þágu félagsins.

Fundi frestað til kl. 9.30 á miðvikudagsmorgun.

Um kveldið hélt Icelandic Canadian Club fjölsótta og ágæta samkomu í Fyrstu lútersku kirkju.

**Fimmti fundur**

þjóðræknisþingsins hófst kl. 10.40 f. h. 25. febrúar.

Ritari las fundargerðir þriðja og fjórða fundar og voru þær samþykktar breytingalaust. Þá las ritari heillaóskaskeyti til þingsins frá Mr. og Mrs. J. J. Bildfell, Lachine, Quebec, og var því fagnað með lófataki.

Nú var tekið til umræðu á ný fjármálanefndarálitið — 4. liður þess, er fór fram á, að þingið íhugaði á hvern hátt hægt

